# Rimur
af
# Gissuri Jarli Þorvaldssyni.

Qvednar
af
Løgmanni
Sveini Sølvasyni.






Leirárgørdum vid Leirá

Prentadar á kostnad Landphysici
Jóns Sveinssonar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schaa

Þó þessar Rímur seu nú útkomnar frá Prentverki ens konúnglega íslendska Lands-Uppfrædíngar Fjelags, mega þær samt ecki teljast medal þess forlags-bóka, sem þad siálft bjódur Almenníngi til uppbyggíngar og vísinda smeckbætirs, heldur prentast þær fyrir bón og betalíng Hra. Landphysici J. Sveinssonar; þess vegna hefi eg eckert látid mjer vidkoma rettíngu Próf-arkanna og þeirra lesinr, eins og þær prentvillur, sem í Rímunnum máskje finnist, þess vegna ecki ega ad tilreiknast mjer.

Leirá, þann 10da December. 1800.

M. Stephensen.



# I. Rima.

## Um foreldri Gissurs.

Skálda-tølu í vilï einn Dma-haukur lenda, Minn þó fiadra sæki seinn Saguar-lands af enda.

2. Hier skal ecki háð nie spott Hast til-efn-is qvæda, Ednr hitt, sem of-er gott Vid Eddu saman ad slæda.

3. Er þad heldur áform vort (A því mun eg stinga): Ad rekja mál um raddar-port Af rausnum Islendinga.

4. Annara landa er þad sidur (Eignadur skáldum sønnum): Ad færa søgn í fagrar qvid-ur Af frægum edalmønnum.

5. Høfud-skáldid Hómerus, Hærsta Gryck-ja prýdi, Og vallendskur Virgilius, Vondudu svoddan smídi.

6. Friett hef'eg ad Fránkis-menn, Frægir í mentum øllum, Dikta muni drápur enn Af darra-vidum snjollum.

7. Svo eru' víða heims um hríng Hetjur enn á døgum, Hvørra verkin virðta slíng Valda miklum søgum.

8. Þó var' ei nú á vorri fold Vopnarunnar slíkir, Samt haf'aður ankið mold Aðrir hinum líkir.

9. Eru þar til ótal røk Orkt í qvidum fornum, Og sagna-dæmi ljóst óløk Lands af ýmsum hornum.

10. Þau hafa seinni feings við fund Fært til heyrnar-ranna, Skáldin alda greidt á grund Gnoðar ígultanna [1]).

11. Einnig hefir dróttin dýr Diktað ljóðin søgur, Yfir fánýt æfintýr' Og ýmsar lyga-søgur.

12. Kalla' eg betur komið til Kjalars-øl að vanda Af efnum heim, sem eru með skil Og á røkum standa.

13. Vorra skyld'ei landa lof Liggja' í sorpi gleymsku, Menn þá prýða yfir of Æfintýrin heimsku.

14. Mjer því rennur gjeðs um gólf Gaman ef verða mætti, Erindis-bøgur tíu' eða tólf Tvinna í hróðrar-þætti. 15. Ut

[1]) Igultanni er Bjarndýr; Gnoð er Skip; Bjarnar-skip er Is; Isa-grund er sama sem Island.

15. Ut af frægum Islendíng' Efni dreyf'eg þessu, Er halda kunni hofmanns þíng Og hildar sækja messu.

16. Grein'eg þennann Gissur Jarl, Geymir ægis-ljóma, Fædst hefir ei um Ísa-hjall Ædri' honum ad sóma.

17. Mín þó taki mærdin skammt Mærfug þann ad leysa, Koma mun til søgunnar samt Og sónar-fanngum dreysa.

18. Vil eg því bera ad vørum þjód Vignis fyrsta minni; Ósta' eg menn og ágæt fljód I því smeckinn sinni.

---

19. **Þorvald** grein'eg **Giss-ursson**, Gjætir strauma suna, Sydra hér á svidris-gvon, sat og bjó í Hruna.

20. Tjorguvidur talinn var, Med tignar-monnum hoskum, Ætti gofugt ættarfar Af Íslendskum og Norskum.

21. Egin-qvinnu audar-þyr Ást vid lagdi stóra; Klangs var Biskups dóttir dýr Drósin kollud Jóra.

22. Erki-biskups ordlof feck Ad ekta vísid skyldi, Ærin tíu unnt var reck Auds vid búa hildi. A 2 23. En

23. En sem tugur ára sá Yfirstadinn væri, Skyldu þau aptur skilin þá, Þó skipulega' ei færi.

24. Mundu syfjar meinum slíkum Milli þeirra valda, Eptir kirkju-reglum ríkum, Sem rampápiskir halda.

25. Annad mála efni rís, Af því vér nú spjöllum: Mann ek I nefna Gudmund Gris Gesugann Þings á vøllum.

26. Dæilegar dætur tvær Dreisir átti seyma, Bádar hétu Þórur þær, Þessar sátu heima

27. Prýdd var lystum píkan hvor Prúd og velkunnandi, Þóktu hin bestu kosta-kjør Af konum hér á landi.

28. Tídum systra leidin lá, Lérept bleikja sínu Þar, sem fellur Øxará Almennings um gínu [1]).

29. Einhvorn dag, sem á var gott Yfir í tjeda gjána, Systur fóru sinn med þvott, Og sátu þar vid ána.

30. Mælti

[1]) Gína er gjá, svo kallast hún í Sturlúngu.

30. Mælti hin eldri menja-grund (Mjúkt var gamanid beagja): Hvad býr þér í hugarlund Um hagina' ockar tveggja?

31. Mun svo lída lengi hér (Leidist mér sú ydja), Enginn verdur audar-grér Ockar til ad bidja?

32. Svarar hin yngri seima-bil: Svo búnu má una, Hugsun litla hingad til Hef'eg um giptínguna.

33. Sæmilegt ad sonnu er hér: Svarar hin eldri Þóra; En fyrir þad eg finn ei mér Fagn' eda skémtun stóra.

34. Systirin yngri segir þad Satt, ad miklu leiti; En máské þyki eitthvad ad Þó út af þessu breyti.

35. Vel má, eldra vísid qvad: Verda í slíkum greinum; En gjorum samt hér gaman ad Og gétspekina reynum.

36. Segdú mér þad: systir mín! Sjálf hvorn mundir kjósa Bragna helst ad bædi þín, Og birtú rétt hid ljósa?

37. Því mitt býdur þánka-far, Þad mig nádi dreyma, Ecki munum vid ógéfnar Ætíd sitja heima.

 38. Þorf

38. Þorf á slíku engin er, Ansadi vel-jan þráda: Hvad sem hér um fleipra ser, Forlögin munu ráda.

39. Svarar hin eldri: satt er þad, Sæta-mun forlögum, Þad sem minna mark er ad Enn manna ráda-hogum.

40. Samt vil eg þú segir mér, Sif-jarhadda-bryggja: Hvad þú ætlar helst fyrir þér Til hjúskaparins liggia?

41. Yngri Þóran ansar þá: Eg þad ráðlegt kalla, Ad vid látum ofan í strá Ockar rædu falla.

42. Máltak hafdi menja-skord Mér svo þánkinn býdur: Opt þad ser og flýgur ord, Sem fram um munninn lídur.

43. Ei þyki mér undir því Hin eldri svaradi meyja, Þó hér gjorist eitthvad í, Sem adrir kunni' assegja.

44. Eg mun fyrri inna þér A hvorn vildi kjósa, Ef þú gjorir aptur mér Atl-un þína ljósa.

45. Yngri mærin ansar stillt (A var leidi nóckurr): Þetta ad byrja þér er skyldt Þú ert fyrir ockur.

46. Þóra en eldri þá uppqvad: Því vilda eg nædi, Jón Sigmundarsonur ad Sjálfkrafa mín bædi.

47. Víst hefir þú svo valid þér, Vísid svarar yngra, Ad eptir-kjorid ætla' eg mér J ollu verdi þýngra.

48. Ætlad hefir ecki þú Undangánga láta Þann besta kost af korlum nú Kappar snjallir játa.

49. Kjósa skal eg mér þá mann, Mun þad færri gruna, Þér ad segja, þad er hann Þorvaldur í Hruna.

50. Vild'eg Jóra væri daud J vegi svo ei stædi, Hana jordin hyldi raud, En hann mín aptur bædi.

51. Hættum þessu hjali nú, Og hermum fólki engu, Sagdi hin eldri seima-brú; Sídan heim þær gengu.

52. Árin tíu' á alda-slód Af nú lidin vóru, Sem Erki-biskups ordlof stód Um ektamálin Jóru.

53. Bóndans milli og brúdar þá Svo blíd var ást úr máta, Varla qvadst hann vunnid fá Vísid frá sér láta.

54. Fyrr'enn tími lángur leid (Lucka var þad hinnar), Jóru sókti dapur deyd Og dró til grafarinnar.

55. Situr nú í sorgum fyrst, Svinnur eckju-madur, Eptir lidna lauka-vist, Laungum var ógladur.

56. Vorid kémur, hrugnis hold Hryndur stacki sjúka, Ymsir láta fák um fold, Í ferdir vída strjúka.

57. Þorvaldur og þessi Jón, Sem Þórur gjørdu kjósa, Atti saman ferd um frón, Er framar af skal glósa.

58. Vestur í Borgar breidann fjørd Burdugir gjørdu rída, Á Þíngvøllum í þeirri ferd Þágu gisting' blída.

59. Þá drengir fóru úm daginn burt, Drjúgt bar þeim í rædur, Um beggja systra kosti' og kurt, Svo qviknudu ástar-glædur.

60. Vestan aptur venda senn Vaskir brjótar fleina, Og Þíngs á velli þyggja enn Þægann nætur beina

61. Plegudu bádar systur saman Sofa' og hvílu byggja, Hin eldri Þóra fyrir framan Féck vid stock ad liggja.

62. Veiga-skordan vekur tal (Var þad gjort med rádum): Ockar hvílu skipa skal Skjóma-lundum bádum.

63. Eg þann reckinn ega vil, Er hjá stocki liggur, En þú hinn, sem upp vid þil Umbúd vora þyggur.

64. Vissi' hún Þorvalds vandi stod, Værd hjá stocki' ad fánga, Hvorutveggi hrínga-slód, Med honum vildi gánga.

65. Þú munt ráda þessu framt, Þórsan hugri sagdi; En forlög ockar fara samt, Sem fyrir audnan lagdi.

66. Sídan menn til sængur gá, Sigmunds frétti nidur: Þorvaldi hvort þægra má Þil eda stockinn vidur?

67. Vanur er eg, hann Valdi tjer: Vid rúmstockinn byggja, En velja skaltú veiga-grér hvar viltú sjálfur liggja.

68. Þá mun eg, qvad Sigmunds-son: Sofa fyri framan, Um þad, svo sem var til von, Vírdum kom nú saman

69. Myrkur fara dyllir drótt Draumar skémtu mengi, Þar til hennar arfinn ódt Upp nam vekja drengi.

 70. Studd-

70 Studdir giptu stoltar menn Stódu nú á fætur, Og brádt sin hesja bónorden Bónda þar vid dætur

71. Sú hin eldri linda-laut Lofast sjordi Jóni; En Þorvaldur hina hlaut, Sem hyggju bjó í fróni.

72. Vóru saman vígd med kurt Veiga-grér og svanni, Hún svo medur honum burt Héldt úr fodur ranni.

73. Herjans gríma [3]) flodid fær-Ur fati rhma sagnar, Svefni gríma [4]) kemur kjær, Qvedin ríma þagnar



## II. Ríma.

Um fædíngu, uppvøxt og utanferd Gissurs.

Aptur læt eg sudra súd ad sónar idi Sveyma fram af sagna ládi, Og sæta fenju vara-grádi.

2. Gángi

[3]) Grímar, kølludust fordum horn (sjá Olafs sogu Tryggvas. í Þætti Helga Þórissl.); Horna-flód er dryckur.

[4]) Gríma, fæm. er nótt.

2. Gángi menn til gauta sjós, er girnast heyra, Hversu dyunr bodnar bára Og bjartar lyndir freyjn-tára.

3. Einkum bid eg: æsku-þjódin ad því gátti, Er segir hjer í sagnar þætti Af svinnra manna úngdóms hætti.

4. Fagra sagna fleir'ern not enn fylla' upp eyra, Mest er af þeim mark ad læra Menn hvad kunna' í nyt sjer færa.

5. Er þad fyrir orva-runn'á æsku-stundum Margt, sem bera má ad höndum Og mæta sídar efnum vöndum.

6. Eck'er nóg fyrir únga menn ad ydka kjæti, Ellegar med lurd og leti Lengstum vera' í sínn fleti.

7. Utreidirnar ecki heldur ofmjög fremja, Reidgotana reyna, temja, Rída, sprengja, qvasa' og lemja.

8. A ósidum hjer odrum vil eg ecki stínga, Sem láta' um sídir lunda spánga Lucksustig á mis vid gánga.

9. A fullordins aldri slíkt mun ecki gagna, Þá manndómsleysis margur vegna Missir hlut vid adra þegna.

10. Sumir lóta fljóta fiøl af fødurládi Yfir drøfn til danfkra þjóda, Drecka þar út peninga góda.

11. Koma' út ftrax med-forda, ftock og klædin nýju, Eckert lærdu' af þeim þáu, En apafkap hjá nørrum fáu.

12. Adrir ftunda', og er því betur, íþrótt fnialla, Gódra dæmin føgur fylla, Fremd og lofstýr ad fier hylla.

13. Eins og Siffur eflauft hefir á æskutíma, Hjá fínum fødur fvinnum heima Sidprýdina lært ad geyma.

14. Svo fullkomnadift framafemin fetbreids ulli, Er ftutulfveinn í Hilmis høllu Heidur fieck af mengi fniølln.

15. Dedifera' eg diktinn' fonum dándismanna, Saungur þó ad kallift qvenna, Eg qved hann famt til bauga-hlenna.

16. Ødru finni yrkja mun til audar-lauta; Nordra fneckiu nú fkal beita Ráms um fiørd til føgunnar leita.

---

17. Blunds í landi braft þar ádan bodnar-feiru, Er Þorvaldur eptir Jéru Yngri faftnad hafdi Þóru.

18. Frygg-

18. Fryggjan menja fór nú heim med festarmanni; Hvort þar hjóna odru unni Af ástúdlegu hjartans grunni.

19. Hugnast líka hvorjum odrum hildur seima, Stód nú þeirra bú med blóma, Brast ei margt á kjörin sóma.

20. Dró svo tíd ad dróss vard audid dóttur vænnar, Hjóna-gledin hvorgi rírnar, Haldóru fékk nafnid skírnar.

21. Odrusinni slétt gjördist audar tróda Og úngan son gat af sér fæda; Um hans heiti verdur ræda.

22. Kolbein Tuma nú skal nefna nærst til mærdar, Geymir sá var grettis-jardar Godordsmadur Skagafjardar.

23 Þjódhofdíngi þessi var og Þorvalds frændi, Vidirness hann féll á fundi Þá fór ad Biskupi Gudmundi.

24. Kappar vildu kalla sveininn Kolbeins heiti; Þorvaldur í þánka-hóti Þessu heldur lagd'i móti.

25. Mun ei sonur minn þeim taka menta stofni, Ad kallast megi Kolbeins jafni, Kafnar hann þá undir nafni.

26. Vitrir hafa menn og mælt ad megir ýta [1]) Skyldu' e[illegible] skotnum heita, Er skyndileg' af heim[illegible]ta.

27. Gissur kalla mun því mögur minn og Þóru, Örqvisar þeir engir váru Í ætt vorri, þad nafnid báru.

28. Hlaut nú sveinninn heilagt bad í hjálpar-laugu, Og Gissurs nafnid göfuglega, Sem gjæsan studdi alla vega.

29. Ungvidurinn upp nam renna ægisljóma, Fyrst í gardi fodurs heima; En fleiri géta verdur heima.

30. Nýtann bónda nefna skal í Nordurlandi, Sighvat kalla seggir mundu, Sat í Eyjafirdi á Grundu.

31. Höfdíngi var hjörfa-grer í héradinu Sturlúson af stóru kyni, Stoltar átti marga syni.

32. Sturla hétu, Tumar tveir og tvennir Þórdar, Kolbeinn líka, kempur hardar Qvistir urdu sofnis jardar.

33. Síd-

[1]) Megir ýta: Mögur er sonur, in plur. megir, synir, og megir ýta, synir manna.

33. Sídar fram í sögunni koma sumir þeirra; Ofaanadar allmörg snerra, Af þeim stód og fleira verra.

34. Stórbugadur Sturla var og stilltur illa, Hadi laungum víg á velli, Vestra bjó á Saudafelli.

35. Ríkborinnar refla-skordu reckur beiddi; Sú var heitin sveva brodda Sæmundsdóttir fædd í Odda.

36. Solveig nefnist sæfar-gota sunnu frídur, En Valgerdur vissins módir, Vellaudugar falda slódir.

37. Bodid var til brúdkaups monnum bestu sydra, Samqvæmid ad sækja og heidra Og svinnum grundum sofnisbreidra.

38. Hjá Þorvald'í Hruna skyldi hófid standa, Þángad teitir virdar venda Vindsvals mog þá reiddi' á enda

39. Síghvatur med sona makt og sinni qvinnu, Beinar þángad brautir kunnu, Sem beitsla-dýrin vakurt runnu.

40. Var þar fyrir veitsla búin veglegasta, Sturla sídan fljódid festi, Farnast hefir vígslan Presti. 41. Skip-

41. Skipadir vóru skutlar kríng af skotnum dýrum, Straumurinn úr staupahverum Stodvadist á sylfur-kerum.

42. Báru sveinar beckjum fyrir bjúgvid hausa, [2]) Góms ad skérjum bragna brúsa Brymgardarnir öldu-krúsa.

43 Þá Ynjodur þannig mæta þjód í máta gladdi, Þjónustumenn bóndinn beiddi Ad born sín fram í stofu leiddi.

44. Biskups dóttur bornin fyrst ad bordi vendu, Sighvatur þau sá um stundu, Og sagdi ad færri vænni mundu.

45. Þarnærst komu Þóru born og Þorvalds bónda; Gissur framí fyrir þeim stendur, Fadirinn hélt um sveinsins hendur.

46. Er nú þetta ástin mín, hann inna gjordi, Miklu þækti víst mér varda Vel þér litist njótur barda.

47. Sighvat bónda sett'í þogn, á sveininn stardi, Hinn úngi mann, fyri midju bordi, Móti einardt líta þordi.

48. Um

[2]) Bjúgvid hausa: það er dryckjuhorn.

48. Um sidir tekur svo til orda seimabjódur: Pad minn býdur pánki stadur, Petta vist er gjæfumadur.

49. En eck'er mér um ýglu-brún hann á mig hvetur; Porvaldur gaf þar ad gjætur Og þetta umtal falla lætur.

50. Veitslan leiddist allvel út vér ei Pad hræsnum, Bóndans hrósa reckar rausnum Og ridu gladir heim ad lausnum.

51. Porvaldur nam Grundar-god' á gøtu leida, Runnar tedir rognis glóda Ræddu margt um vináttu góda.

52. Sighvatur bad seimalundinn svo tilgæta: Ad sennum trygdum sambands hóta Synir þeirra gjerdu' ei róta.

53. Hann í gaupnir horsdi sér med hyggju drjúga, Og gjordi' ad ansa geymi laga: Gætt mun þess um ockar daga.

54. Ad svo mæltu audkhýfingar allvel skyldu, Oskir þar hvorr odrum toldu Afgætar, og qvedjur voldu.

55. Gissur vaxa gjorir nú í gardi heima, Remur frama, sid og sóma, Sækja mál og gæta dóma.

56. Einnig fleiri íþróttir, sem ýtum haga: Örvum skjóta beint af boga, Beita dör og herjans loga.

57. Lifdi þannig listum aukinn laufa-njótur, Uns hann hafdi átján vetur; Allar var ei mentur betur.

58. Fýsa gjördi fleina-grér, til fremdar-hóta, Ut í Norveg líka leita, Sem luckan vildi högunum sleyta.

59. Bjóst hiñ úngi brodda-vidur brádt til ferda, Og stigur út á sákinn fjarda Fróns vid jadar megin-gjárda [3]).

60. Vaknar kári og vingjarnlega vid honum lítur; Ægir vard ei eptir-bátur, Og í hófi gjördist kátur.

61. Mæltu svo: ad manns-efni ei mærra vissu Hédan burt, á hlunna-essi, Hafa fluttst enn væri þessi.

62. Rann

[3]) Megin-gjörd kallast sjerílagi belti Asa-þórs, er hann girdtist med; en almenni-lega er sjór kalladur Gjörd eda Belti Jardar.

62. Rann á byr, en linni lóns frá landi skridur, Vindur Þandi vodir breidar, En vera-jörinn ódum skeidar.

63. Hef'ea ecki fleira frétt af ferdum Þeirra, Fyrr'enn nádi fólgu-kérra Keyr' ad bygdum Norvegs Herra.

64. Hákon Jofur, sonar-sonur Sverris gylda, Nam í Þann tid Norvegs veldi Rýtur stýra' og lof ei feldi.

65. Garpar slepi gánga af og gistu' á landi. Gissur nádi Fylkis fundi, Fagnad honum vel Þar mundi.

66. J frændsemi vid frægann Gram var fleygir skeyta; Þess hann laungum nádi njóta, Rafns Þad honum olli bóta.

67. Gofugum sveini Gilsa hof-fólk gjordi hæla; Veturinn fyrst hann var til Jóla Velmetinn í hollu Sjóla.

68. Skutul-sveinn Þá skipadur var skérdir fleina, Kóngs fyrir bordum Þessir Þjóna; Þad er ei gjort fyrir nockra dóna[4]).

69. Hof-

4) Dóna; Þessi glósa er ad sonnu ecki góð Norræna, uppfundin á seinni tíd til ad

69. Høf-júnkar þeir heita nú med herv-um ríkum; Tiggjar plaga til þess brúka Tignar-manna sonu mjúka.

70. Akra-blóm og orma-neyd, sem eptir-fylgdi, Gissur medur Gilsa dvaldi, J gæfu, sæmd og besta haldi.

71. Jón þá Murtu brádt adbar til Björguvinar, Komst í hyrdlög Kóngs Hákonar, Kundur Snorra Sturlusonar.

72 Skúla Jarls var skutulsveinn sá skikir stála, Og gista vann í gyldi Sjóla Gissuri med um hátíd Jóla.

73. Eptir Jólin, innt er mér ad ullar slaungu, Kóngs á setri í gjúkhólf [5]) gengu, Og góda skál þar tídum fengu.

74. Kést-

merkja þá med, sem eru ósnotrir og búra-legir,

[5]) Gjúkhólf; svo kallast í sjálfri Sturlúngu, en uppruni fyrra partsins í ordinu, er mjer ókjenndur Hólf og gólf, brúkast ýmist fyrir hús; skilst mjer af sögunni, þad þýdi Verts-hús, edur Gjesta-herbergi.

74. Késju-borvar komu seint á qvöldi einu Gladir heim, úr gjúkhólsinu, Gistíngar ad herberginu.

75. Sveinar hösdu' ei sæng uppreidt né sölir kérta; Reidast gjordi mjög því Murta Og mælti hardt vid þessa surta.

76 Ann'ra medal innan ranns var Olafur svarti; Hañ réd svara máli Múrtu Og máské ecki af allri kurtu.

77. Gramdist Jóni', og greip þar ein' á gólfi skidu, Lætur hana ad Lása rida; Loddaranum þad nam svida.

78. Gissur höndum greip þá Jón svo gjord'ei falla, Líka vel hann vildi stilla, Svo vid ei fleira bærist illa.

79. Olafur fann ýmu stáls og upp svo særdi, Hana Jón'i hösud keyrdi, Hljóp á dyr, en skeinan dreirdi.

80. Brast vid sá, som benina fékk af brædi syldur, Og qvad sér undir höggum halda Hoskann tærir oturs gjalda.

81. Sveinar hlupu sídan greidt af salnum ofan, Og úti myrkrid eitthvad rása; ecki hösdu meir'af Lása.

82. Aptur snéru' og áverkanum um-
búð veittu; Allmjøg Jón sín illa gætti,
Hidryckjunni' og boði sætti.

83. Laust þá verk' í lítið sár og leiðri
pínu. Í forn-heilræði finnst það einu:
Forakta ei litla skeinu.

84. Bjó það Jóni banasæng og bleik-
ann dauða; Jarðarför hann gisti góða,
En Gissur hyrdti fallna sjóða [6]).

85. Annað sumar út hann féð til Ís-
lands hafði; Hjá Snorra var þá rógi
reifður, Og ránglega við vígið dreifður.

86. Þorvaldur kom því til vegs, að
þjassa-mála Þundar skyld'un þetta tala,
Svo þyrst'ei verða heipt úr kala.

87. Snorri kom á firða fund og frá
hið sanna; Funtardóms þar eið nam inna
Ullur honum beuja linna.

88. Að verið hefð'ei verki í né véla-
ráði, Að Snorra kundur bana biði;
Bragnar við það skildu' í friði.

89. Giss-

[6]) Fallna sjóða; merkir fallinn arf, arfur
er fje, og fje er sjóður.

89. Gissurs fadir gjordist nú, sem gamlir flestir, Ellihníginn æru-traustur í Videyjar gëck hann klaustur.

90. Kanúka sër kaus þar náfn hjá Krúnu-bræðrum, Og endti líf í elli gódri; Enda skal nú lokid hródri.

91. Ránar mána rynd ei lyndir rímu slíma; Tunna runnin tóm er óma, Treg'afdregur gómi hljóma.



## III. Ríma.

Um atgjörfi Gissurs og tiltektir Sturla Sighvatssonar.

Vingólf herjans vil eg í Veitslu sækja enn á ný, Ef nockurn fylgja fýsir mjer. Ad finna hid gamla suttúngs-kjer.

2. Bragir tveir þad sýna samt Ad sónar starf mjer eck'er tamt, Þó mun betur þetta greint Í þridja sinn ef til er reynt.

3. Skrafa mun svo skarlags-brú: Skáldin gjör'ad fjölga nú, Þegar hún litur ljódin stird Lítils mín hjá ödrum vird.

4. Ótal skáld þó aunur hjer Iþrótt beri slags af mjer, Ófunda skal ei þau samt; Andnan blífur vid sinn skamt.

5. Ófundin er ecki góð, Illt af henni laungum stód; En þeim sjálfum einna vest I hvörjum hun ríkti mest.

6. Af drambseminni dregur hún kyn, Sem dára margann gjörir ser vin, Er skjúga girnir hærra' enn hrafn, Og hvörjum þykist meir'enn jafn.

7. Ólíklega ef svo fer Hann einhvörn hittir fyrir ser, Er hluta sínum halda kann Hjartad strax af ófund brann.

8. Sparar hvörki fox ne flærd, Fyrr' hefir hann enga værd, Enn gjeti þeim í gröfina steypt Grandad eda' í nockru sneipt.

9. Þegar fleiri þess fá gjætt, Þeim og einum muni hætt, Einhuga sig í þad binda Óssamanni um koll ad hrinda.

10. Maklega þad mjög svo fer, Ad meistari sá sem hugdi ser, Allra höfud yfirstíga, A eptri hlut má nidursíga.

11. Svoddan dæmi sannleg má I sögunni hjer eptir sá, Fleiri lika forn og ný, Finnast voru landi í.

12. Þetta er að varast, vitrir menn! Og
virða fyrir sér afdrifen, Hægra komast opt er í,
Enn úr að sleppa ueti því.

13. Fyrst eg hefi lítið lært, Lengra mun mjer
ekki fært, Að segja fram um sidanna gæði,
Svinnir kunna nóg heilræði.

14. Betra'er nú í byslu-vind Bifurs fleyta
siglu-hind, Fram á sjálfrar sögunnar mið, Þar
sigthrs veiði skild'eg við.

---

15. Að'eg fyrri þrotinn þar,
Þorvaldur, sem allur *) var, Að fodur-
leysdum Gissur géck, Goðorðin og ódul fécke

16. Reisa nam á Reykjum nú Rausn-
arlega mikið bú; Í Ölvesi sá audnu bar,
Óqvæntur um stundir var.

17. Uppgéck vegur ódum hans. Enginn
þókti Sunnanlands Hofdingi, sem hjálma-
thyr, Hladinn mentum, kjæ n og skír.

18. Medalhár að vexti var, Vel limað-
ur, tillits snar, Augun lágu fagurt og fast,
Fridleik engann þar til brast.

  19 Inn-

*) Allur; að verda allur, finnst bædi í Stjórn
og líka Sturlúnga-sögu; þýdir að deyja
eda verda daudur.

19. Innir ſagan (á minn ſann): Allra manna væri hann Aſigkominn um þad beſt, Utvortis til prýdi ſieſt.

20. Mikillegur í málrómi, Monnum betur talandi Fleſtum hér á fóſtur-jord, Og framſýnn eins í rádagjord.

21. Mildur bædi ad mat og fé, Mannádlegur í vidtale; Enginn var hann offamadur, En þó haldinn dijúglundadur.

22. Þegar ſtaddur vid hann var Vina ſinna deilldirnar, Fannſt þad ſeint á fleinaþundi Fylgja hvorjum þeirra mundi.

23. Vóru einnig vinir hans Velfleſtir þar Sunnanlands, Hinir meirihattar bændur, Hér til margir gofgir frændur.

24 Sturla Sighvatsſonur þá Saudafelli veſtur á, I þann tíma uppi vód, Af ſér varla neinn hann ſtód.

25. Margur þar af kenndi kaldt, Kappinn var, ſem landid allt Ætladi ſér einn ad gleipa, Og ann'ra manna ſæmdum ſteypa.

26. Gjora nam þad ordbragd á, Umſýſlun hann hefdi þá, Hákon Kóngi helſt í vil, Og honum vinna landid til.

27. Hann

27. Hann og uppá hermt það er: Í höndum þækti landið sér, Ef að Gissur einsamann Yfirkomið fengi hann.

28. Audsókt þetta ecki var Með opinberlegt hreystipar, Hans að yrði hamíngja lægð; Hyggur Sturla' að brúka slægð.

29. Um Odda-stað hann átti mál, Af því bruggar svoddan tál: Gissur biður búast við Í bróðerni sér veita lið.

30. Gissur játar, heldur enn hitt, Honum veita fylgi sitt; Mörg um þessa málastoð Millum þeirra gengu boð.

31. Sem hin kalda nodru-neyð, Njótum stáls af höndum leið, Til ferða Sighvats bor sig bjó, Og bændamúginn samandró.

32. Hundruð þrjú var herinn manns, Er hèllt á ferð með ulli brands; Þessir nú til sudursveita Sødla drekum gjørðu beita.

33. Eru' ei sagna efnin mørg, Uns hann kom við Hrafnabjørg; Sèr á undann sendi þar Sudur mann til Gissurar.

34. Stefnu lagði stála-þund, Strax að koma á sinn fund; Að Apavatni upp sá reið Og allann þar með flockinn beið.

35. Gissur heiman brádt nú býst Á beitsla-knör, til-ferda sýst, Fjorúthgi, fleina grér, Firda valdi medur sér.

36. Ad Apavatni upp þá bar, Er á daginn lidid var; Ovaddi hvorr sér kunnugann, Er kappa fundi dró saman.

37. Hofdingjarnir (skíra skal), Skorugligir-gengu á tal; Sturla spurdi fjolnir fjár Um fréttir austann yfir ár.

38. Ansar hinn: ad allt í kyrrdum Eystra væri þar med firdum; Hiñ þá fleinafrétti-vid: Hvort fleira þurfa mundi lid.

39. Ei qvadst Gissur ætla þad; Því einginn hefdi mannsafnad; Þá bad Sturla þorna-grér Þángad austur fylgja sér.

40. Hinn því tekur heldur stamt, Heitir þó ad fara samt, Þad ef Sturla þóknist betur; Þetta kjor hans undirsetur.

41. Gissur spurdi hnikar-hængs Hildar-tára [2]) ad vopnum Klængs Birt-

[2]) Hildar-tár, kallast blód; hængur blóds er sverd, eda vopn; hnikar vopns er mannskenning.

Burt-teknum á Bæarfundi [3]), Brynju og hjor frá stála-þundi.

42. Sturla mælti: brimu-blá Bæri Lauga Snorri þá, En Þórdur Gudmundssonur sverd, Sem nú væru' í sinni ferd.

43. Mun eg kalla þá til þín, Þér svo greidi vopnin sín. Géck nú Sturla brádt til beggja, Og baud þeim hond á Gissur leggja.

44. Til Gissurs manns hrópar hátt: Hlífar nidurleggid brádt Annars betur ecki fer, Ef æfi þyna nockrir hér.

45. Seggir brugdu svo vid hardt, Ad sundurbrotnar skaptid margt Ur þraunginni sér trádu tveir, Teitur og Bjørn, svo nefnast þeir.

46. Gissur kalla gjorir þá, Géfid ydur vopnin frá, Heldur enn leggja í hættu sjor, Hlyddu allir stála-bor.

 47. Sídan

[3]) Bæarfundur; var bardagi sá, er Sturla átti ad Bæ í Borgarfirdi; hvar um annarstadar getid er í sogunni.

47. Sídan spurdi seima-grér, Segdú Sturla frændi mér, Hvorju sætir hegdan sú, Mig hondum lætur taka nú?

48. Ansar Sturla og svo qvad:, Ekast skaltú' ei meir um þad, Ædstann hluta ætla'eg mér, Allra manna á landi hér.

49. En mér lyst, sem allir senn, Ysirkomnir séu menn, Þá ér vosum ertú enn, Annar mig ei bugar neinn.

50. Gissuri var borin bók, Bendir álms vid henni tók, Trúnads skyldi inna eyd, Og utan sína serd um leid.

51. Njótur- spyrja -nadþings vann Hvort norskann edur íslendskann, Stylladann og stafadann vildi, Sturla bad hann ráda skyldi.

52. Svara gjorir seimabor, Sjálfur fyrst eg á þess kjor, Norrænann þá vinna vil, Er víkja skal eg Norvegs til.

53. En þad mun eg ádur skilja, Fyrir eidstaf minn, og hvorgi dylja, Ad aldrei fyrir utan vín, Ofugt mæla skal til þín.

54. Eidurinn þá unninn var, Allir gjordu bída þar, Medan kjalars-qvinnu jód, Kreykar yfir vagna-slód. 55. Nærsta

55. Næsta daginn eptir enn Uti Grímsnes héldu menn, Og Ølves, sem inna vil, Allt um qvøldid Reykja til.

56. Gissur fyrir gørpum reid, Med gledibragdi og engu qveid, Enn æ vár Sturla ófrýnligur, Þó ærinn hafa þækt-ist sigur.

57. J hrauni Alptavatnid vid, Wird-ar áttu stundar-bid, Sturla þá med beisku bragdi, A baki sat og lengi þagdi.

58. Þad hefir Gissur siálfur sagt, Sig hafa mest í grun þá lagt, Hvad hvasa mundi hrotta-grér, Helst ad ráda þá fyr-ir sér.

59. Rádslagad á Reykjum var, Um ríki og metord Gissurar, Hvorjum skyldi í hendur fá, Hlýdinn Sturla mundi sá.

60. Biskups nidur Hjallti hét, Hon-um Sturla ríkin lét Veitt, en móti trygd-ir tók, Traust-mál bædi fogur og klók.

61. Gissurar var sá gøfugur frændi, Sem godordunum eptirmændi; en sagan sker þar sidar úr, Hvad seima-bor var Sturla trúr

62. Í geymslu var nú Gissur settur, Gjör var honum slíkur réttur, Undir sína útsigling, Hjá Ormi nefndum svínfelling.

63. Einar Þorvalds einn var búr, Þá ótíðindi þessi spur, Og aðrir fleiri frændur hans, Ferdast bráðt til Norðurlands.

64. Kjöls á vegi kappar þá Kolbeins únga þundi ná, Um vandræðin, sem vóru á ferðum, Var nú margt í ráðagërðum.

65. Flockum safna skyldi skjótt, Og skiljast ei við málið ljótt, Fyrr enn aðrir hvörjir hnígi, Heljar til á valþings stígi.

66. Hjallti Biskups son með sann, Sig og batt í vanda þann, Hentast þókti heijum snjöllum, Að hittast skyldi á Beitivøllum.

67. Gissur líka sjálfur sendi, Sínum vinum bréf-erendi, Og mælti þeim til móts við sig, ef málin þæktu efnilig.

68. Kolbeinn úngi kiss í stand, Ovaddi upp lið um Norðurland, Ytar fyrir utan dvöl, Allir riðu suður um Kjøl.

69. Gissur einn hinn gladi hét, Góð-viljaður fleins í hret, Með átján menn fór eydir víns, Austur í Skál til nafna síns.

70. Við garðinn saman gota bundu, Gengu heim og reckinn fundu, Beiddu að skyldi brjótur-stáls, Burtu með þeim venda frjáls.

71. Þó Ormur væri á það tregur, Annar honum leirst ei vegur, Enn lyst-um prýddann láta beim, lausann fara burt með þeim.

72. Hleyptu nú um héroðin öll, Hold-ar uppá Beitivöll, Þar flockur hinna bidu brjóts Branda, í vændum fle na móts.

73. Svo vóru ráðin seggja sl'ng, Þeir sendu Hjallta uppá þing; Vestan-menn þar hittir hann, Og hleypa upp þeirra dómum vann.

74. Varð þar fátt af vina-ræðum, Vopnum flettí þá og klæðum, Farar-skjóta frá tók þeim, Svo fótgángandi komust heim.

75. Til burtfarar af Beitivøllum, Bláſid var ná hornum ellum, Þá vóru med þolli brands, Þrettán hundrud talin manns.

76. Um Bláſkógs-heidi í Borgarfjørd, Bruna rédi ſveitin hørd, átti ſvo med œrinn ſvala, Alla ſtefna leid til Dala.

77. Vardhøld hafdi Sturla ſterk, Styrjar því ad hugdi verk, Hann og ecki heima beid Heldur lengra veſtur reid.

78. Giſſur þegar ſvoddan ſá, Sidſt var færi Sturla ad ná; Ørlogum þar engum hreiſdi, Aptur ſnýr og flocknum dreiſdi.

79. Sveigir mækja ſudur reid, Svo fram allt ad hauſti leid, Þó brótt væri í yrpu vindum, Ecki vard af ſtórtídindum.

80. Ná ſem ſolna foldar-blóm, Fús ad heja járna-dóm, Sturla gjorir ſtefna ad ſér, Til ſtyrjar anna miklum her.

81. Héllt ná ſtoltur heiman ad, Hlinur brands med lidid þad, Eiga þókriſt orvahreitir, Otaladſ vid Nordur-ſveitir.

82. Til Skagafjardar skjóma-bor, Skicka nádi sinni for, Búsé manna britjad var, Bædi rænt og stolid þar.

83. Med fjøgur hundrud frækna menn, Fadir hans kom nordan senn, Sighvatur í sinni elli, Sjed gat enn nú leik á velli.

84. Svo og allir synir hans, Sem þá vóru innanlands; Brádgjorfir í branda-þrá, Bródur sínum fylgi ljá.

85. Kolbeinn úngi kominn var burt, Er kífs vidbúníng féck hann spurt, Til Gissurs sudur greidt um frón, Garpar sendu lids í bón.

86. Drógu saman mikinn múg, Morgum þókti naudsyn drjúg, Ad kappar lét stálid strángt, Straffa fyrir tálid rángt.

87. Nýtir rída nordur Kjøl, Nóg þeir høfdu manna vøl Kolbeinn undan fylking fór, Því fljótrádur var stala-Þór.

88. Skyld' hann nema ef njósnarmenn, Nockur bæri tídinden, A halanum þess Gissur gætti, Ad gánga úr flocknum enginn mætti.

89. Enginn njósn af ytum flaug, Uns þeir komu að Reykjalaug, Brand um hérað sendu senn, Að samankalla fleiri menn.

90. Firdar kríngum foldar-bað Fjrjá-dags qvøldið séttust að, Reisumóðum vant er værdar, Verdur hér nú endi mærdar.

91. Stundar qvædi protið þver, Þundar rædi brotið er, Rugli góma flygur frá, Fuglinn óma sigur á.



## IV. Ríma.

### Um Orligstada fundinn.

Læst eg enn Ef lystir menn, Leida í fjórda sinni, Gríms enn lasna Ægis-asna, Ods af stodvar kynni.

2. Austra lid Eg um það bið, Aptaná skutinn hrindi, Og siglu-vod Á sudra gnod, Sirpu fylli af vindi.

3. Medan rek Eg málin frek, Milli hosð-íngjanna, Sem um var rædt, Og enn skal tætt, Með úrskurð hjedins-svanna.

4. Vóru

4. Vóru hjer, Sem augljóst er J. sldu forœri skálma, Vastir nóg J vopna-róg, Vidir bjartra málma.

5. Annars 'sæmd En ef var frœmd, Opt í málum ríngum, Sóknar-far Til seggja bar, Sídar á vopna-þíngum.

6. Rekkir enn Hjer máske menn, Mundu í hildar-løgum, Venja sú Ef væri nú, Vorum til á døgum.

7. Tel eg þægd Ad þessa frægd, Þarf ei á ad reyna, Ertt eru løg Til sátta mjøg, Sviñum brjótum steina.

8. Og er þad gott Fyrir utan spott, A þau sig ad temja, Fyrst branda-hrid Er bonnud lid; En bodid frid ad semja

9. Med ólag strang Og efni raung, Þeir ødrum hyggja steypa, Margopt skjer, Sem makligt er, Þeim mætir sjálfum sneypa.

10. Opt þad glis Er andnu slis Ungum þroska mønnum, J vogun happs Ef kosta kapps, Ad kleckja á sínum grønnum.

11. En sinu ver, Þad situr og fer, Sorla meidum stacka, Sem ellin kold, Og æsiqvold, Ytir ad grafar-backa.

 12. Metn-

12. Meinad lif, Og innadarlif, Mál þeim væri ad qvedja, Heldur enn megna, Upp ad egna, Og í þad siálfir stedja.

13. Um þad má I sögunni siá, Sighvats eptirdæmi, Makleg skrift Fyrir málma drift, Meina eg honum kæmi.

14. Ecki er heutugt Minni ment, Meira hier um skiala, Mun þad best, Fyrir mælskann Prest, Sem margt er leyft ad tala.

15. Mannsaungs tal Ur mærdar-sal, Miög á enda sígur, Lómar-hunds Til sónar-sunds Og sögunnar aptur flýgur.

---

16. Bodnar-staup Med herlings kaup, Brotid eg þar feldi, Reykjahjá, sem slaugu lá, Lid á friádags qveldi.

17. Ottustund Þá bregdur blund Brandur kom þar aptur, Hundrad manns I hiorfadans, Hafdi sleina-raftur.

18. Var þá alls Til vopna-spjalls, Vorpid telu á meingi, Fiórtán hundrud Fólk um grund, Fleira leit hér engi.

19. Gissur þá Nam gorpum frá, Greina draumi sínum, Syndist mér Qvad seima-grér, Svefns á hösga mínum.

20. Yfir-

20. Yfirkierkur [1]) Magnús merkur, Minn og fødurbródir, Kom til mín Hans qvedja sín, Kiætti hyggju-slódir.

21. Frændi, qvad Hann: far af stad, Fylgja skal eg ydur, Betur þér, En ó-dreymt er; Arnórs [2]) svarar nidur.

22 Gissur bad Nú brádst af stad, Báist runnar-slaungu, Og eggjar lid J orda-klid, Til oruggrar framgaungu.

23. Hyrdi eg ei J hrotta-þeh, Mig hafid á skjalda-spordum, Fyrir oddum spjóts Og erva-móts, Eins og Kolbein fordum.

24. Frænda minn, Sem fleins í dyn, Fell i Vidirnesi, Honum þá Med fólsku frá, Þeir flúdu úr járna-vesi.

25. Offiahrædir Eins og brædir, Ekki til sín fundu. Jokuls- þá Þeir dou-á, Sem yfir harda grundu.

26. Hugd-

[1]) Yfirklerkur; Biskup Magnús Einars-son, sem innibrann med. mørgum ødrum af skruggu- edur lopt-eldi í Skálholti.

[2]) Arnórs-nidur; var Kolbeinn úngi.

26. Hugdust bera'A herdum sér, Hardar ullar skútur, Sidar hvad Þeir sáu ad, Sodla vóru pútur.

27. Dugid vel J darra-jel, Ad dæmi Sverris manna, Svo ydar lof Um alda-hrof [3]) Æ sé geymt hid sanna.

28. Ætla eg víst, Þad efid síðst, Ydur ei fjærri standa, Ef verdid þér, Sem von mín er, Vel í sjúki randa.

29. Hofkann valla Hann eg kalla, Er hneckja vill ei þessum, Upphlaups flocki, A hvnis skrocki Unda medur skéssum.

30. Gæti vor, Og greidi spor Gud, til sigur kjora, Fjøldi manns Ad máli hans nukinn róm nam gjora.

31. Øldin rock A essin stock, Og yfir Túngu [4]) flacka, J einum splétt, Sem elding rétt, Ofan á vatna-backa.

32. Lát-

[3]) Aldahrof; jørd heitir skip aldar, en hrof kalla menn gamalt skipflak.

[4]) Túngu; Túnga heitir í Skagafirdi háls sá sem liggur í milli Svart-ár og Jøkuls-ár, hvar herinn hefir ridid austur yfir frá Reykja-laug.

32. Látum nú Af kondúngs frú, Lid yfir ána stikla; Sturla til Eg víkja vil, Hann var á bænum Mikla.

33. Seima-grér,,, Med sínum her, Svaf um nótt í skála, Annad lid á ymsa blid, Ut sér gjördi skjála.

34. Fadir hans Med fjolda manns, Fór til Sólarheima, En í blundi ætla eg mundi, Eitthvad seggi dreyma.

35. Glems þá drós Ur setri sjós, Sveibladi bjortum faldi, Sturla brá Nam brotid sá, Og bregdur hvílu tjaldi.

36. Locka-jord A lausa-njord, Lodrar sveita-straumum, Af sér þerdi og inna gérdi, Ecki er mark ad draumum.

37. Kom þá módur Einn, sem ódur Inn og hátt réd kalla: Sunnan her, Ná váum vér, Sá er lítill valla.

38. Sprettur drótt A fætur skjótt, Fjolga sagnir þótti, Morgum sveif J Munnis-kleif Máské nockurr ótti.

39. Sturla géck Þá fram og féck, Flock á hinna líta Ei svo sátt, þad

er,

er, sem smått [5]) Ansaði bendir-ríta.

40. Kappinn hár Til kirkju går, Og kraup að helgum skrínum, Orfa-þollur Upptók Rollu Eina úr Púſſi ſínum [6]).

41. Sverða-hænir Sálm og bæn, Saung með andakt ríka, Ei þess letur Optar getur, Nýju hefði hann slíka.

42. Þá búinn var Til burtferðar, Blés hann flocknum öllum, Oð með reck til orustu géck, Hið efra að Víði-völlum.

43. Kesjubrjót, Þar kom í mót Rol-beinn Sighvats arfi, Hetja neyt, Með sinni sveit Að sýsla í járna-starfi.

44. Snérú

[5]) Ecki er það svo sátt, sem það er smátt, segir Sturla til hughreystingar sinum mönnum.

[6]) Svo qvedur sagan: að hann hafi tekið Rollu upp úr Púſſi sínum. Rolla hjet í fornöld ritud skrá á kálfskinn; því þá var ecki pappír, sem nú. Púss var geymslu-púngur.

44. Snéru greidt J gérdid eitt Gyrdt med lágum hlødum, Háskorn var á hjarli þar, Heitir á Ørligstødum.

45. Sagan hér Ná saman ser, Senn þeis géta verdum, Jøkulsá Þar hinna hjá, Herinn var á ferdum.

46. Fluttust nú Um fiska-brú, Fyrdar á hlunnum gjarda Einn þar datt, Sem upp var bratt, Ofann í sandinn harda.

47. Gissur bád Þeí æpt var ad Opid skyldi ei fella, J þeim hóp, Þad orustu hróp, Undir lúdrar þéüa.

48. Sveitin øll A Ørligs vøll, Upp svo gjordi ad bramla, Sømu þar J svísunum bar, Sighvat ad hinu gamla.

49. Sturla her, Þá aukinn er, Allur frá eg væri, Hundrud tólf Um hildar-gólf, Þó hraparlega færi.

50. Vigs á steck Þar Gissur géck, Ad gardi sunnan verdum, En Kolbeins lid A hina hlid, Hvossum bregdur sverdum.

51. Fedga her, Sem fyrir er, Fleina sýhst vid grídi, Og benjar-orm J

branda

branda ⸗ storm berann svíptir hýði 7).

52. Almur gall, En skálmin skall Og skífdi bjarta hrínga, Ristir hold En sellu á fold, Fossar benrigninga.

53. Drifu spjót Um grund og grjót, Garpa mjög vid hryllti, Örva⸗grimt Svo ⸗el var dýmt, Augad lopt ei grillti.

54. Fellur þjód A flata lód, Fossar unda buldu, Fjardbejnhord I hauka⸗jord Og hjarna⸗kleifum buldu.

55. Foldar⸗gneyg Af fálka⸗veyg, Fram⸗ur í skoglar starfi, Sturla skaut, En hét sá hlaut Hoggjd eitt sinn Narfi.

56. Fístiþolli Fleygdi um koll, Fótum upp svo kastar, Ödr uppspratt Þót ei vard skadt, Undabjódur rastar.

57. Stód nú hörd A hjorþings⸗jord, Hédins festar⸗qvinna, Juna má, Ei ollu frá, Sem hufsir menn þar vinna.

58. Sjálfur fram I geira ⸗ glam Gissur ótævt renndi, Og ytum gégn, Vid rita⸗regn, Rád og varnir kénndi.

59. Gáng⸗

7) Benja⸗ormur; er sverds kjenníng, og þess hýði er slídrin

59. Gángid djarst, En grýtid spart, Gullhrings mælti raptur, Hoggist stór J heila-kór, Þér hljótid af grjóti aptur.

60. Leiknis grond J lóma-strond, Látid á plátum rída, Brotid hold og bein á fold, Svo benjar megi svída.

61. Kallad er, Nú kominn her, Kolbeinn úngi væri, Sturlu lidi, A lendar vid, Og lélega ecki færi.

62. Vóru Því, J krappri qví, Klektir ad bádum hlidum Vestann-menn Og þegnir senn, Válángurs í hvidum.

63. Blódid Þraut, En bleikur laut Bragna ad velli margur Svardar-kró Því svisti ró Sollinn benja vargur.

64. Aldrei fyr Var ebldur styr Ölduhlems ad fróni, Annar slíkur Eda ríkur Eins af manna tjóni.

65. Sighvats bur J sverda-kur Sá ber Kolbein hétum [a]) Hopar senn Med sina menn Af svidris elda fletum.

66. Ey-

[a]) Hjetum; þad er kollum, svo segir í sogunni: ad hejta á menn sine, þad er: kalla á.

66. Eyfirdínga Oldin slýng Eptir í víginu tafdi, Og Kolbeins monnum Máls í onnum Mótistadid hafdi.

67. Sjálfur geck Þá sudur um steck Sighvatur til varna Húsu stáls bár heldur frjáls, Og hyrnu er nefnist stjarna.

68. Einn til hans Ovad ullur-brands Eigi skalltú gánga Fyrir brynir Féndur Þínir Fleinum þær ad stánga.

69. Afram samt Géck enn um skamt Og Eyfirdíngar fleiri, Arni gét eg einn Þar hét, Sem brœpt beitti geiri.

70. Spurdu menn, Ad seggjum senn Svo Því ákapt léti, Madur smár, Sem gamall og grár Ad geisa í styrjar hreti?

71. Ætla eg mér Hann Arni tér, Ecki hédan ad fara Gagn er ei, J gondlar-þey, Gamlann fauskt ad spara.

72. Sighvatur og hinna hvor, Sem honum eptir fóru Utaf gardi ádur enn vardi, Ofann feldir vóru.

73. Leifs son Bjørn Vid laufatjørn Líkna Sighvat vildi, Haldid féck Ad hofdi reck Og hylút undir skildi.

74. Þrotinn

74. Þrotinn mjög Við þorna-lög Þá var ellimóður En skeinur sár, og skjóma-tár Skofnúngs hafði bjóður.

75 Kom að þar, Sem karlinn var, Kolbeinn úngi á velli, Spurði snjall Hvörr húkti um hjall [9]) Hníginn maður elli.

76. Til var sagt að Sighvat lagt, Seggir þarna hefði, Kolbein spyr Því hárs með hir Hann þeir drepa tefði.

77. Honum Björn Þá veitir vörn, Virðar þá tilsvara: Látið þér Þann laufagrér, Líka með honum fara.

78. Björn frásnýr, En Kolbeinn knýr, Að klæða gomlum runni, Heljarspjót Þar hjálmsellsrót, Herðum mæta kunni.

79. Ei varð stór Á álma-þór Áverkin af þessu, Oddur brotinn Af var hrotinn Undatannar skéssu.

80. Hinn

*) Svo sagði Kolbeinn; hvörr húkir þarna? að húka, þýðir sama og krjúpa eða hokra sér niður, og sá kallast hokinn, sem ekki er rétt upp.

80. Hinn þá tér, Sem hnígiun er: Hofumſt ord vid nockur, Randa-gnÿ Pó raununi í Ráðir ná fyrir ockur.

81. Einar drángi, Annañ gáng Avann bendi ríta, Reykjar-þró Med hrotta hjó Og hans nam æfi ſlíta.

82. Fleiri enn, Ad ſeggjum ſenn Sveifl-udu hildar bákni, Var þar hjá og ſvodd-ann ſá Sighvatur nafni djákni.

83. Ofann á Síns nafna ná, Nótu grér [10]) ſig lagdi, Sjálfur þar og veig-inn var Verju medur flagdi.

84. Audkiſſingur ára-hríng, Ærinn bar til grafar, Sexthgi vetur, Sjø þó betur Sannlega bókin ſtafar.

85. Arni med, Sem ádur er téd Æſti herjans glædur Feigdum giptur, Fjøri ſviptur Féll þar, nær áttrædur.

86. Feigdin kold, Svo elltir old Opt til vandrædanna. Betri ſtund Oſs géfi um grund, Gjætir himna ranna.

87. Odins

[10]) Nótu-grer; nóta er í ſaung, og Djákna-verk er ſaungur, því má hann vera rétt kjenndur til Nótu.

87. Odins lid J ódar-klid Af ørva børfar fundum, Mædir rjód á rædu flód, Rás úr qváfis undum.



## V. Ríma.

Um fall Sturlu og endir bardagans.

Vaknar andi vífa raums Vals á yggjar-fjöllum, Þjód í landi þreyir, draums Pundar-blandid horna-straums.

2. Vill til setu efnis enn Ecki bodid vera, Lidinn vetur segjum senn, At sumrum lecur qvedlingenn.

3 Vetur færi ádur á Örligs velli ad qvedja, Svo genginn væri geira-þrá Og Gissur bæri sigurinn frá.

4. Eg mun verda um eina stund J austra smidju' ad gánga, Qváfis herda enn í und Orda sverd, mjer bør i lund.

5. Get eg hlýdi heldur þá Hrotta þeim ad beita, Medan strídur stáls í þrá, Sturla rídur helveg á.

6. Mátti spjalla mengid kátt, Málma þar á sundi, Brytjad varla væri smátt Er vopnid skall á honum blátt.

7. Stórhøfdíngi Sturla var, Studdur kost-um mørgum, Hans jafníngja hvørgi bar Haud-urs-dyngja vestra þar.

8. Nídurbrjóta nádi flest Nýtt í mannsins fari, Metnads hóta volsid vest Og vard ad fóta-skjebli mest.

9. Ohóf lengi finnast sá, Fornt svo máltak rómar, Svoddan mengi sanna má, Sjed hafa drengir þar uppá.

10. Þeir ed sækja hoskann hinn Høld ad nídurkjesja, Heldur enn rækja sóma sinn, Sig í flækja vandrædin.

11. Er þad skadi ecki rír Þá ílla svo til-gengur, Listum hladinn laufatýr Lucku-bladi frá ser snýr.

12. Svinnir líti svo á þad, Sem í speigli væri, Hinna víti varist ad Og vondsleg býti í málastad.

13. Trandl'a farnast meira mjer J mann-saung fram ad týna, Lakur arnar-leirinn ber Lítinn kjarna ad eyrum hjer.

14. Mann-

14. Mannfanngs nefna mun því fyrst, Mæta síbln þagnar, Svidris hrefna.[1]) sónar þyrst Til sögunnar síefna finnur lyst.

15. Veidi-matur vidris þá Var þar nærst á forum, Karlinn flatur fleins vid stjá Fell Sighvatur vals í strá.

16. Undir mála kémur qvern, Kappinn aptur Sturla, Hann þar stála stíms vid tjorn Styrjar-bála fluiti vorn.

17. Gissur herdir ódum ad Yggjar fiúk ad drygja, Inni gérdid eptir þad Orvamerdir, geysa' í stad.

18. Sóktu slíngir sunnan-menn Og sára þornum beita, Ad audkýfingi ort í senn, Opt þar klíngja stálin tvenn.

19. Blóds þar slita hlíf og hold Hardar oglis-tennur[2]), Rausa. spýta fleins um fold, Feigir líta nidur ad mold.

C 2 20. Vest-

[1]) Hrefna merkir blandann Hrafu, en hrafn Odins, er hugurinn, og kann eins vel ad kiennast til qvennhrafnsins, sem hins hvata.

[2]) Oglir er ormur, en ormur-blóds er vopn.

20. Vestan-manna lidid lá, Lemstrad hvort um annad, Víga-hrannar velli á, Vargar tanna fallinn ná.

21. Sturla vardist vel og fimt Varla' í sóknum línur, Hann medan spardi helid grimmt Og hildar bardi elid dymt.

22. Fyrir gyldum fleina-ver, Frá' eg Lauga Snorri, Hlífdar-skyldi halda fer, En hvorgi vildi forda sér.

23. Yfir svardar haudri hans, Held-ur Sturla sínum Ucnis-jardar ylja-skans [3]), Og svo vardar þéssa manns.

24. Féll um sídir þrotinn þó, Þegn med hreysti snjalla, Benja hridar sildur sjó, Og sára gridar út af dó.

25. Eptirstendur uppi hér Ossamad-urinn Sturla, sínar hendur vaskur ver, Vopnum rendur móti ber.

26. Grá-hét -sída [4]) gamalt spjót, Glæstum slegid málmi, Med því stridur stáls

[3]) Skjöld er rett ad kjenna til fóta hrugnis eda annars jötuns, og má eins kallast skans; því á skonsum er stadid.

[4]) Grásída hjet spjót í sögu Gísla Súrssonar, og verdur hjer aptur nefnt í Sturlúngu.

stáls vid rót, Stefnir lýdum heljar mót.

27. Hann svo lagdi hardt med vør, Al hnackann margir skullu, En hvorgi bragdar hold né fjør, Hlýfar-flagdid beygdi' af vør. [5])

28. Vopnid þetta var ei stinnt Veikladist mjøg fyrir røndum, Vid økla stéttir er svo kynnt, Opt vard rétta járnid linnt.

29. Hann med spjóti hæfa bjóst, Hunraudur ad nafni, Sturla í móti lagdi ljóst laufa-njóti framan í brjóst.

30. Var Hunraudur vexti smár, Vandada brynju hafdi, Fjúks óblandur fjølnis hár, Fell á haudur, vard ei sár.

31. Annar sinum eptir þad, Er sá Konrád nefndur, Rendi brínum benjanad, Blossa-rínar gætir ad.

32. Sturla innir yrs vid grér: Ernú þarna? fjandinn! Svarar hinn: mín ætlan er, Ad hann finnast muni hér.

 33. Dr-

[5]) Fyrir Vør meinast hjer bladid á spjótinu, svo sem stálid fyrir øxinni kallast munni; svo

33 Orløg reynir annad sinn Upp og spratt Hunraudur, Stángar flein'i Sturlu kinn, Stód i beini oddurinn.

34. Sturla segir styggur þá: Strálin flest nú meida, Er djøfla greyinn dáda-smá I darra þey, mér vinna á.

35. Vígs þó brøgdum beiti menn, Bauga-freyr sig vardi, Par til flegdum unda enn Ad honum legdu tveir í senn.

36. Hjalta lysti Biskups bør, Blód ad vekja Sturlu, Vinstra nísti vángann bor, Vopnid gist'í tanna-skor.

37. Hins er kunni hildar-verk, Hét sá Bødvar Kampi, Orvarunni upp um querk, Inn í munn gékk sjodrin sterk.

38. Þremur stúngin sárum, seig Sóknar vinna á Sturlu, Benja-þrúngin hornum hneig Og hardtnær sprunginn gèds um teig.

39. Svo vid Hjalta seima-grér, Sagdi: grid minu frændi! Honum snjallt

svo quad Snorri Sturluson um spjótid Gráſidu: hvøss var hún heldur ad kyssa, nú ern þad varirnar, sem kysst er med.

snjallt ad hinn svo tér: Hafa skalltú grid af mér.

40. Geira-hvídu gaf sig frá, Af gérdi út nam stumra, Hjalta stýdur herdar á Hjálma-vidur likur ná.

41. Skamt frá gardi skjóma-bor, Skrímnis laut ad brúdi., Traudt þó bærdi ordaor.[6]) Svo hvum færdi skirleg svor.

42. Þegnar skilja þóttust ná Þad eitt af hans máli, Prests ad vilja fundi sá, Fenju-kylja mundi þá.

43. Allt var þrotid orku-par, Þó ond um brjóstid flogti, Yfir skotid skyldi var Skyckju-sprota á velli þar.

44. Giffur rétta gengur leid, Geirs ad follnum runni, Og hlífum fletti hjors af meid, Í hauka-stétt var opin breid.

45. Hann og sagdi hjals af kró: Hér skal eg ad vinna, Og benja-slagdi hvossu hjó, Hins ad bragd'i svardar-þró.

 46. Full-

[6]) Ordá-ór; túngan, sem kjenniſt til máls og ýmsra vopna.

46. Fullann bana feck hann þá, En fleiri síðan báru, Hrosshárs Grana yfir á Andarvana Sturlu ná.

47. Ýmsa vegi flúði' um frón Feðga lið, sem horfði, Ottafleigið sverðs úr són, Sárs varð fegið hvildi ljón [7]).

48. Tumi flúði Sighvatsson Senn til norður-heiða, Fákinn knúði, lét ei lon Um londúngs-brúði, fjors í von.

49. Kolbeinn stikla kunni snar Kund-ur Sighvats gamla, Heim að Mikla-bæ sig bar Og bað um lykla kirkjunnar.

50. Meginn flóttinn meður rekk Messu nádi ranni, Hurð að dróttum dregið feck, Dauðans ótti yfirhéck.

51. Hinn þar eptir látinn lá, Er landi hugði' að ráða; Gissur hreppti gripi þá Er garpur slepptu hníginn frá.

52. Hraðt á láði herinn þar Heim til flótta manna, Glediljáðir geðs um far Géck, og báðir hofðingjar.

53. Bragnar teitir buðu frið Bestu flestu monnum, Þeim er leita gjorðu' um

[7]) Ljón-sárs, er sverð eða vopn.

um grid, Gissur veita nádi lid.

54. Sögu lengja þarf ei þá, Þegnum fridt var öllum, Sex nema gengu seggir frá, Sem ei fengu gridum ná.

55. Geira-þórum gyldt'ei meir Gissur lífs ad bidja. Synir vóru Sighvats tveir, Svo og fjórir heldur enn þeir.

56. Í gridum rýma rísa-spjalls Runnar af helgi-setri [8]), Hinir slíma inni alls Undir tíma sólar-falls.

57. Qvádu seggir: kirkjan ad Kallast óhelg mætti; Sumir eggja eptir það Eld í leggja þegar í stad.

58. Drjúgum leiddi dellings nid. Dockfou fram ad aptni; Kolbeinn beiddi' ad géfa grid Til gángs, er' neyddi, í Salernid.

59. Leyfis-drengjum unt var enn, Erindum þeim ad gégna, Í skálann gengu seggir senn Og sína fengu litid menn.

60. Sá' um slegid lá þar lid Lángs med reckju-stockum, Kynja fegid kættist vid, Ad Kolbeinn þegid hefdi grid.

C 5 61. Örva-

[8]) Helgi-setur, er kirkja edur annad heilagt hús.

61. Örva-vidur ansar þá: Er þad vel ad sonnu; Þó er' snidur annar á, Og ecki gridum kostur ná.

62. Þá setid hösdu línna-lands Lundar um stund í kamri; Sem þarsir krosdu þarma-stands, Þar ei tosdu innan ranns.

63. Kolbeinn styldra frám þá ser, Firda þar í milli, Spurdi gyldur geira-ver, Hvort gánga vildu' ei út med ser.

64. Heggin stór ad horfa á, Hinum vard ei af mynni, Ut af ljóra-ljóni þá Lausa-þórar aptur gá.

65. Kols- nam beida -beinn um sinn Burdugann hersföringja: Fyrri deyda' enn frænda sinn Og fram sig leid'á höggstockinn.

66 Gissur snögg þar gaf til svor: Gjárnan slíku sinnti, Svo var heggvinn seima-bor, Sárs med dogg þar blæddi úr sjor.

67. Sighvats kundur Þórdur þá, Þ r t'l hoggs var leiddur, Blóds nam í ndar barkann á Bita í sundur herdum frá.

68. Heila borgir hradt í stad Hinir fjórir mistu, Drjúgum sorgar benja-bad, A bana-torgi jókst vid þad.

69. Manna-follum lokfins lét L-kid Gissur vera, Stála-trollid Stjarna hét, Er stýfdi af ollum hjarna-flet.

70. J feigdar-feigju féll til sanns Fedga alls af lidi, Fjórungi frá eg mannas Og frekar' níu í stormi brands.

71. Sighvats arfar tvennir tveir, Týndust þar med honum, Ferd óþarfa fóru þeir, Vid frœda-starfi koma' ei meir.

72. Markús tórdi hjors af hret, Heima af sárum deydi, Kolbeinn, Þórdur líka lét Líf og fjórdi Sturla, eg gét.

73. Hina fleina er fárs-um stíg, Féllu þar med nafni, Annann greina alle enn mig A því reyna bid eg sig.

74. Sex úr suna svidris-þrá Sakn-adi Gissur manna, Audnu-runi hinna hjá, Hans var munur gjœfu sá.

75. Svoddan valla hefir hád, Hofd-ings onnur kémpa, Satt eg spjalla, sverda-grád Silúngs-hallar-þaks um lád.

 76. Hvíld-

76. Hvíldist vigur hreystimanns, Er happi styrdi laungum, Æfinligur innanlands uppi sigur verdur hans.

77. A allra túngu bauga-bør, Betri gjørdi mønnum Heldur enn úngi Rolbeinn kjør, Kynja þúng hann veitti svør.

78. Sá med hreysti sigurinn bar Af svidris-elda fundi, Upp nú leysti afreks snar, Og á burt reisti sídan þar.

79. Lætur gjarda geysa hjort, Greidt til sudur byggda, Ferd nam skarda æris ørt, Yfir jardar-hvelin svort [*]).

80. Yfir-rádin aptur tók, Øll sem fyrrum hafdi, Sjó í nádum kempa klók, Kjør med dádum sóma jók.

81 Ofnis-móa eik sér fêck, Eina ad fylgjulagi, Sú hêt Gróa, er sinnti reck Og sídst nam óa vid þeim smeck.

82. Auds med gêfni arfa þrjá, Atti njótur seima, Ef eg nefna nenni þá Nordra stefni sigur á.

83. Ytar hêtu Ìsleifur, Annar Hallur þeirra, Þridji Retilbjørn var bur Brædra gêtinn sídastur. 84. Ægis-

[*]) Hvel jardar eru fjøllin.

84. Ægis-bríma aſkar þrír, Urú' í ſödur-gardi, Svefn og gríma ſinni lýr, Samin ríma bladi' umſnýr.

85. Njóti klæda endíng er Ódarmál ad ſkepja [10]), Þrjóti qvæda hendíng hér, Hljótid gjæda ſendíng þér.



## VI. Ríma.

Um dráp Snorra Sturluſonar og tilteftir Urækju.

Enn vill ſækja ímu-vedrid kalda, Fjölnis ſkála ſkúrir í, Þ ó ſkjemtan lítil verdi' ad því.

2. Lángt er ſídan læſt var qvæda ranni, Fornt um gætti er ordid eins Og í goda-hoſi Sveins [1]).

3. Svaſuds-arſi, ſem nú fram er lidinn, Fjölſkyldu mjer færa vann Freka, ſvo ad man eg hann.

 4. Ærn-

[10]) Skepja ɔ: ſkapa, ſjá Völuſpá

[1]) Goda-hoſi Sveins; ſjá þátt Sveins og Finns í 2. P. Ol. ſ. 43. Kap.



4. Eyrnum hafdi eg onnum því ad gegna, Um hásumarid horna-lá Herjens mátti frjósa þá.

5. Ef vindsvals mögur vjer sem litid höfum Feta gjörir fótspor hins, Fátt mun þá til gamansins.

6. Veiga-sól eg voga því ecki' ad' bjóda Nockra skjemtun náms um gaung, Nátlvakan þó finnist laung.

7. Þad orkar varla utan svefns og leida, Sjónum bædi og eyrum í, Þó eitthvad hræri eg vid því

8. Víst er sagan verdug betri ljóda Enn vellkast í þad vísna-rugl, Sem verpa kann minn óma-fugl.

9. Undra má ad enginn vorra skálda, Hafa skal til hennar þenkt, Og hujkars öl þar út af skeinkt.

10. Ef höfudsmidir hanars-báta mestu, Vid því hafa veigrad sjer, Varla mun þad hentugt mjer.

11. Því margt er þúngt í mála-skjali fornu, Ad setja fram vid sónar-drosu, Samtal manna orþ og uosu

12. En hitt er leidt ad hætta í midju kasti. Ecki dugir ófreistad, Eg skal hugga mig vid þad.

13. Mörg kó skáldin mjög í venju leiði, Varlóminn að berja ser, Bæta mun það ei fyrir mjer.

14. Mannsaungs læt eg mind að sinni falla, Nú skal hitta norðra-lið, Nærfeldt þar eg skyldi við.

15. Gissur var að gjörvu setstur ráði, Leið svo dólgur fiska-fróns [2]) Freðna hèr um vegu ljóns.

16. Kjalars víf þá kastaði jökla hjúpi, Naðir stríðu naumu-bands [3]), Frá Norvegi til Íslands.

17. Óreiða het Arni farar-maður, Hafði Jósurs Hákonar hingað bréf til Gissurar.

18. Undirbjó það Oðlings riti greindu: Að Gissur skyldi gríms af goon [4]) Gjöra Snorra Sturlason.

19. Lands-

[2]) Fiskar fróns, eru ormar, þeirra dólgur veturinn.

[3]) Naumu, ein ey, hennar band sjórinn; naðurinn, sem það stríður, er skip.

[4]) Grímur; Oðins heiti, hans kona land eða jörð; það átti að gjöra Snorra að utan.

19. Landráda þar lýst var sök á Snorra, Að fullu banni Filkis í Farið Hefði af Norveg því.

20. Kóngs á fund var krafinn nú tilsvara, Að oðrum kosti ef ei vill þann, Atti Gissur drepa hann.

21. Doglings bréf fór dulið mjög í fyrstu, Leið svo fram á árið eitt, Ecki bar á þessu neitt.

22. Næsta sumar náði Gissur ríða, Kjøls á veg og Kolbein fann, Qvað nú málið upp við hann.

23. Budlúngs því að boðskap ecki vildi Aqvarðadann ørva-grér, Undir hofuð leggja sér.

24. En qvaðst vita að aldrei mundi Snorri, Oh..udugúr utanfor, Undirgángast hjálma-bor.

25. Því létst vilja þegninn hondum taka, Reisti síðan reckur heim Og Ræsts héllt upp erindum þeim.

26. A ymia vegu að sér liði stefnir, Og í Sjóla erinda-gjord Afram héllt í Borgarfjørð.

27. Reyks

27. Reyks- í -holti rjkur bjó þá Snorri, á Mauritíu-messu nótt Menn þar komu og fóru' ei hljóðt.

28. Brotin upp var bóndans sængur-stofa, Vaknar Snorri við þann glaum, Var það ecki að góðum draum.

29. Komst hann inní kjallara einn með skyndi, Fáklæddur og fól sig þar Fyrst á meðan leitað var.

30. Lofsins urðu lýðir hans þá varir, Þó njorva væri dóttir dymm, Drengir á hann rata fimm.

31. Ei var Gissur einn í þeirra tolu, En Símon Knútur yrði á Arna beist að hoggva hann þá.

32. Ei skal hoggva, innir Snorri á móti, Arni þó með géðið gramt, Gjorði vega að honum samt.

33. Fleins á grér þar fleiri síðan unnur, Mannskaði í málma-þór, Mátti kalla væri stór.

34. Íslands hann eldúngur var mesti, Fjölvitur og fróður mjog, Forgott skáld og kjærn við leg.

35. Ofilsengimn átti mo.g einn Snorri, Sem eptirmálin undirbar, Urækja sá nefndur var.

36. Hofdíngja sig halda vildi láta Á Vestfjørdum, med vols og rán, Þó vær'ei mikid um hans lán.

37. Bætur engar bodnar honum vóru Á fóstu jóla fram svo leid; Fannst um þetta késsu meid.

38. Fýsist nú til fødur-hefnda leita, Dregur saman mnng.a manns Og mestu bændur vestanlands.

39. Í Reykholt allur ríða vann sá skari, Sem messu hefdi erindi átt, Ort á sjálfa jóla-nátt.

40. Mestur var þar munur lids á abla, Þeir sem komu' ei vornum vid, Vopnum sleigdu' og báð'um grid.

41. Urækja qvad: allir skyldu njóta Þeirrar helgu hátídar, Sem holda yfirkomin var.

42. Klængur var í kjallara loptid settur; Veitslan jóla vænt'eg sá Varla hafi' honum fallid nú,

43. Margir beiddu málma-njóti grida, En þad gyldri ecki hót, Uræckja þvi stód á mót.

44. Af þvi honum erindis-þókti-leysa, Ad Klængur skyldi komast hjá Kynni' hann ecki Gissuri ná.

45. Annann dag, sem er í hátídinni, Eggsi dreginn undir var Alma-thyr, og höggvinn þar.

46. Hátíd er til heilla best, vér segjum; Þannig vóru helgi-hold Höfdingjanna fyrr'i öld.

47. Uræckja nú áfram halda vildi, Og Gissur hugdi grípa strax, Ef gæfan kjæmi þvi til lags.

48. A Gagnheidi nú gjörir upp ad stefna; Sátum hann þar. skéll' á skeid, Skútan hárs fer adra leid.

49. Gétum hins: ad. Gissur sat í Túngu, Fjolmennt hafdi freyr um sig Fleins, og esnin rausnarlig.

50. Til Nyárs-veitslu njórur eblir skjóma, Bestu monnum bodid var Bikarinn ad tæma þar.

51. Attathgi orustufærra þegna Vóru Þar í sama sinn; Setinn var þá beckurinn.

52. Vænstu réttir vóru' á bordi reiddir, Og mjadar-blandid munngát hvitt, Mønnum lét af kappi veitt.

53. Attunda þad aptan skédi Jóla: Skamma stund vid skála-vad [5]), Skatnar sátu' og fóru' í bad.

54 Badi úr þá bragnar gá til hvílu, Sorla-skrúdi sérhvørs þar Til sængurstocka borinn var.

55. Gissur nádi ad gángast nú fyrir þessu, Því ørvagrér nam undrast þad, Eckért frétti vestan ad.

56. Ulfs Því von hann eiga hugdist þadán, Ad høndum lét nú sauma sér, Í sæng og nidurleggjast fer.

57. Nauma stund þá notid værdar hafdi, Inní skálann garpur géck, Vid Gissurs hvílu stadnæmst féck.



[5]) Skála-vad er dryckur, sem kallast flód, fljót, straumur skála.

58. Ber á dyr og bidur upp ad láta, Þorstein Lánga þeckja vann, Þessi fréttir segja kann.

59. Frá Urækju ferdum allt nam kynna, Hverssu Klængur veginn var, Og von á hinum mundi þar.

60. Í hávada nú hermdi Gissur þetta, bidur menn af bedum stá, Búning taka og vopn uppá.

61. Lausafèd hann lét til kirkju bera, í Skálholt sjálfur skjóma-þór, Og skatna lidid med honum fór.

62. Formann kierka fann um nótt í hollu, Innti hvad í efnum var, Og æskja nádi lidsemdar.

63. Biskup honum býdur allann greida Og fulltingi, sem saung væru á, Fram svo leid af nóttu þá.

64. Ad morgni strax var margt í ráda-giordum, Sendir menn í ýmsa átt, Ad endireka lids samdrátt.

65. Audun Kollur einn var Skál-holts manna, Tvítugur á fæti frár, Feimulaus en vexti smár.

66. Vest-

66. Vestur á heidi var nú þessi send' ur, Urækju skal fisu-freir, Finna' og sjá hvad gjordu þeir.

67. Mætti hann þeim á midri Líng' dals-heidi, Seggir tóku hondum hann, Og héldu fyrir njósnar-mann.

68. Orva-grér til Urækju þeir leida, En hann kénna Audun létst, Því optleg᷎a þeir hefdu sjest.

69. Spyrja gjorir spjóta-njóts ad ferdum? A andsvorum vard ecki stans, Audun svarar þelli brands:

70. Vordur Presta Videyjar til mig sendi, Og svo hér trúid utan ef, Ydur syna vil hans bréf.

71. Sannar hinn, og sidan frétta nádi, Hvort ad Gissur heima sé, Og hafi mik' id fjolmenne.

72. Kollur honum kunni þannig svara: Hann í gjærgvold heima var, Og hafdi mik' veitslu þar.

73. Vóru margir vinir hans í bodi, Mikinn heitti mjod og bjór, Ad mykja þeirra' vélindis-kór [6]). 74.

[6]) Vjelindis-kór; mann kynni og kalla barka'

74. Drengir þángad drifu fyrna marg-ir, Svosem plagar sydra hér, Med seit-ilinn þá farid er.

75. Drecki þeir sinn dropa vel og lengi, Urækja | þar uppá qvad: Og svo býdi vor med þad.

76. Þórdarsonur þá nam Sturla spyrja: Hvort ad Gissur heima sé? Honum Kollur ansade:

77. Engar ferdir urdu þar í milli, Í morgun þá eg strauk af stad; Stamp-adi [7]) hina upp vid þad.

78. Látinn var nú laus af þeim um sidir, Eggsi sina aptur feck, Og áfram nockud lengra géck.

79. En

kór; en med því ad vjelindid er sá far-vegur, sem liggur aptann til vid barkann, og matur sem dryckur gánga ígegnum hann, en barkinn dregur og þolir eckert, nema loptid; má þeim enganveginn sleing-ja saman.

[7]) Stampadi; þad kallast ad einn stampi upp, þá hann gjefst upp vid eitthvad, eda fær nóg.

79. En þá var úr augsýn kominn þeirra, Lyckju gjördi' á leidinni, Þar leiti bar af heidinni.

80. Fór hann nú, sem fyrri leidar sinnar, Kom í Skálaholtid heim, Og hermir allt hid sanna þeim.

81. Mælti fimm þar mundu hundrud bragna, Og híngad þeirra væri von, Þá vakna nædi dellings son.

82 Gíssur qvedur garpa nú til ráda? En allir til hans ályktar, Urrædunum skutu þar.

83. Af þremur kostum þá lítst mér ad velja, Svara nádi seima-grér; Sá hinn fyrsti þeirra er:

84. Ofan í Flóa undan þeim ad bregda, Móti voru mengi strax, Má þad koma svo til gagns.

85. Farmódir effendur eptirleita, Vér megum ráda stad og stund, Hvar stála saman beri fund.

87. Annad rád: til ydunnar [8]) nidur ad rída, Þar, sem vatna-vod er þraung, Og verjast þar á íssins spaung. 88.

[8]) Yda, kallast hjá Skálholti þar, sem árn-

88. En hid þridja, ad vèr kyrru höld-um, Og sendum einhvörn merkann mann, Er mönnum vorum hrada kann.

89. Flestir á þad sèllust þeir, og sögdu: Kirkjugardinn vígi vænt, En vandad lid og orustu kjænt.

90. Gissur nú í gardinum býst til barna, Til vareygdar med vopnum drótt Vakti þad, sem lifdi' af nótt.

91. Til Urækju aptur skal nú hverfa: á Laugarvatni lausa-grèr Lendti þegar dagsett er.

92. Fèck hann þar nú fregn um Giss-ur sanna: Ad heim' á Skálholts hèldi stad, Og hefdi mikinn lidsafnad.

93. Þókti' honum ecki þetta betri saga; En hugsar þó ad halda fram, Því heim ad snúa væri skamm.

94. Marina þó margir þreytta hefdi, Laungar svipur lögd' um skrock, Og laung-um bordu fóta-stock.

D 95. Alla

ar koma saman, og þar leggur ecki ís, hef-ir þar ecki ordid sókt ad med fjölmenni, eins og í mjóum ness-odda.

95. Alla nótt í andófi því standa, Í Skálholt komu skatnar þá, Er Skin-faxa var stigid á.*)

96. Blackana þeir bundu nordur í stødlum, Og hêldu snúdngt heim í dyn Hljódlega**), sem ei var kyn.

97. Látum þá nú leidar sinnar fara; En eg frosta-flædar-hest, Frá því leidi' og aptur setst.

98. Salur mála' og fælinn elinds-valur, Sjalars skala selja sval Í sal-inn sálu-bylja skal.

*) Skinfaxa; þad er hestur dagsins. (Sjá Eddu, Fabul. 8.)

**) Þetta sýnist hvørt á móti ødru, ad gánga hljódlega í dyn; en sagan kjemst þó svo ad ordi, og má svo skilja: ad þeir hafi gengid heim fyrir utan háreysti, en þó skarplega áfram, svo dynur hafi ordid und-ir af slíkum mannfjølda.

# VII. Ríma.

## Um vidureign Gissurs og Urækju.

Stjørnu-grundar stólpa hér Strengja-gamm til ferda' eg bý, J siounda sinni ser Sagnar fram af landi því.

2. Farar sækja faungin verd For-rádenda bodnar til, Um Urækju frama-ferd, Fram til enda' eg rekja vil.

3. Fleins í døgg Þó flanadi geist Feginn mundi gridum brádt; Af því høggi hátt er reist Hygg eg stundum verdi smátt.

4. Þannig geck í þeirri øld Þeim, er mesta jóku þrá, Mættu hueck'i mála-gjøld Og møgrum hesti rida frá.

5. A vorum døgum er þad eins, Eptir-laungum dæmi'eg finn, Þá med løgum þundar fleins, Þreyta' hin raungu málefnin.

6. Þó er ecki þad (mín trú) Þørf ad klaga heims um bý, Ad fleiri breckir finnist nú, Enn forna daga gjørdust í.

7. Veit eg halda margir mót, (Mengid ærir villan sú) Ad fólk um Alda-fødurs snót, Fordum væri betra' enn nú. 8. Hver-

8. Hvorjir deyda' og myrda menn Marg=faldlega svo sem þá, Byggdum eyda' og brenna senn, Brædin þegar svífur á?

9. Fornar ſægur þeigja' um þad Og þykir varla umtalsverdt, Sem nú á dægum nóg er ad Og vídings kallad mál er bert.

10. Því er n' engin þar til røk, Þó svo hygg=ja látist menn, Vil eg ei lengja svoddan søk, J sakti liggja má hún enn.

11. Landsins mengi lof eg tel, Líss ad prýda kostum øld, J fridi lengi lisi' og vel, Svo lest=ir þurf'ei bída gjøld.

12. Leidist harma gefnar gráts Grund, ad sitja sqvaldur mitt, Vidris farm til vánga=báts Vil nu flytja og efnid hitt.

---

13. Slapp af mála=qvørnin keim Qvæda vorra fyrrum þar, Er J Skálaholtid heim Hefnir Snorra kom=inn var.

14. Greidt án furdu gengur lid=Gardi heim ad kirkjunnar; Hinir urdu varir vid, Er vopnin geyma fyrir þar.

15. Heróp gjørdi hyrdin þá Og her=víkingum móti braust, Skjóma bordu skjøldinn á, Svo skelk í bríngu hinum laust.

16. Þeir, sem fóru fremst í her, Fyrstir undan horfa senn, En þeir vóru aptaster Ætl'ad mundu Gissurs menn.

17. Drengskap hugdu drýgja þar, Svo dólgum skyldi vinna slis, Vopnum brugdu veslíngar Og voktu hildi innbyrdis.

18. Ýmsir fengu ógott slas, Undir gráta, hlif er spillt Ádur gengu í þetta þras, Þeir, sem gátu lidid stillt.

19. Gissurs vildu varnar-menn Verda skjótt til orústu taks, Rádast skyldu' á recka senn Og reka flóttann burtu strax.

20. Medan fanna móins ad Meidar undan horfa' um lád; En hann bannar öllum þad, Og qvad mundi pretta-ráð.

21. Beid í stilli beggja her, Biskup gjordi leita' um sátt, Fridar milli bodin ber; Bisna streytu hefir hann átt.

22. Qvadst Urækja engi grid Ytum selja, en vill þó ad Biskup sæki' ad semja frid, Og seggjum telja fyrir þad.

23. Gissur vildi géds um holl Grid-in sæma, ef játti hinn: Ad Hákon skyldi Hilmir oll Heyra og dæma málefnin.

24. Þecktist ecki þetta boð Þorska-fjarðar Yfirmann; Svo með deg'i sól-a-roð Sóknin harða byrjast vann.

25. Skipað niður skotnum vár, Er skyldu sæki'á garðinn fast; Engu miður inni þar Ullar mækja viðbúast.

26. Viðris glumdi veðrið brátt Og virðum mesta dynumu jók, Blásturs rumdi hornið hátt, Svo hollin Presta undirtók.

27. Örvar hrjóta álms af bug, Aðrir spjótum lögðu þá, Sumir grjótið færðu' á flug, Og feigðum hóta þeim er ná.

28. Foldar köldu hjörtun hardt Hvoru-tveggjum unnu tjón, Brutu' í höldum benið margt, Svo benja-dreggjum steypti' á frón.

29. Darra- nistu -oddar eins Allt í gëgnum hold og líf, Borur snístu [1]) ben-ja-teins Bísna regni hárs á víf.

30. Nú sem sjálfur geira stóð (Sêt eg flesta ræk'i stans), Biskup sjálfur að þeim óð Og allur Presta-múgur hans.

31. Helgi-

[1]) Snístu; svo segir í hinni prentuðu Eddu: rauð snísti ben blóði.

31. Helgidóma hyrdir sá Hafdi nýt-
ur ſkrýda ſinn, Og heimdalls-ſkjóma ²)
háſum á Heilagt mítur einneginn.

32. Ad þá herdtu efnin vend, Ut
hann ruddiſt gards um hlid, Bók og kérti
bar í hend, Bagal ³) ſtuddiſt einnig vid.

33. Uppá ſodla-búrſins buſt Biſkup
þegar klifra vann, Arka-rødlar ⁴) ólm-
nduſt Allavega kríngum hann.

34. Bannfærſngar lykil lét A lopti
ríða bóka-freyr, Og Veſtfirdíngum víti
hét ⁵) Ef væru ad ſtrída framar meir.

D 4 35. Marg-

²) Skjómi, ſverd, Heimdalls-ſverd, er høfud.

³) Bagall dregſt af Baculus, og merkir Biſk-
ups-ſtaf.

⁴) Arka-rødlar; ørk er ſkips-kenníng; rød-
ull er ſól; ſkipa-ſól er ſteinn, þvi ſkipin
vóru prýdd og málud med ſtein-farfa, og
og kølluduſt ſteind; því meinaſt hjer: ad
ſteinarnir flugu í kríngum hann.

⁵) Víti hjet; hjer má ſkilja hvort er vill, víti
fyrir ſtraff eda ſekt, ellegar hann hafi hót-
ad þeim helvíti med bannfæríngunni.

35. Margir feldu málma-dans, Svo mættu' ei sverdi vandlætis; Vildu' ei heldur brjótar-brands, A bóka-njordi viña slis.

36. Sagan víkur á um einn, Af Urækju monnum var: Hét Eirikur Byrkibeinn J branda-snækju kræfur þar.

37. Þessi kallar ákésd í: Afram halda járna-dans, Þar til skall í bruna-bý Beinid kalda sjardar hans.

38. Flotum glöp á foldu sló, Fótum kastar yfir haus, Ossa hröpid af honum dró Og ákafasta seldi raus.

39. Snorra kundur kallar brádt Klerka lærifodurs til: Qvadst nú mundi sæta sátt Ef sæmdar væru bodin til.

40. Biskups dóm hann bídur í Beggja málid áskorad, Skyld'i tómi skéra' úr því, Og skockum brjála ójafnad.

41. Gissur soddan sáttum var Samstemmandi Biskup vid; Hofkir Brodda-hlynir þar Med handabandi festu grid.

42. Þeir, sem banni Biskups brutu fridinn kirkjunnar, J messu-ranni nú á ný Nádu gridum aflausnar.

43. Eptir búna frægdar-for Og fleina-Þínga afdrifin, Bjó sig nú'n'á beitsla-knör Breidfirdínga mögurinn.

44. Med gorpum skárri gétid er Gísli af Sandi væri þar [6]) Í ólpu grárri andar-grér, Olarbandi girdtur var.

45. Gísli stefnir gardi hjá; Gissur frétti: hvorr hann sé? Hinn sig nefnir honum þá Heiti réttu og einkénne.

46. Lángt adsóktir (sagdi hinn) Sverda písl ad auka mér. Nóg á þókti naudsynin, nýtur Gísli aptur tér.

47. Aptur gjördú ecki' ad mér, Ullur branda, ferdir þín, Audid verda ei mun þér Yfir standa sverdum mín.

48. Ásnar honum Gísli gladt, Glettilegur og þannig qvad: Meir' er von þú segir satt; Sídan dregur hann af stad.

49. Gissur leysdi þadan heim, Er þolli branda veittu lid, Flocknum dreifdi, fór svo heim Fyrrtur vanda, bjó um grid.



6) Gísli af Raudasandi, mikill bóndi.

50. Svall í kyrrdum sefa-far, Svolu háska tídin leid, Allt med firdum fridlegt var Fram um páska-viku skeid.

51. Einn var fýrir unda-hængs Orm-ur heiti kénndur ad, Vegins hlýri vildi Klængs Vígs um leitä málastad.

52. Peninn, gyldi Gissur fann, Gódu tómi rádgast í, Biskups vildi hvorgi hann Hafa dóm á máli því.

53. Sagdist hafa sjálfur átt Sókn óspillta þessa máls, Hefdi' án vafa hvorgi mátt Henni' umbilta vidur stáls.

54. Halur tíginn ansar ört: Einkis-háttar forlíkun At því vígi eg hef' gjort, Um þad máttú sella grun.

55. Brædratúngu frændur frá, Ferd-um haga, vard ei dvöl, Kolbeins Unga fund ad fá J firdi Skaga, nordur Kjøl.

56. Allvel fagnar frændum sín, Fogur veitsla-reis upp þá, Kjæti magnar krydd-od vín, Kjalars-geisla-runnum hjá.

57. Sín erindi tjádu tveir Traustum mækja-frey í stad, Vestur senda vilji þeir Vid Urækju' ad hondla um þad.

58. Ann-

58. Annann kjori kost ei neinn Késjurjódur heldur enn þann: Ad Biskup gjor'i ollu einn Eins og bjóda syrri vann.

59. Ormur hlyda ei vill því, Efnar saka tilbúníng, Rádi rída Reykholt í Og recki' ófpaka stefndi' á þing.

60. Tídir skérda tekur senn Til þess brádt var áqvardad, Þángad rída þjódúngs-menn Þeir, sem áttu málastad.

61. Eptir logum Ormur þá Upp nam bera sakfellin, Sem venja dogum var þeim á Vid ad géra stórmælin.

62. Síst var lydum setan kjord, Sjálfur Gissur. Ormur med, Bádir rída' í Borgarfjord, Best þeir vissu erinded.

63. Kolbeinn moaur Arnórs or Allareidu kominn var, Hundrud fjogur hafd'i for, Hjorva-meidur fyrir þar.

64. Til Urækju strax ad stund Stofninn skjalda senda réd, Skyldi sækja' á firda fund, Fram ad halda' um málesned.

65. Klerka-vordur qvaddur var, Ad koma vildi hér til móts, Sína gjord ad segja' upp þar, Er semja skyldi ... uñum spjóts.

66. Hafdi skjótann, bagals ber, Bán-
ing reisu, heimann snýr, Brand Abóta
fèck i for; Frábært geysa sodla-dýr.

67. Fyrisagdur fundur nú (Fèck þad
seggjum varhygdar), Hjá var lagdur Hvít-
ár-brú, Af hvørutveggjum fjolmennt var.

68. Fyrir nordan nefnda á, nam U-
rækja stadar fyrst, En brúar-spordi hin-
um hjá Hlýnir-mækja stig'um rist.

69. Vid svo búna byrjun máls, Bisk-
up vekur erindin, Yfir brúna fetar frjáls
Og flytja tekur samnínginn.

70. Ymsar stóust efnin vid Agreininga
sakir þá, Er sundurdróu sáttmálid, Sinu
stinga hvorjir á.

71. Greiddist flækja'um sídir svo, Sem
réd eggja Biskupinn: Ad Urækja undir
two Oll nam leggja málefnin.

72. Kirkjustjóra Kolbein med Kaus
til slíkrar gjordar hann, Og hjálma-þóra
heimta réd Handsol líka'um gjorning þañ.

73. Fram á brúna þegnar þó Þar til
skyldu gánga' i stad; En af því hún var
ofur mjó, Ecki vildi Gissur þad.

74. Bóka-

74. Bóka-rudur beiddi þá: Bor ad nædi Snorra fri Gánga sudur yfir á, Svo ecki stædi fyrir því.

75. Margur latti málma-brjót Og mælti: væri hættu-spil; En Biskup hvatti hann ímót, Því hellst þad bæri sátta til.

76. Meidur túna grettis gèck Greidt, ad rádi høfud-prests, Yfir brúna fetad fèck; Firda tjád'ei lètja þess.

77. Fram, sem horfdi, arkar ódt Og í greipur hinna þar, Brúar-spordinn fyrir fljótt Fylking hleypur Gissurar.

78. Atti þegi apturqvæmt Ullur tjørgu vid þad strik; Þó var eigi þetta ræmt, Og þókti mørgum verstu svik.

79. Þó Gissur hæla gjør'eg mest, Er gètid verdur listamanns, Satt ad mæla samt er best: Sóma skèrdir þetta hans.

80. Iþrott besta' eg eina tel: Yndis vèra' í landi hreinn, Málin festa full med vèl Frægann gèra mun ei neinn.

81. Mælti Urækja málms vid þund: mund'ei svona kominn hèr Ofjor sækja á ydar fund Ef þau vonad hefdi mèr.

82. Ei á bjáti' er annad hér, En ár-
id taka svo sem gár, Og sættum játad
svo sem þér Sjálfum mæka þykir skár.

83. Gissur nádi gánga til Greidt og
Ormur honum med, Seganum tjádu
sáttar-skil, Svo sem formar þeirra géd.

84. Hofdu gyldir hjors vid njord
Handsol rík um málin traust; En Kol-
beinn skyldi qveda' upp gjord, Þá kopp-
um likar, sama haust.

85. Fólk af þessum fundi reid, Fákar
stiúka hradt sem má, Olafs-messu und-
ir skeid Atti' ad lúka gjord upp þá.

86. Hafdi Túngu hofdínginn Hófad
gyldi fagnadar, Kolbeinn Ungi' i sama
sinn Sudur skyldi koma þar.

87. Veitsla fogur var uppsett Veitt
af konum jotna-dóms, Horna-logur hjals
um klett Hrundi monnum innan góms.

88. Logvitríngar skorp med skil Skoda
málin áttu' ígégn, Og rádfæríngar tóku
til, Teigad skála- eptir-regn.

89. Komu saman kappa rád, Kol-
beinn laadi úrskurdinn A þad framan um
er tjád, Og upp nú sagdi gjorninginn.

90. Herſør Giſſur hárs á frú Hóf á móti Snorra nid, Honum ad viſſu hundrud þ jú Hjørva brjótar veittu lid.

91. J ámu-byri ædla vann Af Ulli ſkjalda ráda ſjor, Hundrad fyri hvorn einn mann Hann ſkal gjalda' i þeirri før.

92 J ſmi Urækju gjord var grimm, Þá Giſſur ſókt'i Skálholt heim, Med hjø i mækja hundrud fimm, A hordu þókti ténu'af þeim.

93. Fjor-rád illt i fólſku rann Fleygi ſkjalda ſtofna réd, Hundrad gyltt fyri hvorn einn mann Hann ſkal gjalda' er þar var med.

94. Hundradanna hundrud tvenn Hann, ſem lætur framyfer, Thyr ſkal fanna ſingurs enn J fødur-bætur eigna ſér.

95. Fjor-rád beggja full med ſkil Ad ſirdar þeck litinden, Ad jofnu leggja víſt eg vil, þó virdiſt ecki jafnir menn.

96 Klængs á vígid, kom i tal, Kjorin hundrad hundruden Og ſextygi' ad auki, ſkal Orva-lundur gjalda ſenn.

97. Einnig rýma fróni frá Og fleiri' óspektar drengir hans, Vetrar tíma vera þrjá J víga-sektum utanlands.

98. Svo má lokin segjast hér Sundurþyckju jögunin; Enda rokinn er af mér Ása dryckju-skapurinn.

99. Andra-sprundin 7) venda vind, Ur vestra flaustirs mastri tvist. Landa-hundinn bendu' eg bind 8) J besta nausti fast og styttst.



## VIII. Ríma.

Gissur fer tvisvar utan; á mál vid Þórd Kakala; gengur til Róma-borgar.

Alda bodnar aptur rís Undan hirjar vedri Attunda, Þó enginn pris J ódar-gengi se mjer vis.

2. Laung-

7) Andra-sprundin; troll-konur, þeirra vindur hugurinn, sem vendir frá qvedlínginum.

8) Landa-benda; sjórinn, hennar hundur skip, þad er ad skilja: dverga-skipid, sem hjer skal vera uppsett og bundid.

2. Laungum gledja frædin fród Frænings liljur valla, Einkum þá med lidug ljód, Leikur á stemmu roddin gód.

3. En hjer 'er ecki' ad heilsa því, Hvad fer eptir ødru, Minnis landi mærdin í, Og mentin qvæda róms um bý.

4. Hugur minn er horsinn frá Um hætti' ad velja þúnga; Því fródleiks gjøf er furdu smá, Fer mjer ecki' ad klást vid þá.

5. Skáldin hef'eg sjed ad sum, Þá semja bragi dýra, Og þøngir fyrir fætinum, Fara' ei vandt ad kjenníngum.

6. Máls þó kostur ærinn er Undirkominn slíku, Vøndud ord ad velja sér; A vanmælunum illa fer.

7. Skyld'eg dýraun byrja brag, Og brúka hendur margar, Mundi verda stirdlegt slag Og stædist ei med nockurt slag.

8. Því nam kjósa hægann hátt, Er hentar kroptum mínum, Fram ad bera suttúngs-sátt Og søgunnar innibinda þátt.

9. Ymis- bid eg -beina þjód, Vesla lid ei spara, Og med rádin greina gód Grafa upp gváfis hreina blód.

10. Svo ad øld í sæti qvødd Ad sónar veitslu rønnum, Thørs af víni gjørist glødd, Og gamans megi verda fødd.

11. J því transiti eg nú vil Af ad sinni ráda, Sætn fella saungva-spil, A søgunni heldur gjøra skil.

12. Lokin vóru sónar-sund Og sett upp fjalars dugga, Er seggir høfdu sáttar-fund, og somdu mal vid Snorra fund.

13. Gissur kunnugt gjora vann Gofugum vinum sínum: Ad hédan burt um rostungs rann Reisa í Norveg fýsist hañ.

14. Eyrar-ferd af -backa bjó Burdugur landshøfdingi, Reidthjadi rána-jó, Og ríkuglega saung ad dró.

15. Strengjum létti, steig á gnod Steinda fogrum blóma, Byrinn þegar brast í vod, svo bognadi laungum siglu-stod.

16. Aldan lék vid stýri' og stafn, Strax nam -landid hverfa, Beggja vængja brims á hrafn, Beindi flugid gustur jafn,

17. Sagan fleira innir ei Utaf þeirri reisu, Fyrr'enn høfn vid herjans mey, Hæga' i Norveg tekur fley.

18. Fleinn til grunna festar dró, Firdar seglin lægja, Af-kliijadann ægis-jó Upp þeir líka settu' í hró.

19. Gissur fyšti Grams á fund, Gott þar vidnám hreppti, Því Ödlíng lèt á alla lund Til æru gjora stáls vid þund.

20. Tvo þar bana svofnis sat Seimagrér af stocki, Og allvel þegum unad gat, Því engann fremur Dogling mat.

21. A sumri þridja sveigir brands, Sjóla ordlof tekur: Eik ad thja eyjabands Ísa-bjóst til ferdar-lands.

22. Færd'ár kasi festir grunns Fleyberjar med skyndi, Bettu sídan blacki blunns Beint af lagi fram til sunds.

23. Sveif ad skautum siglu-trafs Sisi himin-glætu, Foldu byrgdi hvelid hafs Hvarma-ljósum voþna-stafs.

24. Stilltist ecki, straums um gaung, Streugja-mar á skeidi, Í bandi' og reida hyrinn saung, Buldi súd, en stundi raung.

25. Fyrr'enn loks um laxa-mid Lands fyrir stafni kènndi, Og Eyrarbackann inmidt vid Ödlu-nadur heppti skrid

26. Sjóla

26. Sjóla vin á samri stund Senda nordur rédi, Og Kolbein únga Arnórs fund Af sinn boda gjordi fund.

27. Brjótur seims vid bodin gérd Bregda qvadst ei mega Annari, sem ætti, ferd, Og ollu meira fækti verd.

28. Hér med var sú herferd meint, Er hjorva-grér nam stofna. Ut um kémbíngs-haudrid hreint; Af henni verdur lítid greint.

29. Einn var Þórdur Sighvatsson, Sem Kakala nefnum, Frekur hér á fjoln-is-qvon, Frænda-láts í hefnda von.

30. Uppgáng mikinn hafdi hann, Helst um Vestur-fjordu, Og skipa-lid á skel-júngs rann Til skjóma-fundar búa vann.

31. Hugdi nordur hald'á leid Til hér-ads Skagfirdínga; En Kolbeinn ecki bodanna beid, og bjóst á móti stála-meid.

32. Herforíngjar hittust þá, Húna-midt á -flóa; Frægur er ordinn fundur sá, Þó fátt hér megi af honum tjá.

33. Þó Kolbeinn hefdi kosta meir Af kappa'-og skipa-fjolda, Svo manni einum mættu tveir, Miklu fleir' af honum deyr.

34. Sídan varla endtist ár, Adburdur sa skédi, Kolbein mæddi qvilla fár, Svo kaldur hlaut ad leggjast nár.

35. Eptir lidinn oruftu hrók, Aud og forráð manna Frændi hans (sem birtir bók) Brandur Kolbeins arfi tók.

36. Kostu Gissur átti á Ad eignast þetta veldi; En hann girntist ecki þá, Og eitthvad fram í veginn sá.

37. Hét þó Brandi ad leggja lid Líkt sem á nam skora, Þeis ef kynni þurfa vid Og Þórdur lét'ei svobúid.

38. Gróid illa gamallt fár G:esur opt ad nýju; Grantur várla geymist hrár; Gissur vard ad sliku spár.

39. Eptir vetrar eina stund Angatýrs í vedri, Brandur hné á Háugsnefs fund Í helju fyri Sighvats kund.

40. Fljótt þó hlaupa verdum vér Víst yfir efnin þessi, Af málma-þrá, sem mælti ey hér, Mikil saga ritud er.

41. Síns þá Gissur frænda-fall Fékk úr kisi' ad spyrja, Dregur saman her um hjall, Og halda gjörir nordur fjall.

42. Hon-

42. Honum fjøgur hundrud manns, Hradt í fjørdinn Skaga, Fylaja nádu'í fleina dans Fúsir til ad hefna Brands.

43. Hans til fundar hérads-menn Hópum saman runnu, Høfdings-menni ad hylla senn Og honum sverja trúnadenn.

44. Nordur gengu njósnir brádt Af ný-tídindum slíkum; Þórdur strax úr ýmsri átt Ablar lids, og vard ei fátt.

45 Gjørdust þá til gódir menn Ad gánga þeirr'á milli, Hjørva-dans ad hindra senn, Og hefta stærri vandrædeu.

46. Vard í sáttum samid þá: Sigla' í Norveg skyldu, Budlúngs dóm ad bjóda á Beggja málin stór og smá.

47. Hittust ecki høfdingjar Hoskir á þessum fundi, En tylftar-eidur unninn var Ad efna skyldi sættirnar.

48. Ut af firdi Eyja bjó, A þeim bjarnar-degi[1], Rakali sinn fólgu-jó Keyrd'í haf og segl uppdró.

49. Gissur eins í annann stad, Eyrar-sudur á-backa, Búa lætur borda' glad Vesta medur tilsafnad. 50. Lét

[1]) Bjarnar-degi; o: sumri.

50. Lét í haf og létti streng, Landid var sem hlypi, Straums þá mar um stock-uls eing Stédja nam, svo lá vid spreng.

51. Dœtur kátar hossa blés Hauki fjardar linda; En skóga-troll í skéggid blés Og skaka nádi falda trés[2]).

52. Oska-byrinn aldrei þraut Yfir sundid breida, Fyrr enn karsa loks úr laut Londúngs brúdar faldi skaut.

53. A opnu mynni hofnum hjá Hag-bards jórinn stedva, Bryggjum skjóta bordi frá Brjótar seims og landid á.

54. Rakali á kólgu-hund Kom þeim hofnum nærri, Bádir nádu Budlúngs fund Bjørgvín í þad sama mund.

55. J Þrándheimi Odling red Efna vetrar-setu; Sverda-runnar (svo er tjed) Sóktu þángad Kóngi med.

56. Stefnu-degi einum á, Audmild-íngur lagdi Holda mál ad heyra þá, Og hvad í greinum verda má.

57. Alskipud var Hilmirs holl Af heldstu landsins monnum, Hér med líka

[2]) Faldar trjes eru segl.

líka hyrdin öll, Hlýda nam á þeirra spjöll [3]).

58. Í fyrstu Þórdur lesa lét Langa rollu eina, Um skémmdar vígi, skjóma-hret Og skipti þeirra öll, eg gét.

59. Millum frænda beggja brádt Birt-ust hredur margar, Sýndist hefdi seggur átt Um-fárt ad binda tídt og þrátt.

60. Gilsi spyrja gjördi nú Gissur hér á móti: Hvad til skjala hefir þú? Hon-um ansar kémpan sú:

61. Sídur hef'eg sett á skrá Sögur mínar, Herra! En ef grunn'er grafid frá Gagnsakir [4]) hér finna má.

62. Hoskur sídan hjorfa-grér Hilmis eptir bodi, Varnir sínar flytja fer Fram, Og mála-sóknir ber.

63. Ein-

[3]) Spjöll merkir ord eda mál, svo sem: gud-spjall, eidspjall, og fl.

[4]) Gagnsök heitir, í fornum lögum, sú sök, sem fram er höfd á móti sækjanda; kallast nú kontra-sök.

63. Einardlega út svo var Innt af beggja hendi, Ad hvorgi annars aptur bar Ástædur né flutníngar.

64. Mæltu þar um allir eitt: Ad svo skøruglega Adur hefdu' á þíngum þreytt Þegnar fyrri mál ei neitt.

65. Grams á svørum sást þad lag, Sem hann Gissur mundi Adstoda med eitthvørt flag, Og honum víkja meir í hag.

66. Af því sjálfur átti þar Odlíng skot í reidi,' Er Sturlúsonar vígid var J vandamálum Gissurar.

67. Ytar saka-efnin flest A hans dóm þá budu; En Skjoldúng heldur skaut á frest, Og skéra' úr sídar mundi lèttst.

68. Vorid kémur, Sjóli senn Sudur í Bjørgvín reisti, Og þjódúngs honum medur menn, Málum þeirra hreist var enn.

69. Qvadst þá Gramur ega ad Eyt-ir Snorra bæta; En sjálfann Gissur svara bad Søkum þeim, er snertu þad.

70. Medan kjalars brúdar-blóm Bjørk og merkur skrýddi, Uti Norveg kjørinn kom Kardínáli einn frá Róm.

71. Hann, eg frá, af helgivørd [5]) Híngad sendur væri, Norvegs krónu' ad setj' á svørd [6]) Sjóla, medur vígslu-gjørd.

72. Hátíd sú var helst frábær' Haldin Kóngs í gardi, Mitt svo veika flutt ei fær Frosta-skipid dýrdir þær.

73. Nockru sídar Þengill þá, Þórd og Gissur bäda Lét ad nýju logdag fá, Legátinn svo heyrir á.

74. Leida gjørdu fram, sem fyr, Fleina runnar snjallir, Einardleg' af ýmu byr Allar sakir máls um dyr.

75. Kardínála þókti þrátt Þórdar hluti mundi, Sem í málum birtist brádt, Brunnid hafa vid ósmátt.

76. Urskurdinum eptir, því Allmjøg gjørdi haga, Og vill ad Þórdur fari frí Til fósturjardar uppá ný.

77. Hann

[5]) Helgivørd; sá sem rædur tídum og helgum; meinast Páfinn í Róm.

[6]) Svørd; svørdur er almennilega gras-torfa, líka einnig hár-hamur, og þar af nefnist kollur á manni svørdur.

77. Hann qvad mundi heilst til ráds, Og hepta styrjold megna, Einn ef kraka sendir sáds Settur væri' ad gæta láds.

78. Fram ad vilja fór þad hans, Fengin Þórdi voru Yfir-rádin Islands, Ut fór híngad sveigir brands.

79. Henrik Biskup þar var þá Þórdi medfylgjandi, Vid Kardínálinn kom því á, Ad Kakali nam þetta fá.

80. Gissur eptir gifta hlaut Med Gilsa þar í landi, Slíkt þó hirjar bils um braut Bleſi' á móti stála-gaut.

81. Skjoldúng frægum skjóma-frey Skipar sýslu eina, Festa nam þó yndi ei Angathyra þar á mey.

82. Þángum skjogur þánka-ranns Þad ei létta nádi, Ef Þórdur væri vinum hans Vandhæfur hér innanlands.

83. Thyrs því hvatti yggjar ønd Eldastyrir búa, Sína reisu sudur í lønd, Og sækja lausn af Páfans hønd.

84. Njótur seima nodru-torg Naumt þó hefdi' ad tæra, Gánga nádi sviptur sorg Sudur allt í Róma-borg.

85. Eins og telsan áfram géck, Aptur um leid tilbaka, Gæfan studdi rausnar-reck, Hjá ríkum Herrum sæmdir féck.

86. Dvelja vann í Norvegi nú Njótur handar-blóma, Medan storma bygdu bú Bornin vindsvals eitt og þrjú [7]).

87. Ymis þegar hold og hams Hitnad gat í ædum, Ordlof tekur Gissur Grams Gotann búa sildar-hvamms.

88. Til umdæmis, ríkum reck Ræsir, fyrr enn skyldi, Nordlendinga fjórdúng féck; Filkirs vin til skipa géck.

89. Létti bryggjum, leysti fley, En lisri skógár-bana Varpar mjúkum vara-þey Vid svo raknar ægis mey.

90. Ødum brunar öldu-ljón Ut um hrannar skóga, Var þá enn, sem flýdi frón og fordast vildi þeirra sjón.

91. Budla-mar um brimlu-gaung Biladi aldrei mædi, Stódu' ei heldur seglin svaung Síglíngin þó væri laung.

92. Og

[7]) vindsvals børn eitt og þrjú, eru fjórir vetur.

92. Og þó hvassri hleypti brún Himinn-glæsa stundum, Eckils-mar[8]) um upsa tún Uppdró samt, en sligadist hún.

93. Undir sleygja frónid uns Fénar veturlida[9]), Jálka módum haldid hlunne, Og hófa-skablar[10]) nutu grunns.

94. Var þad firdi Eyja á Ut var komid á Gásum; Mitt og sjalars sleyid má Fyrri skiljast ei vid þá.

95. Nornin blóma mundar mér Nun ei þacka qvædi, Horna-rjómi þundar þver, Þornar óma-fundar-ker.

[8]) Eckils-mar; Eckill er Sækóngs heiti, hans mar er skip.

[9]) Veturlidi; Bjarndyrs heiti; Bjarnar-skip er ís, þar vid er landid kjennt.

[10]) Hófa-skabl; þegar skipslíking er tekin af hesti, þá má eins kjenna ærnkjeri vid járn edur skabla þess hests.



## IX. Ríma.

Gissur qvongast; býr á Flugumýri; heldur brúdkaup sonar sins.

Hestur sá, sem hanar á Og hans vid lá er kjenndur, Hadda-gná ef hyrdir sjá, Høfnum frá skal sendur.

2. Þó máls um hrínglse ment ósling Mærdar klíngja geiri, Enn skal sýngja almenníng Oddhendíngu meiri.

3. Mín Þó fordum end'eg ord, Ands vid skord nam Þilja, Veitslur nordra ber'á bord Banga-fiord til vilja.

4. Undir ber Þad efni hjer, Allvel Þjer mun henta, Og laglegt er, ef luckast mjer, A ljóda-ver ad prenta.

5. Þar um bjóda Þorna-slód, Þor'eg ljóda-stefin; Ad steina-tródan Sturlu jód, Stála-rjód var gjefin.

6. Ypparstann eg kostinn kann Kalla Þann, sem greidir Hamíngjan Þá hoskann mann J hvíln svanna leidir.

7. Andilu

7. Audnn þá ei allar fá Eikur bráins kjera; Því skal tjá hvad þar til má þorna-gnáin bera.

8. Ættin góð, sem ásýnd rjóð Audar-tródu prýda, Og rínar glóð í ríkum sjóð Ríkkar [illegible] vída.

9. En sjálfrádt eg ætla fátt Audar-gátt af slíku, Hvørt luckan dátt ser lætur þrátt Eda leikur smátt, vid píku.

10. Alits-hrós hin únga drós Ei þó kjósa megi, Hrapa sjós má hafna rós, Hvarma-ljósid eigi.

11. Innra manns skal ærn-krans, Augun kansa sveina, Dygda fans, og frómleikans Fagrann glans eg meina.

12. Hreinlífed og gudhrædt gjed Gódu med forstandi, Vidmóted og verklaged Er vænna' enn fjed í landi.

13. Fylgist hvad eg fyrri qvad Fagurt ad med slíku, Gipting þad í gódann stad, Gjet eg hradi píku.

14. Heppid er þad hauka-skjer, Hnossid ser má festa, Eckert hjer, sem útaf ber, Ríe uppá gjerir bresta.

15. Veisir þann eg vil med sann Velja brannar skara, Er med svanna ágætann Eptir á kann vel fara.

 16.

16. Mannsaung, Frú! ef þýggur þú, Þorne-brú vil' eg qvedja; Eptir nú ſer ſagan ſú, Er finnu-bú ſkal gledja.

17. Féll þar bølverks feſta-vøl, Fyrr hjá mølum ſendtu Skatna-vøl, og ſkips af ſiøl, Skútu-kjølinn ſendtu [r]).

18. Fróns af gjørd á faſta jørd Fyrar ſværdinn draga, Ferd var hørd af Giſſ-ur' gjørd Greidt í fjørdinn Skaga.

19. Biſkup (gét eg) Henrik hét, Ad Hólum ſetjaſt ſkyldi, Þokaſt lét um þor-ſka-flet, Þángad og ſeta vildi.

20. Frægir enn ad fleiri menn Fylltu þenna ſkara, Og hleyptu ſenn um hérods-en; Hóf-dýren ei ſpara.

21. Almenning ſér ad um kríng Ullur hrínga ſteſn'r, Vid hamra-bíng, ſem hyrd-in ſlíng Af heſta-þíngum nefnir.

22. Fund-

[r]) Skútu-kjølinn; fyrir ſkútu ſkilſt hjer ſkips-báturinn, ſem á ſiglíngu er látinn ſtanda uppi á þilfari, en ſettur utanbords þegar ad landi kemur.

22. Furdinn á kom fjøldi sá, Er fýsti sjá og heyra, Lofdúngs þá var lesin skrá, Líka tjá um fleira.

23. Fljótt var jád, sem Fylkis nád Firdum skrád'í letri, Á Gissurs rád ad gëfa' upp lád, Garp þeir qvádu' ei betri.

24. Sveigir brands til sudur-lands Sendi', og stans vard eigi, Ad arfar hans, þess ødla' manns', Ort sig fansa megi.

25. Randa-brjót ad rid'á mót Um rognis snót á fjøllum, Ad svo hljóti æru-bót Af ørva-njótum snjøllum.

26. Ølhrar senn med sjóthgi menn Sunnan renna gjørdu, Fjallgardenn svo yfir enn Og hmis-tennur hordu.

27. Mættu hal í midjum dal, Sem merkja skal landverja, Qvedju-val og vináttu-hjal Af vitsku-sal útferja.

28. Fagnads sá vard fundur þá Med fjølni drákons-palla, Géds í krá ad gled-in má Gisting sá sér valla.

29. Sudur reid nú sína leid Med sofn-is-heida-lundum, Ferdin greid um fjøllin breid Fljótt nam eyda-stundum.

30. Seggjum skjót, af seima-brjót, Speitar-bótin stendur, Bors var snót sem breiddi' á mót Brodda-njóti hendur.

31. Ei var þad sem yndis glad Til ó-fagnadar bléſi, Setſt nú ad og eblir ſtad J Kaldadarneſi.

32. Féll þá reck í rænu-beck Rauna-ſmeck ad ſóa, Og audar-breckú' ad ega géck, Sem ádur beck var Gróa.

33. Til ſín baud ſá bítir aud, Beſtu' baudurs-mønnum, Slátrinn ſaud en bak-ar braud Og birlar á raudum konnum.

34. Brúdkaup ſett med rauſnum rétt, Reckar þetta ſæmdu, Og hornin þétt í hauka-ſtétt Hoſkir af létta tæmdu.

35. Klædi ſkreytt um bord var breidt Búning reidt óſnaudum, Súpid heitt og fleſkid feitt Foruſtu-veitt af-ſaudum.

36. Kættiſt þjód, en horpu-hljód Heyrn-ar-vód ad-kormum; Rínar-glód á ſtéttum ſtód Med ſtaupa rjódum formum.

37. Veitſlan þraut, en virdíng hlaut Sá veiga-gautum tærdi; Oldin laut og brádt á braut Búnings ſkrautid færdi.

38. Linna kól, en lægdi sól, Leid ad jólaföstu, Vinur Sjóla audnu ól Vid ofnis-bóla kostu.

39. Himinenn og haudrin tvenn Þó handa-spenni -bandi [2]), Sverda-hiennir átti enn Ofundar-menn í landi.

40. Géds um rein hid gamla mein, Grafid einatt sfídur; Svo heiptar-grein til hefnda bein Hvessa fleininn býdur.

41. Soltinn hrafn ad sedji tafn, Sárs vid drafnar-ydu, Sturla' og Rafn med sveita-safn Ad sigthýrs nafna [3]) ridu.

42. Manna hér það máltak er, Marg-ir vér svo reynum: Geira-ver sem góð-ur er Gèfur hverjum einum.



[2]) Handa-spenni-bandi; máltækid hljódar svo: ad sá hafi himin höndum tekid, sem gengur í hag. Fyrir haudrin tvenn á ad skilja bædi sudur- og nordur-land, sem Gissur hafdi undir sjer.

[3]) Sigthýrs nafni; eitt Odins heiti er Giss-ur, og því vóru þeir nafnar.

43. Skóga-troll um vinda-voll Vakti skoll hin mestu, Svo strauma-soll úr storma-holl Steyptust oll hin verstu.

44. Leysti snjó um holt og hró Hvar sem bjó á stryndi; Ølves-flóinn ofanf sjó Ísnum spjó med skyndi.

45. Bádum á svo londum lá, Ljót vard áin þessi, Hvorgi þá of hana má Hleypa fráu essi.

46. Aptur hér med allann her Viar verr enn sneyptir, Hrakader og holdvoter, Hridum snérú steyptir.

47. Frelsast vann sá frægdum ánn Vid sjandskap þann og háska, Virding sañ og vaxa kañ, En veturiñ rañ til páska.

48. Reisu-gjord um rauda jord Rédi vordur laga, Fjalls yfir skord og hraunin hord Hélt í fjordinn Skaga.

49. Hérads-beimar hondum tveim Hossudu seima-njóti, Og budu heim ad kenna keim Af krúsar-geyma fljóti.

50. Upp nú bar hvad erinda var Ullur snara-skeyta: Bólstadar og búnadar Í bygdum þar ad leita.

51. Kappinn dýr ad koppum snýr, Kosti býr um flesta, Flugumýri fleina-týr Feck hjá styrir Presta.

52. Erinda greid svo afdrif beid Ofn-is-heida raptur, Héldt um skeid á hófa-meid Heim og reid nú aptur.

53. Svo um hríd var logn á lýd, Lin-adi qvídinn orma, Sumar-tíd þá blíkar blíd Brádt um hlídir storma.

54. Flutníng býr til ferda snýr Fleina týr hinn gyldi, Med fénad, kýr og farma-dýr Ad Flugumýri vildi.

55. Med Ekta-frú og oll sin hjú, Ull-ur hnúa-sunnu, Rausnar-bú þar reisti nú, Sem reckar trúa kunnu.

56. Fíngra-mjalla frey, um hjall Fird-ar allir hlýda, Rikti snjall um fold og fjall, Til fjardar hallinn-skída [4].

57. Sturlu vid med fullum frid Festi gridinn þægda, Og sinum nid hjá seima vid, Sidan bidur mægda.

E 7 58. Fróni

[4] Hallinn-skídi er hrútur; því meinast hjer Hrútafjördur.

58. Fróni á var afbragd sá Ytum hjá í morgu; Audar-guá til ekta þá Ingi-fá vill -bjørgu.

59. Hal med sann ad heiti þann Hall eg kann ad letra, Atján hann, en sjórtán sann Fridan svanna, vetra.

60. Sú var hog á hand-dyrd mjog, Harla fogur synum, Gissurs mog nam gjora drøg [5]) A giptu-logum sinum.

61. Festu svor med kjærleiks kjor Kirtla-vor og drengur, Varla spor skal veitslan gjor Þá vindsvals-bor inngengur.

62. Vildar-senn og vendsla-meñ Vóru enn tilqvaddir, Horn'ad spenna hvíting-enn, Handsolen vidstaddir.

63. Málma-tyr sig margur byr, Mála-dyrin skrida, Blóminn hyr þá foldar styr, Ad Flugumyri rida.

64. Mengid kátt þá bar ad brádt, A bestann hátt var mannad, Hundrad smátt þeir skorudu skátt [6]) Og skorti sátt á añad.

65. Mund-

[5]) Gjøra drøg á; er ad veita ádrátt. edur lofa.

[6]) Skorudu; þad er: toldu; svo var í forn-

65. Mundum tveim á móti þeim Meidir seima tekur, Leidir beima í húsin heim Og horna-geyminn vekur.

66. Sveitin þeck í sætin géck Svo sem reckum hlýda, Audar-breckum einnig féck annann beck ad prýda.

67. Allnir, frá' eg, salur sá, Sögunnar frá þess gétur, Tuttugu má ad sönnu sjá Sex og hjá þó betur.

68. Vísna stór á busta-jör Breiddin sór þar eptir, Örva-þórar í þeim kór Ecki vóru krepptir.

69. Orda-sal og yggjar-val Ecki skal hér mæda, Vods í sal um sæta-val[7]), Ad setja í skjalid qvæda.

70. Váru tjöld hin vænstu völd Veggir, og skjöldum hrósa, Gladdist öld, en komid var qvöld, Og qveikt á höldum ljósa.

71. Önd-

öld talid fjölmenni í her eda á skip, ad menn skorudu nidur á spítur.

[7]) Sæta-val; hjer er tvisvar sama ordid, sem líti mun þykja, en þýdir þó sitt hvort, og er gjört til leikuis.

71. Öndveged sá ríkka réd [8]) Rómi qvedur snjollum Samsæted og gladdi géd: Gud sé med oss øllum!

72. Komid er svo vitum vér, (Veiga-grér oss tjádi), Mannval hér, sem fregn um ser, Frægast ver'á ládi.

73. Opinskátt eg ætla brádt Ad oss var sátt í milli, Vér hofum átt í ergjum þrátt, Fyrir utan sátt og hylli.

74. Efiin bráð, sem oss hafa hrjáð, Eru nú kljád ad logum, Guds fyri nád, og greidt afmád Med gódum rádahogum.

75. Ï finn'er mér, ad semjum vér Samfarer med þægdum Vorar hér og vel, sem ber, Vinsemder í mægdum.

76. Samt eg bid, og set hér grid Sér-hvørs ydar-milli, Agætt lid svo egist vid Allt í fridar-stilli.

77. Fridar-kjørin fleina-bor A fleiri gjorir vega, Þar til svor af orda-or Endti skoruglega.

78. Veisl-

[8]) Öndvegis-madur hefir líklega verid Giss-ur sjálfur.

78. Veitslan brádt á vænstann hátt Vaknar dátt með kæti, Horpu-slátt við blustar-gátt Heyra mátti' um stræti.

79. Fæðslan, þétt og þegi létt Prisna mettar holða; Ei hef'eg frétt, hvað upp var sett Af hymsum rétta-sjolda.

80. Snæðingar þá fyllti far Fólk, sem var með réttu, Skeinkingar- á -skutla [9]) þar Skála-marinn settu.

81. Sumlið [10]) géck með sætann smeck, Seggir ecka seldu, Atta reckar á hvorn beck Að hýtum drecka héldu.

82. Blikndu spjót af himin-hrjót [11]) Hausa' í fótum axla, Staupa fljót um um góma-grjót Geysar að rótum jaxla.

83. Kér-

[9]) Skutla; það er borð, svo vóru og skutul-sveinar kallaðir þeir, sem þjónuðu fyrir borðum.

[10]) Sumt þýðir öl eða veitslu.

[11]) Himin-hrjótur er naut eða uxi; hans Hausa-spjót eru horn, sem dryckur var á borinn á fyrri tímum.

83. Kérin rjód af rínar-glód Rogudu flódum horna, Kráſar-blód um kjærleiks ſlód Kunni fljódum orna.

84. Í Þann tid var ei hjá lyd Eda ſidar haldin Veitſla frid, ſem Þeſſi Þyd, Um Þrumu vidann faldinn.

85. Háukdæler, Þad ættgengt er, Or-láter, ei ſpørdu Staupa-ver og veitſlur hér Vænſtar bera gjørdu.

86. Sveit Þó naumann gæfi gaum Ad gledinnar taum á qveldi, Horna-ſtraum og góma-glaum Gamanid drauma ſeldi.

87. Auds Þá hlyri annar nýr Oma ſnýr ad brúdi, Veitſlu dýra virdum býr Veiga-týr hinn prúdi.

88. Brúdkaups dag med beſta ſlag Blóminn fagur prýddi, Agætt plag géck allt i hag, Sem yndis-brag tilhlýddi.

89. Glaums um kór nam beſti bjór Branda-Þórum orna, Veitſlan ſtór med frægd útfór Þá ſjaradi ſjórinn horna.

90. Heimbodcd ſá hafdi tjed Hofdings géd ei ſpardi, Lýdi medur linna-bed Leyſa réd úr gardi.

91. Vegs á knör [12]) þá Oddsson [13]) or Og heimfor nam þenkja, Stódhross kjövenn stála bor Stolltum gjörir hann skenkja.

92. Hinn þá bidur vopna vid: Varúdar sig ad geymi, Litla bid á lausa-klid Lát sem ydur dreymi.

93. Veitstú mér, hinn vísi tjer: Veigagrér, ad sinni Ósarer og háska hér Ad hönd, sem bera kynni?

94. Ullur hneita andsvör tejt, Örvaveitir-runni: Aldrei veit hvar ölur um reit Og ódur leita kunni.

95. Eptir þad ser eld med hrad, Er af stad var búin, Virdta bad á gjardaglad Greidt úr hladi snúin.

96. Dróttinn reid, en drossull skreid Þá dagurinn leid enn þridji, En um skeid hjá örva-meid Isleifur beid hans nidji.

97. Vóru

[12]) Vegs á knör; eins og skip kallast hestur sjóar, svo kiennist einnig hestur vid skip jardar eda gotu.

[13]) Oddsson; nefnil. Rafn Oddsson, sem opt kemur vid þessa sögu.

97. Vóru þrír med veiga=thr Virdtá hlýrar allir, Mannvol dýr og menta=skír, Muñdu fyrar snjallir.

98. Nú hef'eg gipta gullhlads = nipt Sofugum lyptir sverda; Vara=drift skal rognis rist Og rímu=skipti verda.

99. Nýti þjódin lítil ljód, Litin fródir bæti; Þrýtur hljód, en hr'eg ód; Ýtar gódu mæti!



## X. Ríma.

### Um Eyólf Offa, og heimsókn á Slugumýri.

Regins mjødur róms af fjødur renni' um hríd, Tíunda, eg brøgnum býd, Báleiks=minni', og seima=hlíd.

2. Fáheyrt lag eg finn vid brag þó falli lítt, En efni því fær allvel hlýdt, Sem eptir=kjemur, varla sídt

3. Hef'eg um stundir fengs med fundi frá því skirt: Ad hoskir menn vid heimbod dýrt Høg'unnum gledi fengu stýrt.

4. Brúðkaups frami sá hinn sami seggjum þar, Fyrna-Kuttur, frá' eg, var Og fjell til mestu skapraunar.

5. Heims um veldi ætla' eg eldi ýmsu þrátt; Þó' andnan látist brosa brátt, Hún býður að fundu góða nátt.

6. Opt er kjæti' og eptirlæti' að aptni dags, Máske þó að morgni strax Máttar-seytur bregðist hags.

7. Í minni stár hvað mælti hár og marg-reynut er: Að engum þyki óvænt ser Hvar vin hans að garði ber.

8. Þá virðar sofa' í værðar dosa' og varir síst, Ribbaldinn er vakinn víst Að vermu spori' í húsin brýtst.

9. Níðings-verk eru mikil og merk að myrða þjóð, Og leggja í húsin logandi' glóð Þá lýðum skjemtir njörva-jóð.

10. Óhóf slík vóru ærin rík í öldu fyr, Járni með og heiptar hir Heim að sækja menn um dyr.

11. Menn þó klagi' í meira lagi margir nú: Vorri hjer á viðkis-frú, vanti bæði æru' og trú.

12. Fæstir nenna bæi brenna', að betur fer, Í blundi' og vöku bragnar hjer Búa mega óhulter.

13. Meið-

13. Meidar flacka mega þacka Mildings náð, Svo er bygt með lægum láð, Að lýðir kunna hjer við ráð.

14. Þeir, sem gjæta' og sögunni sæta senn munu fá, Hugraun stærri að heyra' uppá En hvorndags þjófa-þorin smá.

15. Mannsaungs leka fjalars úr fleka fæ svo sqvett, Og veiðarfærum rægnis rétt Renni fram af mærðar-klett.

---

16. Hvedrúngs minni hinnsta sinni [1]) út hönd var lagt, Er brúðkaups eptir bána prakt Bodinu lokjins upp var sagt.

17. Læt eg hana hrosshárs-grana [2]) hverfa um stund, Aðra leið með yggjar fund, Og Eyólf vekja Þorsteins kund.

18. I

[1]) Hinnsta sinni, er dregið af hinn, sem merkir þann síðara, og því þýðir þetta: síðasta sinni.

[2]) Hrosshárs-grani er Óðins heiti (Eddu; hans hani er huguriun.

18. Í Skagafirdi skjóma-hyrdir skrád-ur bjó, Auknefndur var Offi þó, Ein-kennid af rentu dró.

19. Ekta-qvendi álma-bendir átti ser, Sighvats nidja (sagan tjer) Sú var Sturlu laundótter.

20. Hét Þuridur hrínga-fridur hörd í lund, Gétin varl'á gæfu-stund, Þó gösug-ættad væri sprund.

21. Gissur ugdi helst og hugdi af hyski því Standa mundi styrjöld ný, Ef stad-næmdist þar bygdum í.

22. Baud í tíma burt ad ríma branda-þór; Hinn med öllu happa-sljór í Hörg-árdalinn nordur fór.

23. Biskup lénti best sem henti bygd-ar-stad, A Mödruvöllum þegn med þad Í þúngu skapi sertist ad.

24 Sá kom fagur sólar-dagur sumri á, Bedja glens um lopt og lá Locka fegurd sinni brá.

25. Utan hýsa fólk nam fýs'ad festa bid, Orda-gaman egast vid, Einnig fleikja folskinid.

26. Bónd-

26. Bóndinn sjálfur góma-gjálfur glensinn þar, Vekja nam til Vigdísar, Var hún móðir Þuriðar.

27. Hvað mun valda, vesian spjalda, vonurinn tér, Að hann Gissur eins og mér Útan héraðs bægði þér?

28. Af sinni gráu svaraði fáu seima-grund, En með þjósti' hið yngra sprund Ansa náði járna-þund:

29. Þr[illegible] vafa þókt mun hafa (það er mín trú) Hvor ein vera hárs á frú Herkerlingin vænni' enn þú.

30. Frægð með gésna foður míns hefna fleins við þrá, Litinn einn; sem líta má, Léntann þér hann kunni sjá.

31. Sendir slaungu svaraði engu en safnar mó, Út kinnar dreirinn dró Og dockvum farfa yfirsló.

32. Fram að hausti harms í nausti heiptir svall, Út af hálum hyggju-stall Hefndar-girndin lokkins vall.

33. Søfnuð manna sverðs til anna saman dró, Hrottinn margur heiman bjó Hasta ferð og þandi jó.

34. Odu leidar upp til heidar Yxna-dals, Fjórir urdu tygir tals Og tveir ad auki stráka-vals

35. Fljótt nam draga' í fjørdinn Skaga flockinn med, Aptan þann, sem ádur 'er tjed, Endad væri brúckauped.

36. Þá nam inna oddvitinn hvad er-inda var: Stefna ad gardi Gissurar Med geir og eldi sækja' hann þar.

37. Engir lottu', en ymsir hvettu ó-ráds þess, Og sporum keyrdu ódir ess Of-an í fjordinn Hegraness.

38. Færdin góð um grímu-jód þeim greiddi sér, Svo sem flygi elding or Und-an skorpum fornjóts bor.

39. Reidarflugid heiptar-hugir herdtu þar; Af ytum lengi ordlagt var, Illmenn-in hvad fljótt adbar.

40. Komu fyrar Flugumyrar framir til, Um þad dellings-brúdar [3]) bil Bik-ad hafdi vagna-þil.

F 41. Sudur

[3]) Dellings-brúdur er nóttin, sem bikar Vagna-þilid, himininn.

41. Sudur á grundu gota bundu og gengu hljódt, En vards-menn tveir, sem vokt'um nótt, Varir urdu þeirra skjótt.

42. Af bænum annar burtu rann, sem búin var, Og hersoguna brognum bar J bygdarlagi næsta þar.

43. Jnn í skálann óda-mála arkar hinn, Upp og hrópar adkominn Ofagnadar tídindin.

44. Vindar þustu vid og brustu Vifa-raums, Upp úr midjum dáni draums Dansi ad sæta járna-glaums.

45. Má hverr sjálfur minnúngs-álfur mark'á sér, Ef áreka brognum ber Brád-ann voda líkt sem hér.

46. Til fóta' og handa brjótar branda brugdu' í svip, A hédins vodum gjordu grip, Og greiddu úr festum ullar-skip.

47. Sumir valla klædi' ad kalla komust í, Dólgar fyrr med darra-gný Dvelja nádu fyrir því.

48. Einn med hradi Gissur Gladi [4]) greindur fyr, Kjalars fyrstur komst med hir, Og qvenna-skálans vardi dyr.



([4] Gissur Gladi er nefndur í ziu Rímu,

49. Millum bjálka ∙ bjarnar ∙ kjálka [5]) beint í stad Urnis skordar Ylja ∙ blad [6]) Og trugglega héllt vid þad.

50. Húss ∙ foríngi hjörs vid kyngi hrædi∙ lig, Hvorgi seinn í hrotta ∙ rig, Hervedadi líka sig.

51. Kiss af vendi hans med hendi bríngu ∙ gná Gróa fridar bondum brá, Brandi sjálfur ryckti' hann þá.

52. Hans og allir arfar snjallir uppi strax, Bjartann spenntu benja ∙ lax Brædi' ad mæta hildar sqvaks.

53. Geystu mödir inn, sem ödir, Eyólfs menn, Bæar ∙ dyrin tóku tvenn; Því tví∙ skiptur var flockurenn.

54. Hreyttu blóti, en beittu spjóti' og brugdu gërd [7]); Kolbeinn Grøn var fremst í ferd, Um fleiri hër eg þegja verd.

 55. Anga∙

besti vinur Gissurs Þorvaldssonar.

[5]) Bjálka ∙ bjørn, hús; þess kjálkar dyra∙ stafirnir.

[6]) Urnis Ylja ∙ blad er skjøldur.

[7]) Gjerd er vopn.

55. Angatþta eysu drísa óx nú meir, Login hosdu tendrad tveir Til svo betur sæu þeir.

56. J karla-skála styrjold stála stofnud var, Offi sjálfur innkomst þar Og illsku-mannsins fylgjarar

57. Skollin æstu hátt og hvæstu hlísa flögd, J recka mundum reidd og logd Reyndu margskyns vígabrogd.

58. Vidnám hreppu, vígs þeir képptu ad vekja storm; Bæar-lid med benja-orm brúka nádi sama form.

59. Vopnin skóku' og varnir jóku vel, sem bar, Ymsa reiddi aptur þar Eda fram um sillu-mar.

60. Þá eggjum skálma sárs vid sálma saman sló, Gneista- hronnum -flugid fló Sem suni gys úr elda-stó.

61. Margur sidan meidir skída í munn sér bar: Ad hvergi verid hefdi þar, Sem hreystilegar barist var.

62. Því hafa vinir vel, sem hinir, vidbrugdid, Hvad vasklegana' í vopna-klid Varnir syndi bæar-lid.

63. Mækis-

63. Mækis-eggja millum hreggja mædd-ir senn, Hvíldir tóku hraustir menn, Sem hér er títt við skinnleikenn.

64. Lengi nætur, Prymu-Prætur Þann-ig gá, Milli varla mátti sjá Málma hvernig lyki stjá.

65. Ymsra manna orlog bannar oxd-gnótt sljó, Upp að telja, en ærin Þó Efnin sagna til Þar dró.

66. Björn að nafni, benja-svafni [*]) bæar-ver, Eyólf stack, svo orva-grér Ösugur féll, en sár ei ber.

67. Frs i grádi eggja nádi að auka vorn, Geira-viður góms af qvorn, Gyldra maki sagður Björn.

68. Svo hefir Gissur sagt með vissu sjálfur frá: Að vaskari með víga-ljá vígra-staf hann hvergi sá.

69 Þorstein eggja Þurft'ei Skeggja brekinn nið, Stafn-reckjuna varðist við, Og verjur skifði á ymsa hlið.

 70. Benja

*) Svafnir eða Sófnir er ormur; benja-ormur vopn.

70. Benja-vorgum blóds til morgum bitinn af, Mjog um sídir málma-staf Megnid stýdi, vorn uppgaf.

71. Fleins vid gjálfur Gissur sjálfur greina má, Stafn-reckjunni hraustur hjá Hogna-vedir gjordi slá.

72. J stafn-reckjuna steckur funa-stýrir bors, Þadan egg og oddi hjors, Umgjordina vardi sjors.

73. Kappans nýtur brynju-bítur brandur hét Skarpur, klofna skjoldu lét, Skeinan morg svo raudu grét.

74. Framarlega freyu trega fengur sier, Eyólf hvar ad eitt sinn ber Þá út um skálann sækja ser.

75. Haudúr lóma, hans med skjóma hugdi slá, En stráka [illegible]an svo til sá Ad sveinir [illegible]ærja slapp þar hjá.

76. Tjalds í smotta hoggid hrotta hindrun feck, Sem í kríngum hvílu heck; Hormulega til þad geck!

77. Aldrei plátu-g[illegible]ltar gátu Gissur sjed; Margur hann þó mana red Manns ef bæri hug og ged.

78. Síst

78. Síst nam hyrda svars ad virda sæmdar-mann, Utan þegar vomum vann Vigurinn gégna fyrir hann.

79. Upp um ljóra-lánginn stóra litu menn, Margur væri afgángs enn Ullar-sunda-jálkurenn [9]).

80. Gissur vildi garpar skyldu grípa þá, Og skjóta sídan skjaldborg á Skála-dyrum úti frá.

81. Vardist mengi vel og lengi vid þann skans, Í reidíngu fór ríta hans Recka' í milli þar til sanns.

82. Kolbeinn rífa hyggur hlífa-höllu [10]) brádt, Til nam þríf' af mesta mátt; Meidir knífa vann þó smátt.

83. Gissur móti gyldum þrjóti geirn-um brá, Hauka-trod kom eggin á, Und-an hinn svo bregda má.

 Ari

[9]) Jálkur er hestur; Sunda-jálkur skip; Skip ullar skjøldur.

[10]) Hlífa-høll er skjaldborg; Kolbeinn hugdi ad rífa skjaldborgina.

84. Ari fundur Ingimundar um það svið, Kvista nádi knefa við Af Rét-ilbirni Gissurs nið.

85. Dró nú hjorva-dóttir njorva-dans um skeið, Aðsókuin tókst ecki greið, Offi líka fyrir gveið,

86. Að sækja mundi sverðs á fundi sveitar-lið, Berlings meður brúðar nið, Og bæjar-monnum hjálpa við.

87. Hugði' að slíta roslugt ríta-regn-ið fyr, Bera lét að húsum hir Og heima-liði verja dyr.

88. Vér skulum eyma bæ og heima-bófinn gvað; Jón á Backa blés þar að Og bjóst með tjoru hemanað.

89. Logann festi leigs í nefti' [11]) og sagði' um þok, Eldnæm vóru ása-bok Igultanna, þeigi rok.

90. Sumir toðu tóku' í hlodu og tráðu' ósmátt Strábeygis í glyrnu-gátt [12]), Svo grædis-vinur lifni brádt. 91.

[11]) Leigur er eldur; hans nefti er eldsneyti.

[12]) Strábeygir er vindur; hans glyrnu-gátt vindauga.

91. Kófið eykur rammur reykur ranns Um hvólf, Bragnar lögðu benja-kólf, Og byrgðu sig við skála-gólf.

92. Andrúm fyllti, augað grylti ecki þar, Gissur einn með gorpum var Á gólfi' að súpa hveljurnar.

93. Merkileg'á marga vega menja-grér, Himna Guð til hjálpar sér Af hjarta' og munni biðja ser.

94. Þorbjørn Nefur holdum hefir hermt með sann: Að aldrei þóktist heyra hann Hjartnæmari formálann.

95. Gøfugur síðan grettis hlíða geng-ur-þorn, Andyranna úti horn, Að hon-um studdi falda-norn.

96. Róms um næði[13]) reykjar-mæði reckinn skar, Ut vill heldur orku-snar Enn innk. vera svældur þar.

97. Góms úr drøgum lopts af løgum létti neyð, Og svølun færði málma-meið Meðan þar í dyrum beið.

 98. Hans

[13]) Næði kallast aðsetur, svo sem: jarðnæði, húsnæði; því er næði rómsins háls eða qverkar.

98. Hans ad dæm'i hug mer kæmi hálfa stund, Mæddum eptir sónar-sund, Sefann hvíla' og festa blund.

99. Smidur qvæda bidur bræda bláins fley, Snidur gæda á er ei Ydu flæda dáins — nej!



## XI. Ríma.

### Um Flugumýrar brennuna.

Midjúngs tunnu mjadar-lausa, Mier þó illa gángi' og stamt Máls úr brunni upp ad ausa, Med eitthvad fylla verdur samt.

2. Mínum gjörir margt ad hamla Mærdar kosti gjeds um bú; Sýru-kjerid Gissurs gamla Gott vid þorsta væri nú.

3. Máls- þar fyrst eg -hátt ad hneigi; Hvörr, sem dreckur vatnid ei, Sjerlega þyrstur sýnist eigi Svoddann reckur týrs á mey.

4. Eins þá vetrar óljós vaka Eykur sprundum leidinde, Eitthvad betra er ad qvaka Og þó stundum ljettvægt sc.

5. Þúng er mønnum þøgnin lánga, Pyckrum dreira [*]) kjemur af, Gjeds í rennum stúrkun stránga Og stundum fleira íllt hún gaf.

6. Því skal drífa þánka-mædi Pels úr siord-um bauga-norn, Og hánga-tífa horna-flædi Haf'á bordum stundar-korn.

7. Lífs ef framar krapta kynni Køldum veita bodnár-hyl, Gjør'eg hamar hárs ad minni Hátt-um breyta má svo til.

8. Mier um heidni má ei stefna Mengid fróma fyri þad, Þó í beidni bodnar-efna Brúk' eg óma fulltrúnad.

9. Engnm betur óds á bordum (Einn svo ræddi madur gjegn), Enn þeim hetu á hann fordum, Unda blæddi qváss regn.

10. Eitt má gaman ødru hlýda, Ei þad skjerdir kristni-staud, Skáld er samansetja' og smída Síst mun verda fest á band.

11. Ædis-rennur ef nú hrøckva Inn ad veita bodnar hyl, Eyólfs brennu-eld ad sløckva Dvur heita' í qvøld eg vil.

 12. Minn

[*]) Svarta gall (Atra bilis), hvad gamlir merkilegir læknarar hafa sagt orsakadi þúngsinni, og kæmi af kyrrsetum og leid-indum.

12. Minn því valur fornjóts ſkúga ſlugu-
mörar yfir ſal, Máls og alur aptur ſmjúga,
Odinn rira hitta ſkal.

---

13. Regins dælu-rackinn hýmdi
Reiſumódur nærſta ſyr, Þar ed ſvælu
reykjar rýmdi Randa-bjódur fram vid dyr.

14. Stód hjá runni rínar elda, Rétt
ſvo megi veita lid, Geds í brunni hriggd-
um hrelda Hýſſins freyja' og ſtuddi vid.

15. Fars þá anda-ſvolun ſanna Sér
nam kaupa' og hafdi nád, Reynir branda
upptók annad, Ut ad hlaupa þókt'ei rád.

16. Upptók mundar-elda brennda
Alma-bør, úr púſſi tvo, Ekta ſprundi af
red henda; Ordum gjörir haga ſvo:

17. Ægis-ljóſa, ef mig þryti, Oſkin
brína gáng'i vil, Eg mun kjóſ' ad engir
nyti Utan mína vini til.

18. Hladgulls-eikin harma kenndi,
Hvarma-lækir vættu brá, Inní reykinn
aptur vendi Ullur mækja henni frá.

19. Hrafna-fædir hugſa nádi Hendur
voma ſkýjaſt um, Ef hann nædi út med rádi
Ur ad komaſt húſunum. 20. Hét

20. Hét Gudmundur honum fylgdi, Hjörs úr vastri framgenginn, Audarlunds-ur ecki vildi Adskiljast vid frænda sinn.

21. J litlu-stofu leitast vidur, Lítt þó eirdu' ad bída þar, J þeim kofa ei var fridur, Uti heyrdu bolvad var.

22. Reykurinn súri sjónar-steina Sárt þó eymi hulstrin læst, Skyrs-ad-búri brjótar fleina Birt er sveymi þessu nærst.

23. Gudmund bidur: burt ad væri Brjótur sverda nú frá sér, Engu midur undanfæri Einum verda til kann mér.

24. Þar sem bádum ockur ecki Ohult verda saman má; Hans ad rádum hal-urinn þecki Hversa gérdi burtu frá.

25. J búrid sídan Gissur gengur Gat ad líta sofnudinn. Hans þar bída lát-um lengur Londángs hvíta bikarinn.

26. Tók nú vída-troll ad grenja, Traust-bjálkanna silum [2]) reid, A hms-ar hlidar út sig þenja, Innan ranna nóg var seyd.

 27. Elds

[2]) Traust-bjálkar eru máttar-vidir í húsi; þeirra sill stórt hús.

27. Elds ár voda oldin flǽdi, Af sér loga-klædin dró, Angan-troda þyrs á brúdi Trautla voga sumir þó.

28. Nádu gridum nockrir seggja, I nautum bjarga vinur má, Adrir bidu benja-hreggja, Brennu-vargar drápu þá.

29. Stód í dyrum Gissur gladi, Geirinn spennir mundin von, En þar fyrir úti á hladi Illsku-mennid Kolbeinn Grøn.

30. Hefdu ádur hjörs í þætti Horku-gyldir mæist svo vid: Ad hvorr, sem ráda yfir ætti Ødrum, skyldi veita grid.

31. Baudst ná hinum grid ad gefa Grøn og lýsir yfir því. Ansar hlynur orma-sefa: Annann kýs eg minn stad í.

32. Qvadst med vissu Kolbeinn vilja Kosti slíkum láta' hann ná, En þó Gissur undanskilja Einnig líka syni' hans þrjá.

33. Hugdi' hinn Gladi Gissur kjósa Gridin þau fyrir nafna hans; I alla stadi old má hrósa Ærutaugum þessa mañs.

34. Hvar mun slíkur hittast núna Hof þó kanni, land og bý, Æruríkur ofnis-rúna-Askur,[3]) manna bygdum í? 35.

[3]) Askur er trje eda vidur.

35. Asa-vørgum eldar sóa, Inni þjóð-in helst ei kyr, Ingibjørg og eñig Gróa Uti stód vid bæar-dyr.

36. Kolbeinn eptir Ingibjørgu Orku-styrkur vedur þar, Ørmum kneppti Ullur tjørgu Og til kirkju vísid bar.

37. Þorsteinn Genja het sá hrókur, Húsfreyjunni í bálid skaut, Foldu menja funar tóku, Fjørs átrunna glasid þraut.

38. Logandi rapta-ljóns úr munni Leitar Hallur Gissursson; Fjørs og krapta steina-ruñi Feigdin alla gnæfdi von.

39. Þverar dyr um þyckvu bordi Þegi klockou skotid var, Blinds med hir hendi þordi Hann ad stockva yfir þar.

40. Frægdar sveininn sót á ládi Fest-ann varla hafdi þó, Fyrr enn einn hinn illsku brádi Ennis-fjallid brandi hjó.

41. Benja-fljót um landid lægra Locka-jardar dundi hreint, Annar fótinn hogg-ur hægra Hjørva-njardar sundur beint.

42. Einum duga mætti minna Málms á fundi bragdid stíft, Yfirbugan fjørs ad finna Fisu-þundi var ei líft.

43. Ná

43. Nú skal herm'af húsa-bønum Hvorsu leika nádu þar, Tóku' ad verma garpa grønum, Grím og reykjarsvælan var.

44. Yndis-londin yfirgengur Olgu-rokid súna bors*), Þar til ondin eirdi ei lengur, Og var lokid tabli fjørs.

45. Unnum leikur ort í loga Allur bær-inn nærri því, Eins og veikum ullar-toga Eldinn væri kastad í.

46. Lángbond hrucku ljóra-hesta Log-ar húdin utan til, Sillur stucku, Bjálk-ar bresta, Bilar súdin, féllu þil.

47. Bísnum hrundu brunnir veggir Bilmings skridur heyrdu menn, Þekjurn undir urdu seggir, Er þær rid'um koll í senn.

48. Æsti bálid ægis vinur Upp um hvólfid gjordi brak, Í því skálinn ofan-hrynur Inni' á gólfi lendti þak.

49. Átta fýrar undir vóru Andar-missu hrepptu þeir, Af þeim hlýrar ætt-ar stóru Ásfar Gissurs hinir tveir.

50. Eynna

*) Súna bors; súni er eldur, hans bor eda sonur reykur.

50. Eyma flugur allaveg'na Eyddu mönnum bæ og fé, Hálfur tugur hrídji þegna Þar í hrönnum daudur hné.

51. Engann kofann (ad eg meina) Ægis-bródir lét'í frid, Litla-stofan utan eina, Eldhús stód og skyrbúrid.

52. Þángad genginn Gissur væri, Gétid ádur höfum vér, Ef hann fengi und-anfæri Og med rádum fordad sér.

53. Skygnast var nú skifir randa Skjól ef lítid mætti fá; Leit hann þar á stock-um standa Stórann hvítu-matar sá.

54. Hildi-göltinn[5]) halur lagdi, Hjálm-göll fyrr enn steypir af, Upp ad hjöltum unda-flagdi Ofaní skyrid stack á kaf.

55. Ullur sjer enn ofnis mýra, Um þá sjördi ktast þar, Annad kér, sem í var skyra, Ofaní jördu grafid var.

56. Stálabaldur sté med rádi Straums í þéla djúpann hyl, En skyr-kérhaldid Skyggja nádi Og skýldi vel ad ofantil.

57. Setst

[5]) Hildi-göltur er hjálms heiti; Hjálm-göll er brynja.

57. Se'st hann ort á shru-grunni, Svalid kalda skjálftann jók, Geirs í vort-ur grams á runi Géllis-aldan[6]) skarpa tók.

58. Hafdi vidur linna leira Lánga bed-id ecki stund, Fyrr'enn klidur góma-geira Gégnum vedur heyrnar-sund.

59. Vomar honum vóru settir Víst til bana-heimdalls[7]) þrír: Kolbeinn Grøn og Ari' á eptir, Einn hét Rani fleina-týr.

60. Illskubygdir auds ad njóti Attu kaudar vega seint, Hvornig brygdi hjør-va-brjóti Hans vid dauda, skyldi reynt.

61. Laufa-raptar logs med brandi Leita mundu bárid gégn, Fram og aptur ad-gætandi, Aldrei fundu gyldann þegn.

62. Uns þeir komu ad shru-sánum, Sem í jordu grafinn vár, Benja= vom-ar-lags med ljánum Leita gjordu nidur í þar.

63. Verd-

*) Géllis-alda er shra.

[7]) Bani heimdalls er mannshøfud; ad setja til høfuds, er ad ráda bana-rád.

63. Verdúngs [8]) ríka vals á tronum [9]) Varla kitlar sjodrin mjó, Skeinur lík'á kostúngonum skémda litlar gjordi þó.

64. Halurinn prúdi, sár þó svidi, Sem hann, sékk af stæltum geir, Lófum hlúdi hægt ad qvidi; Heldur eñ ecki gloptust þeir.

65. Þannig sogdu þrísvarsinnum; Þrætur herda runnar grjóts. Adrir sogdu: sitthvad finnum Oddi verda fyrir spjóts.

66. Sumir héldu mjog á móti, Mætt' ei heita nærri því; Gruninn seldu, geirs ad brjóti Gjordu leita uppá ný.

67. Leita nádu lífs af kroptum, Litt þó finna bauga-frey, Fór sem ádur fleina-roptum, Frómt ad vinna tókst þeim ei.

68. Þadan gengu þocka-snaudir Þegnar, undu' ei vetur vid; Hinn sem langra lífs var audid Lofa mundi Himna-smid.

69. Greinir slóust mjog í margar, Menn þó hreppti gridin sterk, Burtu dróust brennu-vargar Búid eptir nídíngsverk.

70. Ytar.

[8]) Verdúngur, : hofdíngi.

[9]) Vals á trønum; hendur kjennast vid allt þad, sem valur getur setst á.

70. Ytar ríða,' ei var skadi, út þeir stefndu ljóns um tjörn, Einn þar sídarst héllt úr hladi, Hañ var nefndur Fótar-Örn.

71. Örva-raptur Eyólf vidur Upp af þondum hálsi tjer: Ridum aptur, ræd eg ydur, Rétt ad hondum veidi ber.

72. Eg nam skoda, úti kirkju Einn med vissu leiddur var, Þánkinn bodar mér ó-myrkur, Mundi Gissur vera þar.

73. Seggir trúa sogdust egi, Svodd-an gétur varla sked; Aptur snúa þegnar þegi; Því var betur, segi'eg med.

74. Missyníngar vóru valla, Víst hvad drengur mælti þó, Borinn hrínga' í sjiu-falla [10]) Sitja lengur hafdi ei ró.

75. Kulda-hrollur kroptum eyddi, Qvikar stansa rennur blóds, Klæda-þoll í kirkju leiddi, Kappa-fans, er unni góds-

76. Allvel hlúdu menn ad mærum, Mikil klædi bár'um hann, Ein sér brúd-ur og á lærum Ulfa-fædir verma kann.

77. Hvorr ad súss, eg vildi vótta, vermdi jvilin kulda skémd, (Versta súss úr

[10]) Sjiu-falla; dryckur eda fóra eru sjiud,

ar gellirs grotta) Garða-fylja sú er nefnd.

78. Sitt rúm aptur sjor nam fylla, Flóðið æða sett'i rás. Keisu-raptur kom-inn var illa, Af kulda bæði' og reykn-um hás.

79. Lissins þegar lýstu varma, Lida-móta hræringar, Drengilega hrygð og harma Hjorva-njótur sína bar.

80. Hárs þá brúðar barminn skjæri Barnæskunnar merki gaf, Til varúðar trú'eg færi Tjorgu-runnur bænum af.

81. Ferðum snéri fram í Túngu, Ford-ast vildi brennu-menn; Skjóma-grér í skapi þúngu Skort'ei snildar úrræðen.

82. Héraðs lýður hópum saman (Hófa-dhrin leku spil) Með honum ríður fljótt að framan, Flugumýrar ofan til.

83. Páll á Stað var Kolbeins kund-ur, Kyns og frændi Gissurar, Heiman-að bjóst hjorva-lundur, Hjálpar-vændir í kom þar.

84. Sem til bødvar [11]) búnir vóru, Bygda-grannar fleiri senn, Eptirstødvar elda fóru Ort ad kanna vaskir menn.

85. Ósku-bíngjum af nam rjúka, Ufla veggir høfdu kennt, Torfs úr dyngjum dauda búka Gróu seggir, hold var brennt.

86. Ut á mjóu ullar-flevi Isleif bera garpar þá, Og brjóst af Gróu, brunnin eigi; Bóndinn tér, er þetta sá:

87. Isleif son minn á ad líta Attú, frændi! qvad vid Pál, Einnig konu, er hid hvíta Ondu rændi heiptar-bál.

88. Undan leit þá odrum bregnum, Augad glapti sorgar-vagl, Sídan fleit af sjónar-vognum Sverda-rapti líkt sem hagl.

89. Fjáreign gód á Flugumýri Fyrir brennu-tjónid var, Skjalda-rjóda skrúd-inn dýri, Skartid qvenna af þó bar.

90. Húsbúnad og hvílu-resta, Hafdi þar til margur léd, Godt þjódladar gyldi ad efla, Gripa skart og sofnis-bed.

91. Sinna

[11]) Bødvar; genitivus af bød, sem merkir slag, eda blód-ærd; hinc Bødull.

91. Sinnavísann muna margur Misst ir keypti, saklaus galdt, Af því hrísa ólmur vargur Í sig gleypti það gjörvalt.

92. Skadann rira má þó mesti, Mjög og fella í þagnar-hyl, Ad Flugumyrar bærinn besti Brann ad velli ösku til.

93. Hvörgi betur hér á landi, Hösuð-ból þó skygnist um, Höfdíngs-setur stód í standi, Stadnum Hóla fráteknum.

94. Sauma-prjáli sitjaldadir Salir vóru' og stofurnar, Einnig skálar alþiljadir, Undra stórar byggíngar.

95. Hestum dregin, steind og strikud, Stockud vóru innan þil, Hinumeginn brædd og bikud Busta-jóra utan til.

96. Flaug med skyndi fjær og nærri Fregn af nídíngs verkum þeim, Ottdindi engin stærri Eyrum lýdur heyrdi tveim.

97. Svoddan grándi' ad fremja' og fiña Fordi' ofs Ræsir urdar-bruñs [12]). Hródrar

[12]) Urdar-brunns; hvad urdar-brunnur merki eginlega, hefi eg ecki fundid, nema þad

ar vandi hér skal linna, Hlidum læses bødnar-sunds.

98. Ljóda snaudur madur mædist Midjúngs skeid ad troda' um hrid; Módir audar ad nú lædist, Yðju sneyd-ir bodar lyd.



## XII. Ríma.

Um eptir-mál eptir brennuna.

Róma - borgar hradt um hlid Hleyypur út ad sinni, Góma-torgar londungs lid, Litinn pris þó vinnt.

2. Vinda-ljónid á burt enn Eltir svasuds mögur, Blinda frónid svellin senn Svelta blómstr-in fögur.

3. Lindir bólgna foldar fljótt, Fárid bodar þyngra, Vindar kólna innra ódt, Allt eins löd-in fingra.

4. Eydist

Þad se haf eda undir-djúp; En Edda segir: ad fornskáld hafi svo Krist kjenat, og því látum vjer oss hid sama duga.

4. Eydist hrønnum røduls raud Rost um austra gríma[*]), Leidist mønnum nætur-naud, Nema stytti tíma.

5. Tímann skerda mega menn Med Þeim besta hætti, Ríman verda einhver enn Ytum gledin mætti.

6. Mætt'eg bjóda Þjódum Þá Piljum gledin spjalda, Hætt'eg ljóda íþrótt á, Eptir sanngum tjalda.

7. Tjalda verdur hvørr Því hefur, Hljód, ar ordtak forna, Spjalda-gerdur kurteis krefur Kólgu spreytings-horna.

8. Horna-tjádi eck'er á Ofka-lögur bjáti, Þorna nád'i sumar sá Suttúngs af láti.

9. Láti reckar sæma sér, Seitil Odins kiera, Játi þeckar meyjar mier, Med hann sáttar vera.

10. Vera kynni sudri senn Sónar-gædum bótti Skjera finni á Þar enn Undin qváðis spótti.

11. Heit'eg krapta alla á Alda sodurs barna, Veiti skapta, mest sem má, Mærdar edlis kjarna.

G 12. Sit,

*) Grimur er hjálms kjenning; hjálmur austra er himin.

12. Sitji flióðin hæverſk hier Herjans und-
ir regnum, Flytji Odins happa hver Heyrnar-
port ígegnum.

13. Vekur gledi høldum hitt, Hætta mann-
ſaungs bøgu; Ekur ſledi marar mitt Mævils [a])
fram á ſøgu.

---

14. Flóda-karfi þulins þá Par
til lags nam renna: Ljóðaſtarfi ſeld var
frá Flugumÿrar brenna.

15. Brennu-mønnum eptir að Efnið
ſér nú hradar; Renna hrønnum gjarda-
glad Greidt til Hóla-ſtadar.

16. Rauſnar þádu Biſkups brátt
Búna veitſlu merka, Lauſnar [3]) nádu
ſÿkn og ſátt. Sinna nídings-verka.

17. Gengu í báið maktar-menn Mat-
ar-ferd tilhjuggu, Fengu ráid Eyólf, en
Illa fyrir bjuggu.

18. Taſdi

[a]) Mævils; dvergs heiti; marar-ſledi er ſkip.

[3]) Aflauſn; Biſkup tók ecki hardt á brennu-
mønnum, og var ſem honum líkadi vel
verkid; orſøkin er audſjen.

18. Tefdi Gissur hoskur] hér Heila viku' í ronnum, Hafdi vissur geira-grér, Greidt af brennu-monnum.

19. Bandid Hrísa-eyjar á Undan fól-ar stucku, Landid príta þeigi þá Þeim til hockrar lucku.

20. Lánga jóku seggjum senn Svodd-an mædu tídir, Gánga tóku merkis-menn Milli þeirra' um sídir.

21. Stilla vildu bragnar brátt Bryn vandrædi seggja, Hylla skyldu sama' og sátt, Sveitum fundinn leggja.

22. Fundur hta hafs var hjá, Haudri' áqvedinn sallta, Þundur ríta margur má Mæta á Eyri Hjalta.

23. Spennu raudar[4]) eikjum á Eyr-ar fram af tánga, Brennu-kaudar þæsdu þá, Þordu' ei upp ad gánga.

24. Bydur dóma Oddlings á Ossi mál med vexti; Sídur hljóma þókti þá Þessi hinum texti.



[4]) Raud; jardar eda eyjar heiti; hennar spenna er sjór; eikur sjós er skip.

25. Jrring fjærri sátt var sú, Sögd ad kynni breyta, Fyrring stærri nauda nú Nockur mátti heita.

26. Medan orma kroppum köld Qvelling nærsta synði Hredan storma, innt er öld A þar gridum klindi.

27. Fylgdu slíkar þessu þó Þrautir fjilmálanna: Skyldu víkja bygd hvar bjó Brennu- sérhverr -manna.

28. Flaustur-skordur [1]) virdar vid Vandrædum sro reisi, Austur, nordur senn um svid Saka-dólgar geysi.

29. Fundinn yrdi þá úr því Þeirra hverr (eg spjalla) Strundin firdi Eyja í, Ohelgur skal falla.

30. Geisla ridu ægis ódt Ullar burt af sundi, Beitsla skridu fílar fljótt Farmathrs á sprundi.

31. Vestur snúid Gissur greidt Gat úr ferda vesi Setstur búid í er eitt Ad Ási Hegranesi.

32. Elur

[1]) Flaustur-skordur: almennt talast, ad reisa skordur vid einhverju; finnst og líka ad reisa skip-skordur sömu meiningar.

32. Elur kjæti nú á ný Næmis utan borgar, Felur stræti yndis í Allann hluta sorgar.

33. Efni spilli geirs ei gat Gengid slíkt til handa, Svefni, snilli máls, né mat, Mundi fyrir standa.

34. Reidir hneita safnad senn, Sér til heldur vara, Greidir sveita- mundu menn Matfaung ecki spara.

35. Skort'ei dægur gledi góð Gissur hitt þó munda [6]) Orkti frægur lítil ljóð, Sem lýdir mega grunda *).

36. Bídur hvedra, ofnis er Arni fram til Jóla, Blídur vedra, hvorgi hér, Húns var betri njóla [7]).

G 3 37. Styr-

[6]) Munda fyrir mundi.

*) Enn man eg bøl þar er brunnu
Baugahlín oc mínir
(Skadi kennir mjer minni
Minn) þrír synir inni,
Gladir munu göndlar rødla,
Gnýskerdendr verda.
Brjótr lifir sá vid sútir
Sverds, nema hefndir verdi.

[7]) Njóla húns; Bjarnar-nótt, vetur.

37. Styrjar-eysu gyldur-grèr, Greidt þá Jólin fardar, Byrjar reisu vargs um vec Vestur til Midfjardar.

38. Þetta rádi ei var í Annad mun-um sanna, Frètta nádi þó af því Þjódin brennu-manna.

39. Fátt um ugdu þá úr því, Þókti óhult vera, Sáttum brugdu, Eyja- í Inn sig-fjørdinn bera.

40. Gissur snèri aptur á Audarkúlu-stødum, Vissur beri feigi þá Þeim af ferdum hrødum.

41. Safnar monnum ærid ódt, Odda vanur flugi, Dafnar grønnum flockur fljótt, Fimm á sjotta tugi.

42. Þordur veidi sækja senn, Saka-dólgum benda, Nordur heidi allir enn Yxnadals þeir venda.

43. Ridnum vegi ótæpt á Øldin knáti blacka, Lidnum degi þvotta [8]) þá Þegnar komu ad Backa.

44. Jóni

[8]) Dagur þvotta, sama sem Laugardagur.

44. Jóni nóga sek með sann, Sviðr-
er [a]) átti' að gjalda, Ljóni skóga hafði
hann Um haustið gjört að valda.

45. Skjóta furðu merkja má, Mundu
runnar stála, Brjóta, hurðu fletjum frá,
Fundu Jón í skála.

46. Fengu óblauðum stála-staf, styrða
nætur-messu, Gengu dauðum ýtar af
Unda fyrir skéssu

47. Ljótur arfi hnígins hét, Háms fær
lykna notið, Skjótur starfi geirs, eg gét,
Sat sér undan skotið.

48. Reynar linna beðju brádt Búnir
unda-tóli, Einar finna nú um nátt Nið-
ur á Yxnahóli.

49. Skurðinn gengur eitthvað í,
Ymsir á dyrnar stockva, Hurðin, keing-
ur, geist við gný, Gjörð'í sundur hrockva.

50. Brestinn heyrði, grennast grið,
Gott var ecki að ráði, Frestinn eyrði
varla við, Vopninn Einar náði.

 51. Dreng-

[a]) Sviðrir er sama sem Gissur, því hvort-
tveggja er Oðins heiti.

51. Drengilega halur um hrið Hlífð-ist unda-vorguin, Engir mega senn um síð Sjá við dólgi morgum.

52. Tekinn menja- greipum -grét Garpar út svo leiða, Drekinn benja skar-ar-skér [10]) Skjótt nam af honum sneiða.

53. Sveitinn [11]) meðan geirs við goll Gaus úr andrúms hollum, Sveitin héð-an arkar oll Ofan að Möðruvøllum.

54. Snýr í remmu efnið enn Ollu gengi friðar, Prír í skemmu sváfu senn Sekir brennu-liðar.

55. Brutu' óvægir hurð og hlið Hold-ar upp á kofa, Brutu hagir, vakna við Versta draum, þeir sofa.

56. Hét Ofeigur, annar enn Andrés var að nafni, Lét óveigur sendir senn Seims, þá brytja hrafni.

57. Slepp-

10) Skarar-skjer; sker þýðir krúnu rakaða á höfði manns.

11) Sveitinn; hjer brúkast sama orðið tvis-var, til gamans; það fyrra merkir blóð, sem segir í Fafnismálum, þ: blóði dreif-ur; hið síðara merkir mannfylgð.

57. Sleppur ofu[12]) þridji þá Þorgils um ad sinni, Skreppur í stofu holdum hjá, Hvíldu víf þar inni.

58. Brøndum skékinn recka ramt Rökkur verjast kunni, Høndum tekinn senn var samt Og svipt úr badstofunni.

59. Vidur drifa hjørs vid hel Hvergi bregdur sinni, Vidur lifa virdta vel, Vífin øll þar inni.

60. Þadan horfdi leid sem lá, Lengur ecki tøfdu, Hradann bordi ytar á Inn í fjørdinn høfdu.

61. Haginn kunnu seggir senn Sjá med spekt og trygdum, Daginn sunnu allann enn Adu' í Kraka-bygdum[13]).

62. Mundu' í standi þegnar þá, Þess er vildi svannin, Fundu landi Eyrar á Eyólf njósnar-manninn.



[12]) Ofu er ad finna í Atlamálum, og sýnist sem eigi ad þýda ófrid eda ofbod eitthvørt.

[13]) Kraka-bygdum; sveit, kølluð Krakliuga-hlíð.

63. Þessi lýdum kynna kann, Kol-bein Grøn á vell, Sessi tídum hèldi hann Heima' í Gnúpufelli.

64. Vída þadan gríss um geim Giss-ur rennir augum; Rída bad hann holda heim Hrafnagils ad laugum.

65. Sennustadur hjørs[14]) ei hèr Hitt-ist, menn' þó leiti, Brennu-madur einn þó er Asmundur ad heiti.

66 Sátu grundir hors víd' hver, Hèldu' á starfi þvotta, Sátu undir sjálfum sèr Sekann salid hrotta.

67. Lídid tasdi nú ei neitt, Nærsta bar þvi fljótt um, Rídid hafdi Gissur greidt Gota svartblesóttum,

68. Bundna sèr ad leistum lèt Lodna kálfskinns skúna[15]). (Fundna hèr ei gloggt eg gèt Gèsti slíka núna)

69. Þann'

[14]) Senna hjørs; vopna senna í Svoldar-orustu þætti, merkir stríd; hjer fannst enginn til ad bera vopn á, þvi brennu-madurinn var falinn.

[15]) Skúna, þad er: skó, sjá Hávamál: skúa ne brókа skammiz engi madr.

69. Þannig rída vaskur vann Vasinn kápu blárri, Manninn prýda þóktu þann Prúdug tigin[16]) skárri.

70. Hefnd í bóli trega tráð Til þess efndin skedur, Stefndi hóli Espis að Allann flockinn medur.

71. Gledi bœnum ýtar á Ymsir halda gjördu, Redi grœnum þekjum þá Þórd-ur á nefndri jördu.

72. Kominn þángað sama sinn Sagt er Kolbeinn taldi, Vominn lángad hafdi hinn, Hét sá Brennu-Valdi.

73. Gáng á móti brádt sig býr Bónd-inn klókur heima, Spánga-njóti heilsar hýr, Hans sér black ad teyma.

74. Leiddi sudur tómt um rún, Tala létst sem hefdi, Beiddi rudur hjörs: ad hún Höfa sinn ei tefdi.



[16]) Prúdug tigi; Þór kallast: hinn prúd-gi ás, til hans er rett ad kenna allskyns hertigi.

75. Øllum stíg'af baki baud, Brønd-um ad þeir gánga[17]), Trøllum víga um-gjord aud Ofan fêck ad hánga[18]).

76. Hlynir fóru tjørgu-teins Tlu bæ ad kanna, Hinir vóru úti eins Allir vest-an-manna.

77. Hafdi flockinn Kolbeinn kénnt, Raudinn sig nú faldi, Vafdi rockinn qvid um klént, Kreistist undir tjaldi.

78. Ædi ríta-qvistir kjænt, Fanna rann af ebli, Klædi líta gjordu grænt, Sægdist undan refli.

79. Þannig veiddu klækja-kút, Kata-sunnu[19]) lundar, Manninn leiddu arma út, En hann Prests bad fundar.

80. Dreng-

[17]) Gánga ad brøndum; ad gánga ad dyr-um, sjá Hávamál; mjóc er sá brádr, er at brøndum skal.

[18]) Þeir brugdu sverdum, og þá hjengu um-gjordirnar audar.

[19]) Kati er skip; þess sunna er skioldur, því skipin vóru prýdd med skioldum, og þess vegna kjennast menn þar vid.

80. Drengir hvessa góma-glaum, Sét eg mál svo lykti, Engvir þessa gáfu gaum, Gissur lausa ryckti.

81. Branda-reynir til svo tjer, Tömla[20]) þókti' ad unnid: Handaseinir því svo þér Þrautar vera kunnid.

82. Veljar nadur geir-þings grár, Grandar heila-fróni, Heljar madur sókti sár Sitt hjá Presti Jóni[21]).

83. Vellur tregi sárs um sinn, Sót-ugt streymdi nidur, Fellur eigi heldur hinn Hoggid fyrsta vidur.

84. Svipti grønnum dørs vid døgg Drjúgum fram og aptur, Kippti mønn-um hætt und høgg Hrottinn orku-kaptur.

S 7 85. Marg-

[20]) Tømla; þetta er skammstafad edur af-dregid, svo sem: varla af varlega, hardla, traudla. Svo qvad Røgnvaldur Jarl: Tþni ec traudla rúnum tømla. Merkir annars linlegá, latlega.

[21]) Presti Jóni; svo er Jón sá nefndur í søgunni, mun þó verid hafa gamans nafn, því líkast er hann hafi ecki vígdur verid, og ecki heldur prestlegur í hegdun sinni.

85. Margur rennu borar blóðs beins á Kola ſtrocki, Vargur brennu ſtálin ſtóðſt Stiſur í miðjum ſlocki.

86. Málma-vondinn aptur enn Að honum Jón þá reiddi, Hjálma-løndin ſærði ſenn, Svortum dreira ſreyddi.

87. Grípur ſtála-feigðar far Frey þar næſta viður, Krýpur ſkála-við ſem var Vegginn bleikur niður.

88. Hropta meður brýna-borg Bürtu frá eg ſniði; Optar veður traudt um torg Til að ſpilla friði.

89. Finna gáðu Þorvald þá Þegnar úti túni, Vinna náðu einnig á Örgum brennu-rúni.

90. Heppnir fóru vel með ve[22]) Veſt-urferðin gleður, Drepnir vóru ſeggir ſje, Sem að Giſſur qveður: *)

91. Róðr-

[22]) Ve merkir frið eða grið; það er: þeir hafi farið friðlega veſtur aptur.

*) Borg ljet brennu-varga,
Benſtoſnandi kloſna,
Sónar, ſex og einum,
Só

91. Ródrar-karfa fer eg frá Feginn regins greidur, Fródrar starfa er eg á Eginn megins leidur.



## XIII. Ríma.

Gissur fer utan fjórda sinni og fær Jarls nafn.

Þegnar laung, en lítil faung Ljóda til ad efna saung, Jolnis øl um orma qvøl Eg þó vildi sækja spøl.

2. Laung er sídan lidin tíd Lagd'eg frá mjer ódar-smíd, Sónar-tár í átta ár Aldrei komst eg vid í rjár.

3. Rímur tólf um heyrnar-hólf Hafd'eg sendt af rædu kólf, Nú var rett til sídu sett, Sem eg fyr nam vinna ljett.

4. Søg-

Sá eg deili þess, heila
Bergstjóra gledur báru,
Blikstrídandi sídan,
Hregg, en hafna' eg muggum,
Heldur sjest Kolbeinn feldur.

4. Søgunnar ſkrá mjer ſend'eg frá Soſnis-bana tvo og þrjá, Góðir menn því gyrntuſt enn Gømul heyra tíðinden.

5. Eddu fann eg allſjaldan, J henni nærſta lítið kann, Yggjar heimt því er nú - gleymt, Aldrei heſir mig til hennar dreymt.

6. Annað margt, og meira þarft, Mikinn átt'eg ſtunda part, Semja løg, og málin mjøg, Minnumſt ecki' á ſtóla-jøg [*]).

7. Nú er eg frí frá fleſtu því, Fljúga tekur hugann í, Biſkurs-tíð að bæta við, Og brúka til þeſs ſkammdegið.

8. Látið øld hin laungu qvøld Leika' í eyrum hauars-gjøld, Rit eru fróð af fornri þjóð, Fyr ſem bygði marþaks lóð.

9. Megum ſjá hvørt ſumir þá, Sveinar vóru landi á, Betri enn nú í trygð og trú; At tvennu leikur meining ſú.

10. Hen-

[*]) Stóla-jøg; þetta var á þeim árum, er Kom-miſſiónir vóru haldnar um Biſkupsſtólana, og eg hafði margt fleira með Hóla-ſtól að ſýſla. Semja løg, var það laga-verk, er eg var ſettur til að yfirleſa og lagfæra, og ſkyldu vera fyrir Jsland.

10. Henrik til eg taka vil, Sem tíðum reði [2]) um þetta bil, Aður var, í orði þar, Alda vinur Gissurar.

11. Vætt hann senn við brennu-menn Biskupslega vinskapenn, En hrjáði þann, sem hefna vann Harma fyrir og mannskaðann.

12. Sagan betur sýnt það getur, Sanna mun hans æfundar letur, Eg kem nú til, Við hnífars-hyl, Að henni gjøra nockur skil.

---

13. **Gissur** þar, sem vestur var Að vegi sinnar heimferðar, Settist að í sama stað, Sem eg yður fyrri qvað.

14. Greina skal, á gjarða-val Gøfugur reisti í **Lángadal**, **Gunnar** fann einn gøfugann mann, Að **Geitiøskarði** byggir hann.

15. Dóttur hans þess dánumanns Dyggva, biður nú til sanns, **Ingibjørgu**, ullur tjørgu, Sem afbragð qvenna var í mørgu.

16. Fór hún heim og fylgði þeim Full-vel samdist allt með þeim, Hjá sér lagði

[2]) Tíðum rjeði; það er: hann var Biskup og rjeði helgum tíðum.

lagd'i bed ad bragdi, Brikin gulls ei eptir sagdi.

17. Biskup þá nam fregnad fá, Ad suna-monnum [3]) hefnt var á, A Gissur senn og gengis-menn, Gjorir leggja stór-mælen.

18. Banna vann í vígdum rann Vera skyldu þeir né hann, Yfir þeim hríngja ei né syngja, Alla kallar griðníðínga.

19. Heldur sátt, eg greini', og grátt Gjordist milli þeirra brátt, Biskupenn vid brennu-menn Bísna þókti vinsengenn.

20. Fram þá leid á nadda-neyd Nú um Lángafostu skeid, Þorvalds bor, á beitsla knor, Byrja nádi sudur-for.

21. Flestir menn og fóru senn, Fylgt sem hefd'um vetur enn, Sydra þar í sýknum vár, Sat í Nest Kaldadar.

22. Eystra hér var orva-grér, Oddur sá sem nefndur er Þórarns bor, á afrek or Ungur til hans gjordi for.

23. Þeir bundu lag med besta plag, Bádum skyldi gánga' í hag, Gissur létst, þá

[3]) Suna-mønnum, sama og brennu-mønnum.

þá sumarið síest Sigling hafa' í þánka sest.

24 Illa kann eg, innir hann, Á mér Biskups hafa bann, Ef Hákon finn eg, Herra minn, Hef'eg sæmd í málslokin.

25. Odd nú bað hann eptir það, Umboð taka sinn í stað Innanlands, en ullur brands Undan beiðni taldist hans.

26. Burdugir menn nú báðir senn Bjuggust ríða norður enn, Til fjarðar Skaga lundar laga, Lið að nýju saman draga.

27. Hundrud þrjú' þeir hösðu nú, Til Hörgárdals var serðin sú, Eyólfur var ecki kjur, Er hann þeirra safnað spur.

28. Bósinn senn og brennu-menn, Brims á vollinn drö sig enn, Ohultar svo yrði þar Eggsi fyrir Gissurar.

29. Þorvarður hét Þórarns bur, Þessi Odds var kynstafur, Hlýra fann og freista vann, Fund til sátta legði hann.

30. Greint eg sæ, við Glæsibæ Garpar áttu fund hjá sæ, Fleyjum á vöru fólar þá, Fýstust eck'i land að gá.

31. Gjört

31. Gjørt var brádt ad ſhſla' um ſátt, Semjaſt vildi hardla ſmátt, Sullu brjóſt af ſárum þjóſt, J ſundurÿrdi' og heitíng ſlóſt.

32. Fleina-týr af ſundi ſnýr, Fjendum ſók á hendur býr, Þorvalds heſnir, Þrjótum ſteſnir, Þíngs til búa heiman neſnir[4]).

33. Sudur um heidi ſídan reid, Svo fram allt ad þíngi leid, Hittuſt þar, ſem von til var, Valda-menn og höfdíngjar.

34. Dóms ad beck þá Giſſur géck, Gÿida ſæmd af málum féck, Brennu-menn þar ſextán ſenn Sekir urdu' í þíngloken.

35. Otal hann, ſem vam̃ir vann, Vard nú ſekur ſkógarmann Oſſi dæmdur, illa ræmdur, Einnig burt úr ſøgunni ſlæmdur.

36. Aldrei þeir um æſi meir Oſſi' og Giſſur hittuſt tveir, Vann þó margt og mjøg óþarſt Mannſpillíngar verkid hvart.



4) Ad neſna búa heiman, finnſt vída í gømlum løgum, og þýdir: ad ſteſna bændum til þíngs.

37. Ut svo leid hans æfi-skeid, Afar-legann hreppti deyd, A Þverár-eyrum grafinn geirum, Gaurinn svalt med odd-um fleirum[5]).

38. Svasudar á syni þar, Sem ad fyrri getid var, Offi og Rafn med yta safn Asmá vildi Gissurs nafn[6]).

39. Sjo þeir tugi heiptar hugi Höfdu manns ad járna-flugi, Heldu' af leid og hjá Skjaldbreid Hópurinn til Middals reid.

40. Nú þadan einn' njósnar-mann Rádu' ad senda framvígdann, Fljótt kom aptur fleina-raptur, Furdu vel til erinda skaptur.

41. Greidt hann bar, ad Gissur var Gordum hvorgi nærri þar, Als um heid hann byrjar beid Búinn til ad gáng'á skeid.

42. Hætta

[5]) Eyólfur Offi fjell árinu eptir (í hefnd eptir Odd Þórarinsson, er hann ljet drepa í Geldíngaholti) í bardaga á Þverár-eyr-um í Eyjafirdi.

[6]) Rafn þýdir hjer líf edur æfi, því þeir ætludu ad fara ad Gissuri og drepa hann, ádur hann kæmist á skip.

42. Hætta þá með fólk svo sá, Fram að ríða héroðin á, Syndist heim, og hvorsnir heim, J hondum sneypur báru tveim.

43. En lucku-mann sem leysast vann Lífs við búinn háska þann, Sømu nótt með sinni drótt, Svaf í Lángaholti rótt.

44. Eptir það, hann búast bað Og búsfu-lagi stefnir að; Oddur fór með orva-kór Alla leið að sildar-kór.

45. Þeir skyldu þar, sem skaplegt var, Skárstu quedjum vinsemdar, Umboð hans tók ullur brands, og yfirrædi Nordanlands.

46. Létu' í haf, þá leiði gaf, Lauka-dyri hofnum af; Ægis-lið, að sinum sið, Súðir tók að hyglast við.

47. Fornjóts annar arfi bannar, Uppi-veðslu og læti hrannar, Svifaði glygg af Heklu-hrygg [7]) Heriólfs gota fylti vigg.[8])

48. Nærst

7) Heklu-hrygg; hier nefnist Hekla, nafn-kunnugt fjall, fyrir eitthvort annað fjall óvíst; vindur plagar að standa af fjøllum.

8) Vigg merkir hier segl; vigg eda veggur ega sømu kjenningu og segl, sem sjest í

48. Næst' óvallt um nordur-fallt Njóti hringa byrjar allt, Vid Hørdalands þeir hittu land, Hnackmids-steini greyptu sand.

49. Tignar mann í Tyggja-rann Túnsberg þadan sigla vann, Hákon þar nú Hilmir var Og hoffkarinn til iafnadar.

50. Kjættust bragnar, Kóngur fagnar Kappanum, sem allvel hagnar, Sudur um hlé á siglu-tré senn kom Þórdur Kakale.

51. Hann settist ad í sama stad, Sjóla var ei margt um þad, Innann skamms kom upsa-hvamms Elda-týr á fundinn Grams.

52. Þess eg bid, tjer Þengil vid: (Þetta var nú erindid) Gissuri Þér úr Gardi hér Gjorid rýma burt frá mér.

53. Ugg=

Gjetspeki Heidreks Kóngs: sat ec á segli, þar er rádníngin þanníg: satstú á vegg. Svo finnst og í Sigurdar qvidu Fofn-isb.: segl vigg eru sveita stockinn.

53. Uggvænt því að einum bý Ef við lengi sitjum í Bádir saman, gráni gaman, Gjört er svo í veg að framan.

54. Sikíng tjer við seima-grér: Sýnist nockur von á þér, Að frænda minn fyrir málstað þinn Mun'eg reka burt um sinn.

55. Eða hvað: í annann stað, Ecki muntú vilja það; Síðar þá og honum hjá Í himnaríki vera fá?

56. Andsvar verra ei nam þverra: Að þeim kosti gjarnan, Herra! Mikið bil (eg vera vil) Væri millum ockar til*).

57. Fylkir samt það sinnur skamt, Friðstillandi lyndið gramt, Sýslur tvær þeim síðan fær Sína hvorjum, nockuð fjær.

58. Þeir fylgðu Gram í hildar-ham, Hallands til þá reisa nam; Saga' er gjör af sömu för, Þó sónar berist eck'í vor.

59. Rakali sá kappsami Kóngs-vald hafð'í Skídinni, Frægur þar og vinsæll var, Víður skapta darraðar.



*) Vera gjarnan, Herra! oc væri þá lángt í milli ockar. Sjá Sturl. 405. Kap.

60. Islands af arfa-krans Allfár þókti makinn hans; Aptan síð um eina tíð Ödlíngs fèck hann let in blíð.

61. Ordlof þar til útferdar Islands honum gèfið var, Og ædstu ráð um Ísaláð, Ödlíngs honum dæmdi náð.

62. Vitur qvad: sér varla h ad I vil hafa gengið líkt sem það, Hjors ...dst raptur hreysti skaptur Hèðan fara skyld'ei aptur.

63. Drack nú gladur Mildíngs mad-ur, Mjodurinn rann óskamtadur Og vinir hans í veiga-krans, Vard svo loks á teiti stans.

64. Qvilla fann, og qvarta vann, Komst í reckju frægdar-mann, Þeigi laung, en stríð og straung, Sáls ad meidi sóttin þraung.

65. Hann skildi við med fremd og frið, Fagurt hreppti andlátið, I Norveg þar svo beinin bar, Hvar best af öllum látinn var.

66. Nú má kalda, ódreirs-alda Aldra leið til Gissurs halda; Hilmi kjær, og

honum nær Hetjan var um stundir þar.

67. Í miklu gengi mjøg var lengi, Metnad stærri nú þó fengi Sumri á, sem sagt er frá, Sjóli gaf honum Jarls-nafn þá.

68. Þad geck svo til, sem greina vil, Ad gumar viti þar á skil: Grams í höll, vid horna-göll, Hyrd er saman blásin öll.

69. Í háa-sæti Signa-gjætir [10]) Setur umverdad linna-stræti, Járna-bör, sem Jarl skal gjör, Jøfurs byggir føta-skør.

70 Stallari Grams í hoskum hams, Hreifir máli innan skams, Og talar hvad, sem Hilmir bad Og hlýdir uppá erindi þad.

71. Stillir þá af stólnum há Stendur upp og leggur á Jarls-nafnid þann veiga-vid, og vandar þannig ordfærid:

72. „Nafn-

[10]) Signa-gjætir; Signir kølluduft þeir, er bjuggu í Sogni, sem er fylki eitt í Norvegi; en Signa-gjætir er Køngur þeirra, og er þad alltídt ad kenna Køng vid einn part ríkis síns, svo sem: Dana-Køng, Jóta-

72. "Nafnid þad" (svo Nisliúng qvad): "Nú sem eg gèf Þèr í stad, „Guds fyrir nád og Ríkis-rád, Sem "réttum Kóngi mèr er jád.

„ 73. "Af gódvild Þèr nú gèfid er, „Gud því fylgja láti hèr, Til dýrdar „mest, hans miskun flest, Og mèr til "vegs, hvad gegnir best!

„ 74. "Samt til frægdar, sælu-nægd- „ar Sjálfum Þèr og fólksins þægdar, „Fridsemdar og farsældar, Ad forsjá "Guds Þèr skipad var,"

75. Sína mund á samri stund Sjóli gèfur Þorvalds kund. Vinstri hlid í hásætid, Hilmir Jarlinn setur vid.

76. Fránañ brand í Hersis hand Herr-ann gaf, sem átti land, Merki og horn, sèr menja-þorn, Sem Mildinga var sid-ur forn.

77. Skála-mar nú skeinktur var, Skata fyrir í sæti þar, A kèrum hreinum gulls vèr sreinum Grams af prúdu skutul-sveinum.



Jóta-Gram, og Norvegs-Kóng, Þengil Prænda.

78. Fleiri þág hann Fylki hjá Fagrar gjafir og sæmdir há, Heiti bundinn helst því mundi, Hilmir leggja frónid undir.

79. Skorta vann nú verdúng þann Vetur einn á fimtugann, Er Grams var spjalli[11]) gjør ad Jarli Gøfugur á Ísa-hjalli.

80. Eckils jó svo brádt hann bjó, Og byrgdir farar samandró, Ödling qvedur, inndrótt[12]) medur, Á øldu-skídi fyrr enn tredur.

81. Þeir léttu streng, en gatan geing Greiddist fram á ránar eing, Bjørgvínar frá bryggju þar, Brunadi marinn kyr-mundar.

82. Sveif þar mjúk á siglu-dúk, Svølu kylja af jøtuns búk, Um lángann fjørd, og lands á, gjørd laungum tók í mastur-svørd[13]).

83. Bar

[11]) Spjalli er vinur edur kunníngi, sem vanur er ad spjalla vid annann. (Sjá Eddu).

[12]) Inndrótt; þeir sem sitja inni hjá Kóngi, svo sem høfdíngjar eda vildar-menn.

[13]) Mastur-svørd; skips-reidi gjør af svard-reipum.

83. Var þó af, um bláa haf Beinni leid, Sem raun ágaf, Sœfar med ad Sudur-ey Svisa lætur Jarlsins sley.

84. Lángt á sumar láu gumar Logn-fastir í eydi Þrumar[14]); Saga kénnir önnur enn, Af þar dvaldist veturenn.

85. En vér vitum rétt, og ritum, Ræsir kom af Dorga-firjum, Og axladi flaust[15]) vid Eyra-naust á Íslandi sama haust.

86. Búid sverd, med bestu gérd Budlúngs vin (eg herma verd) Í einum hlaut; sem egg ei þraut, Eyfara-Þad kallar naut[16]).



[14]) Þruma er eyjar-heiti.

[15]) Axladi flaust; ad axla, er ad bera undir axlirnar, svo sem þá sett er skip, heitir og ad baka skip, þegar á er gengid med bakinn; því meinast hjer: ad hann hafi lendt og sett upp skip sitt á Eyrarbacka sama haust.

[16]) Sverdid var kallad Eyfar-nautur.

87. Vistir hans og ferda-fans Frá-bær lögur byrlarans, Af eiki hlés, á sílum fles [17]) Flutt var í Kaldadarnes.

88. Oddvitinn þar átti kynn [18]) Ad-ur fyr og bústadinn, Ad nú ferst á bólid best, Burdugur hafdi margann gest.

89. Brestur eitt, ad vel sé reitt, Veiga-Ford í rúmid heitt, Ödling mildi af því vildi Ingibjörgu sækja skyldi.

90. Kættist hún, um kjalars-brún Kapp-ar færdu menja rún Heim til Jarls, en jötnaspjalls-Jordin kunni sig til alls.

91. Sídar þessu', í sinni hressu, Senn á aura helgra messu, Fimtin þrenn, ad tölu tvenn [19]) Tivg gjördist handgengen-

92. Var

[17]) Síla fles; flesjar kallast forvadar vid sjó, í Droplaugarsona sögu. Jörd eda land er rett ad kalla sjóar heitum, og kenna svo til land-dýra; svo er þá meiníngin: ad hann ljet flytja af skipinn landveg.

[18]) Kynni; kunnugur stadur, eins og heim-kynni og kynnis-vist, þar sem einn gistir vegna kunníngsskapar.

[19]) Fimtin þrenn, ad tölu tvenn, eru tvenn-ir fimtán.

92. Var nú kátt, og druckid dátt, Dynma hér um fetvígs nátt, Hornin tœmd, en rausnin rœmd Og ríkum Herra goldin sœmd.

93. Lángt eg var frá þjódlod þar, Vid þorsta féck eg ecki par, Þeſs nú géldur gruninn hreldur, Gunnlød mér ei ſkenkir heldur.

94. Fjalars lút af kjalars kút, Kúgud, prúgud, pínd er út, Stefna ſkal í ſvefna-ſal, Vid ſætu nætur-ega-tal.



## XIV. Ríma.

Jarl ſetſt á Reinineſsſtad; Kóngi ſvarid land.

Vænt er ad liggja vel og hyggja vídt um heima, Eda fryggjar flæda geyma, Fadmlags byggja [*]) láta ſtreyma.

H 4 2. Svo

[*]) Fadm byggja Fryggjar; Odins-heiti í Eddu.

2. Svo má hrynda hirjar vinda hvirfil-bylium [2]) Lægis hinda liggi' á þiljum, Lóins kinda [3]) vjer nú skiljum.

3. Pad hefir Sissur gjørt med vissu, gløggt má finna, Eptir missu sona sinna, Og sjón af nissu [4]) torgar-linna.

4. Ecki kann eg eins og hann ad efna qvædi, Annann mann eg um þad bædi, Einhvørn þann ef hitta nædi.

5. Hildingar og hofdingjar því hjeldu fordum, Hofmanns-par í hródrar ordum, Sem hafid var ad Kónga-bordum.

6. Løgmenn varir kista-snarir ljeku' hid sama, Fornaldar á tídum tama Tigur [5]) knara sókti frama.

7. Møg-

2) Hvirfil-bylium; óróleikum hugarins.

3) Lóins-kinda; dverga nidja, þeirra þiljur dverga-skip eda skáldskapur.

4) Nisa er nætur-heiti; en nótt í Eddu er tekin fyrir norn eda gydju, og má því konu kjenna med hennar nafni, eins og Ásinja- og Valkyrja-heitum.

5) Tigur, dvergur; hans knerir, qvedíngar-

7. Mögur Skeggja, mækis hreggja, Markús bætti, Svoldrar tveggja suml [6]) í þætti, Svo tilleggja Skapta [7]) mætti.

8. Fródur Snorri fremstur á vorri fóstru iaka, Herjans orri [8]) hans mun vaka Og hródrar þorri aldrei slaka.

9. Sturlúnganna mestann manna' í menta safni, Þórdar kann eg nid ad nafni Nærst vid hann [9]) og meir enn jafni.

10. Olaf [10]) nýta, ei má slíta' úr ordu sveina, Skáldid hvíta mun eg meina, Medal hta løg nam greina.



[6]) Tveggi er Odins-heiti; hans suml qvedlíngar. Markús Skeggjason Løgsøgumadur, qvad um Svoldar-orustu, sem sjest i Olafs søgu.

[7]) Skapti Løgsøgumadur var gott skáld, þó fátt liggi eptir hann.

[8]) Orri er fugl, herjans fugl, hugurinn. Snorri Sturluson var Løgsøgumadur, og er nefndur í 6tu Rímu.

[9]) Sturla Þórdarson Løgmadur, er opt nefndur hjer í Rímum.

[10]) Olafur Hvíta-skáld Løgmadur, sie hann Author Skáldu, er sumir vilja segja, þá

11. Vænt'eg fleiri', og margir meiri' af mønnum laga, Ovaks um eyri kunnu draga Ovásis dreyra' í fyrri daga.

12. Var eg úngur upprennúngur, enn þó týnt, Þá ædar sprúngu áss af vini, Uppi Túngu Vídalíni [11]).

13. Laga-bestur -mann og mestur mun hann heita, Og af lestri rúna reita, Rokſemd flestri kunni' ad beita.

14. Oma vidur víns [12]) í qvidur vel ef gætti, Koma midur Olafs ætti Eggert, vidur fyrr enn hætti.

15. Skil eg valla skáld ad kalla' um skarir ísa, Iþrótt snjalla eins muni lýsa, Og ódreirs salla slíkann prísa.

16. Van-

hefir hann verid furdanlega lærdur á þeim tímum.

[11]) Páll Vídalín: nafnfrægur enn á vorum døgum.

[12]) Oma-víns-vidur; Eggert Olafsson Vice-Løgmadur, ypparlegt skáld, sem Fridriks Drápa sýnir, og margt fleira; hann druknadi á Breidafirdi þann 31ta Maí 1768.

16. Vansalaust lnjer litst. Því traust ad Lagamanna Dæmi, flaustur dáins kanna, Og drecka' í klaustri hvítbjárganna.

17. Oved eg um Þann h'nn mesta mann á marþaks-landi, Heinþynátann á hjálma-sandi, Herbérann ljet ríd'ad grandi.

18. Oved eg um Þann enn mesta mann á mínu landi, Ofstopann sem af hjer vandi, Almúgann svo fyrrti grandi.

19. Því skal hætt'á suttúngs sætta sendíng' eina, Og af Þætti Gissurs greina, Ef gledja mætti víf og sveina.

20. Pad var sagt, hann sat med prakt og sældar vesi, Med kappa makt í Kaldadarnesi, Kalla' eg spakt að hamíngj'an blési.

21. Eptir svolu drauma-dvøl Þá dagnar blída, Nordur Kjøl nam Ræsir rída Og recka vel Þann selskap prýda.

22. Fromundur laga um fylki Skaga og fjørdinn Eyja, Nam óraga reisu teygja Rétt án baga, kann eg segja.

23. Virdíng mestu' og veitslur bestu Vísir tjedi Oldin flest, og orma-bedi Odla géstinn sæma redi.

24. Heimbod inni sama sinn med sæmd og trausti, Hafdi svinnur ols med austri, Abótinn á Þverár-klaustri.

25. Redst nú' Þad hann Rein'ness-stad med rísnu keypti, Og hundrada hundrad steypti Hins í blad [13]), er verd-id gleypti.

26. Sídan bú Þar setur nú á sama vori, Velur hjú ad vormu spori, Vænt' eg frú [14]) hann sækja Þori.

27. Arsi

[13]) Blad; Þýdir kápu-laf, sem eins kallast blad; Þegar menn í fornøld høfdu Þá sídu drag-kyrtla, segir: ad Þeir hafi drepid blodunum í fyri undir belltid; svo gjørdi Þormódur Kolbrúnar-skáld, í Stikla-stada bardaga; eins Sturla Sighvats-son, Þá barist var í Grímsey; svo var einnig sidur ad hella gjaldi eda sylfri í kápu-laf Þess er vid skyldi taka; Þad hjet og ad hella í skaut, og Þá var, sem skautid gleypti gjaldid.

[14]) Frú; Ingibjørg fridla edur búslýra Jarls.

27. Arfi fridur áfram lídur, almenn-ingi, Svafuds, knýdi þá ad þingi, Þáng-ad ridur lands-foringi.

28. Andrésar einn arfi þar á ýta fundi, Þórdur var í gneggja grundu Til Giss-urar med kaldri lundu.

29. Sturlu hér og Sighvat sier á sókna hjalli[15]), Herma ber í hródrar-spjalli, Handgengner þeir gjördust Jarli.

30. Þíngi lýkur þadan víkur þjód og hradar, Hræriſt krikur trolla-tradar[16]), Tiggi rýkur heim til Stadar.

31. Svo er virdt um sumarid kyrt ad sæti mengi, En ef byrtist annad fengi Efni myrkt, og bid'ei lengi.

32. Jeg þess gét: ad Jórun hét ein jordin tvinna, Haffsteins-hét á stödum stinna Stadar fleti nærri vinna.

H 7 33. Syn-

[15]) Sókna-hjalli; þad er þíngstadurinn, sókn er bædi vopna- og mála-sókn, og má Al-þíng. kennast vid hvörttveggja.

[16]) Trada-tröll; hestur, sem skeidar trodina.

33. Synir tveir til sögunnar meir hjá svanna leiti, Kálfur þeir eg hermi' ad heiti, Hinn Þorgeir eg nefna skeyti.

34. Náskyld vóru nidur og Jórun nýtum Stilli, En þó stórum ást og hylli Ecki fóru þeirr'á milli.

35. Sendi Þórdur sama nordur senn á hausti, Bréfs med ord í besta trausti, Og bruggad mord í þánka nausti.

36. Fleygist hradur, hvörgi stadur, hitnar fákur, Til Hasteinsstada kémur Krákur, Kámlundadur sendi-strákur.

37. Illsku-manns til arfa Brands var erindi þetta: Hofud lands [17]) vill lífi fletta, Og láta' ei stans á rádi pretta.

38. Hann qvadst rída hóp med lýd'af heimasalnum, megi þeir rída móti halnum Og Mæli- bída -fells- í -dalnum.

39. Munum þá allir manndóms-snjallir mest af kappi, Far'ad Jarli fljótt med happi, Og sálka-stallinn svipta knappi.

40. Skemm þad veldur, skuli' hann ei seldur í skjóma-starfi, Fodur- held- ur

[17]) Höfud lands, sama og höfdingi.

ur yckar sarfi, Og eckért géldur Jarl óþarfi.

41. Upptak ljótt ad þegnum þókti þetta' og módur, Hún bad þá skjótt, sem Gramur[18]) gódur, Ad gánga fljótt í þann óhródur.

42. Og vélrád engi vísann Þengil vid ad hafa, Hér um leng'í leyni skrafa, Lofudu drengir því án vafa.

43. Eptir stundu Fylkir fundu frómir brædur, Kálfur mundi koma' í rædur Ad kápulund'er einhvorr skjædur.

44. Bidur varann vera Hara' um velferd sína, Véla-snaran vill ei dvína; Veit eg þar um fleir'ad tyna.

45. Mun þó egi ydur segja allt hvad kynni; Geirs vid frey ad Gramur innir: Eg gét þú megir ecki' ad sinni.

46. Gruns er mér ad hlut í hér mun hafa' enn sami, En ad þér lítst enginn frami Opinbera' í mála glami.

47. Frændi!

[18]) Gramur og önnur Kónga-heiti, eru gódar qvennkjenníngar í Eddu, þó eg sjái ecki hin nýrri skáld brúki svo.

47. Frændi! gættu, mér ef mætti morð'
vígs kraptur, Hvorsu bættist skaðinn
skaptur, Og skarðið ættar fyllist aptur.

48. Síðan Jarlinn sendi snjall að
sækja fóla, Norður fjall sem réð að róla,
Með ritað spjall til Hafsteins bóla.

49. Vera vann á Þrjótinn Þann og
Þessa krafði: Hvað flugumann [19]) í ferð'
um hafði? Falsið hann í svörum vafði.

50. Var Þá engður á stiga strengður
stifinn hákur, Síðan flengður kauðinn
Krakur, Keyrum deingður eins og fákur.

51. Kváðu menn: að mundi senn
hafa mikið fengið, Vissi' hann enn og
viðurgengið. Vélræðen, ei pislir fengið.

52. Mælti Jarlinn: mig Þótt allir
meinið ljúga, hefir karlinn hrekki drjúga
Og heiptar-galla með að fljúga.

53. Þó má slinni samt að sinni sæmd'
um rúinn, Frá hendi minni héðan snúinn
Halda'á sinni reisu búinn.

54 Rekka

[19]) Flugumaður finnst í løgbók vorri, og
víða í søgunni, sá sem sendur er til morðs
eða svika.

54. Recka-fans um reiding hans þá rupla nádi, Alla stansar í því rádi, Eck-ert fannst hvad Jarlinn tjádi.

55. Eptir þetta, piltur prett'á pútu sinni Med hnísi spretti' úr hlidfjolinni, Hulid setta speld þar inni.

56. Bréfid var nú borgid þar, hann bidur hyta: Fáid Hara frædid nyta, Ef forvitnar á þad ad líta.

57. Jarlinn tjér: þad vissum vér med vondt hann færi, Strax sem mér í sjón-ar særi Syrpu-ver ad þenna bæri.

58. Þess eg gét hann lausann lét af af lengri qvilda Þann, er letrid færdi frída, Um flagda-setur [20]) heim nam rída.

59. Omak-dafnar, Ödl'ng safnar ad sér lidi, Gils- úr Hrafna-sóknar-svidi [21]) Samt og drafnar Skaga midi [22]).

60. Fimm þá hundrud fjelnis tundrud fagur-eyma, Uppi mundu Grams ad seyma, Gladir í lindu og sudur streyma.

61. Sem

[20]) Flagda-setur; fjöll.

[21]) Hrafnagils-sóknar-svid er Eyjafjördur.

[22]) Drafnar-skaga; þ: Skagafjördur.

61. Sem nú brádt í suður-átt að segg-
ir mættust, Hópum þrátt ey hygg við-
bættust, Og hundruð átta vera þæktust.

62. Nam svo traustur árnar austur
yfir ríða, Þórður brautst í þúngum qvíða
Og þordi laust í fleti bíða.

63. Geitin raga héldt úr haga hræð
við seggi, Og Þórs- í maga- -merkur
-skeggi[23]), Mælir sagan, að sig leggi.

64 Rændu' á öllum Rángárvöllum
randa-þórar, Blóðs með föllum þúsund
þjóra[24]), (Það vèr köllum soðníng stóra).

65. Fór' um síðir frómir lýðir fyr' á
milli, Sennu-kíld að setja' í stilli, Settu
tíðir[25]), grið og hylli.

66. Utan tála ullur stála eptir þetta,
Þíngs til skála reisu rètta, Riðu mála-
þras að slètta.

67. Bestu

[23]) Þórsmörk; landpláts fyrir sudaustann, í Rángár-þíngi, innar af Fljótshlíð, hvar Þórður faldist í skóginum.

[24]) Þjór; naut edur uxi.

[25]) Tíðir; áqvarðaður dagur.

67. Bestu vildar-bændur gyldir, brádt sig kéra, Fyrir Hildings fjorrád, gera, Frestur skyldi samt á vera.

68. En til vara og endursvara, átti'á medan Þá med Hara þels um fredañ[26]) Þórdur fara nordur hédan.

69. Undandróst þad af og slóst, hann eptir situr, Hédan ljóst nú herinn flytur, Hilmir bjóst til ferda vitur.

70. Fólk med Greifa[27]) Kjøls, um kleyfar kennir anna, Sídan dreifir sorfsum granna[28]), Sinna leyfir heim til rañа.

71. Vetrar ad, sem vant er þad á vagna-midi, Sjóli á Stad í sæmd og fridi Sat nú gladur med hans lidi.

72. Þegar linna - þrautir linna[29]) þróast blída, Oddvitinn og øldin frída Annad sinn til þings nam rída.

73 Lét

[26]) Þels um fredann; veturinn.

[27]) Greifi; sama og Jarl.

[28]) Sørvar; hópar, eda mikill mannfjøldi.

[29]) Linna, tvisvar í sømu vísu, sitt í hvørri meiningu. Ordid linna, er ad hætta, láta

73. Lét Ödlíngur enn af þingi austur halda, Redi slíngur Reynir valda Við Rángárínga stefnu' að halda.

74. Vestu fóru bændur, og vóru bún'ir stálum, Eyda fóru á þíngskálum, Eptir stóru fluttníngs-málum.

75. Senn í spjalli eids þeir allir Ödl'íng heita: Hákon snjalla hlýdni veita Hans og Jarli' um Ísa-reita.

76. Andrés kundur á þeim fundi er með Hara, Nordur mundi fylgja' og fara Sjúka-stundir medan vara.

77. Hermir letur: hardur vetur héðan kæmi, Feldi hretin fjár ódæmi, Flesta setur að uppnæmi.

78. Hilmir qvad: nú henta það, að heitið mundi Einmánadar á samfundi, Í þeim vada [30]) sem ádundi.

79. Ödlin blessa eymda pressu af svo kasti, Olafs messu fyrir fasti; Flestir þessu jáðu' í hasti.

80. Séck

af, taka enda; en linni er ormur, linna þraut, vetur.

[30]) Vada; fyrir voda.

80. Géck þad heit um hvörja sveit á herjans qvendi, Jarlinn reit [31]) og sídan sendi Sudur hid neita bréfs-erendi [32]).

81. Hyrdir Presta heitid besta, heill-um laginn, Prúdur festi á Páskadaginn, Prófid siest ad fiell í haginn.

82. Vard svo fagur vedra-dagur, vor innleiddist, Fjúka-bragur allur eyddist, Ar og hagur fróni greiddist.

83. Bjorns á degi, sem eg segi sæld-um hrósi, Hér kom fley í Hvitárósi Hárs vid mey, frá Nidarósi [33]).

84. Var á fjarda-blacki barda-bör einn lendur [34]), Frá Ödlings gardi utan sendur, Og Hallvardur Gullskór kendur.

85. Bod-

[31]) Reit; ritadi.

[32]) Svo sýnist, sem þá hafi Biskupslaust verid á Hólum, og því hafi Jarl sendt sudur til Skálholts Biskups.

[33]) Ósi; er tvisvar, en kann ecki lastast, því sitt er hvort Hvitár-ós í Borgarfirdi og Nidarós í Norvegi.

[34]) Lendur; er Edalmadur, svo vóru þeir í Norvegi kalladir í þá daga.

85. Boðskap Hildíngs bar hinn gyldi, bændur láta Þeng'li mildum þjónkun játa, Þegns og skyldu' í sama máta.

86. Jarl við þar hann brádt uppbar hvad Budlúng vildi, En hinn svarar: að hann skyldi Ei tilspara, hvad sem gyldi.

87. Hittust enn þá Herramenn á hausti sama, Atla senn að efla' og frama Erinden og gjor'á sama [35]).

88. Nockrir fóru Norvegs Stjóra'og nú ei tofdu, Er móti stórum stadið hofðu, Þá stála-þórar eida krofdu.

89. Nytur Jarl á nordur-hjall þá nádi snúa, Ræddi snjall við bestu búa, Um Budlúngs kall til lands og hjúa.

90 Upplét þannig allann sanninn old við teita, Það sem hann réð Hilmi heita, Honum er vann þá nafnbót veita.

91. Ytar qvádu einka-ráð svo ætt-jord haldi, Að fria lád úr Fylkirs valdi, Fegnir jádu stóru gjaldi.

92. Budu

[35]) Sama; er einnig tvisvar, merkir sitt hvørt, það fyrra pronomen, idem; hitt sáttmála eda convention.

92. Budu senn þeir mætu menn, svo mætti linna Aleitnen af hendi hinna, Hundrud tvenn, og sumir minna.

93. Hallvardur, sem hèr var kjur og heyrdi' á ládi Þennann kur af kappa-rádi, Klókvitur svó gégna nádi.

94. Vill ei Þengill þessu mengi þján-íng sýna, Heldur engin aura-pína [36]) Yfirgengi landsmenn sína.

95. En hann kys: ad øld á lýsu eng-ja-tjaldi, Hlýdni lýsi hans ad valdi, Og hæg-ann Vísi skattinn gjaldi.

96. Í Skagafjørdinn skrifadi Vørdur Skjoldúngs-manna, Og þau kjørdu øll ræd banna Aløg hørdu Nordlínganna

97. Sem í síngur Fylkir slíngur fær þad letur, A vorþing, nær út'er vetur, Almenníngi stefnu setur.

98. Fjølment var á þíngi þar med þrasi stóru, Nockrir Hara' um sídir fóru, En samningar ei gjordir vóru.

99. Blómi

[36]) Aura-pína; ødru nafni fje-pínd, útlát, fjár-áløgur.

99. Blómi frídur foldar lídur fram ad Þíngi, Því nærst rídur Þjóð-foríngi, Og Þángad býdur almenníngi.

100. Nordurlands var kappa-krans á kreik med Jarli, Tólf án vansa héldu á hjalli Hundrud manns ad fylgja karli.

101. Holdu fjöllin ofraun, öll vid umreid Þúngu, Hófa-göll í hömrum súngu Hrörsu tröll, en joklar sprúngu

102. Austan, vestan, oldin flest á ygg-jar-sprundi, Þreytir hest, en Þruman stundi, Þínareid mesta vera mundi.

103. Gullskór var og godarnir þar á grída-velli, Og sjálfur Hari hulinn pelli Hjálminn bar med greipar-svelli.

104. Taladi hann, sá tignar-mann, vid traustmenni kënnda, Og rádgast vann med vin'inlenda Um vanda þañ er gjördi henda.

105. Eptir hvad hann upp nú qvad í áheyrn bænda, Erindi þad er Odlíng Þrænda Ega bad til Köngdóms vændá.

106. Og svo tjádi: er mitt ráð, sem ei skal dylja, Ad gësa' upp lád med góð-um vilja, Og Gissa náð í móti skilja.

107. Fjör-

107. Fjorrád er hid mesta mér ef móti bandid; Sjáid þér hvar sjálfir standid, Ef Sikling fer og vinnur landid.

108. Loks þá beiddi' og ordum enddi einka mildum, Huginna leiddi' ad Himirs vildum, Hér vid greiddist alt med sundum.

109. Eptir þetta, en hefi' frétt af hta mengi, Í Lögréttu gódur gengi Og gøfugir settust fróns á þvengi [37]).

110. Innan banda ves [38]) þeir vanda virding mestu, Og til handa Ødling festu Ísalandid, hvörvar bestu.

111. Tólf þar fóru Sjóla stórum Sunnlendingar, Allteins vóru Austfirdingar, Átta og fjórir Nordlendingar.

112. Líka þá var letrud skrá [39]) og løgd í minni, Sem lesa má í Løgbókinni, Hvad landid á ad Kóngstjórninni.

Í  113. Vest-

[37]) Fróns á þveingi; þveingur fróns, er jardar-torfa, svo vóru setbeckir, í hinni fornu Løgrettu, hladnir af grænu torfi.

[38]) Bønd ves; þau fornu vebønd, sem menn vita enn þá ad nefna, þó úr brúki sen komin.

[39]) Letrud skrá; sáttmáli milli Norvegs

113. Vestfirdínga vantar híngad vel sem bæri, En á þíngi þeirra særi Þveráringa [40]) sagt er færi.

114. Bid eg fróda lýdi ljóda lend-íng endist, Klidur hljóda qvendi send-ist, Qvidur óda' af hendi bendist.



## XV. Ríma.

Andréssynir fara ad Jarli; Þórdur drepinn.

Old á qvøldin heimtar hér Hnik-ars bikar enn ad mier, Sumum gumum gam-an er Og gullhlads fullum sónar hver.

2. Lengi mengi leidast má, Lídur og bídur tími sá, Aldrei baldurs ølid sjá, Og ecki smeck-inn þar af fá.

3. Skyldi, vild'eg skíra flest Hvad skollvalds ølli veitslu brest: Hjedan ljed var bókin best, Bragar sagan átti frest.

4. Bjarn-Kóngs og Íslendínga, þrycktur aptan vid løgbókina.

[40]) Þíngi Þveráringa; þetta Þverár-þíng var í Borgarfirdi.

4. Bjarnar-Tjarnar beid hún nær, A bóli-njólur [1]) heilar tvær, Klerki merkann fródleik sær Og fjölnis öl, sem hjá honum grær.

5. Straum ónaumur hefir hann Horna fornjóts voldugann, [2]) Sem fjall um hjalla foss med sann Fleygi, er eigi stödva kann.

6. Bóka klókann bad eg grjer; Ad bæta'á stræti penna hjer Og einn beina ordi mjer; En ecki fekk hann þad af sér.

7. Því má Rímu þessa vid Preyta og streyta' um skammdegid, Sendist endist ása lid Einum seinum bragar smid.

8. Hleidólfs skeid eg heppti þar, Og hætti sættum blindvidar; Er hylla Stillir höfdingjar, Og Hara svarid landid var.

9. Rafn ad nafni Oddsson, er Adur tjádur laungum hér. Gyldur vild'ei Geira ver Gissurs missátt haf'á sér.

J 2 10. Fund,

[1]) Bjarnar-njólur, vetur, nærri tvo heila.

[2]) Straum horna fornjóts voldugann; maka til anda Gudmundar Bergþórssonar, um hvørn vid höfum ádur qvedid.

10. Funduſt, bundu ſyrar þar, Fyrir dyrum kirkjunnar, Heilt óveilt med hyggju-far, Og handabandi ſættirnar.

11. Sídan rídur ſjálfur Jarl Og ſveitin teita nordur fjall, Sinna kynna heim á hjall, Hyrd í kyrdum ſtýrdi ſnjall.

12. Sumar aumum ſá t er leid Sikling mikla Kjøls á heid Sína brýnir ſudur-reid, Sama framur tíma ſkeid.

13. Giſtir fyrſt í Túngu thr Teina ad beina [3]) Klængur ſnýr, Þjódungs bródir þared býr, Þocka nockur høldur ſkír.

14. Ásta ſkáſt hans inna þar, Andréſs banda-ſeljan var, Dóttur þróttug dygdapar Drýgdi og ſkygdi á brædurnar [4]).

15. Giſſur viſſi hinn Gladi þá, Gramur framur hvar ed lá, Móti ſkjótur málma-ſá Meidir reid, og ſveit ei fá.



[3]) Beini þýdir geſtriſni; ad gánga um beina, er ad vera fyrir veitſlu og framreidſlu

[4]) Skygdi á brædurnar; hún var ſyſtir þeirra Andresſona, og kallaſt, ad einn ſkyggi á annann, ſem er hýnum fremur og betri.

16. Ad fylla Stillis ferda vès, Förnstó um áleides, Ettir þetta ullar hlès Elda hèldu sudur á Nes.

17. Gista fyrst í Gördum rèd Gissur nissur (hef'eg sied) Rockr'af flocki fylgdar med, Fagnads hagnar atlæted.

18. Rafn ad nafni seadir sinn, Til Sjóla, Olaf kynstafinn ⁵), Varar Hara' um vèlrædin Og vísann lýsir trúnadinn.

19. Andrès, fjanda elar þèr, Arfi' ó-þarfur, hyggjum vèr, Þú mátt trúa þar til mèr: Þórdur mord í sinni ber.

20. Haf'eg vafid heljar styr, Hæpt og tæpt þig varad fyr, Brennu-menn þá heyptar hèr Hreyktu' og qve'kt'um þínar dyr.

21. En mèr kènn'eg ecki þá Ordi fordum vind í slá, Nú skal trúskap traustann sjá, Tála-máli krassa' ei á ⁶).

 22. Varla

⁵) Kynstafur; bródir eda frændi.

⁶) Krassa á, er sama, sem ad tæpta á; hjer sýnist, sem Gissur Jarl hafi einhvorntíma brugdid Rafni um, hvorsu linlega hann var-

22 Varla Jarlinn æmtir, ad Ord frá bordi hvorgi qvad, Hinn ad sinni hèllt af stad, Hafdi og tafo'ei meir vid þad.

23. Hèldu um veldi hêdan frá Hradir-stadi Drumbodds, á, Tiggja dyggum rúms í rá, Nótt um nótt vard ecki þá.

24. Skjótt í ótiu Ræsir réd Rísa', er lysir úlfs um bed, Hvítá flytir ferd upp med, Fengu drengir menn þá sjed.

25. Njótum-móti nodru-hvamms Nær og særast innan skamms, Breyttum skreytt-ir hildar hams, Hófa- prófa sparkid-gams.

26. Nockur flockur sá í sjón, Ad sennu mennum leitar um frón; Ódling sodla sefar ljón, Sjer og tjer af þessum tón:

27. Eru hèr nú Averjar, Undan skund-um hvatligar; En í sennu brádt ad bar, Brædur skjæda, saman þar.

28. Ei med þeim er Þórdur þá, Þókti klókt hann vær'ei hjá, Ad Milding skyldi sinur sjá Vid svika-striki', og ad sèr gá.

29. Gyld-

varadi hann vid Flugumýrar-brennunni, og hafi nú ætlad ad reka af sèr slydru-orþid

29. Gyldur Hildiglúmur hét, Genginn fenginn í það net, Bragning magna benja-hret, Bestann hest sér velja lét.

30. Gramur, tamur geirs við þing, Gérir berann sinn tyrfing, Og vaskur aski[7]) veifdi' um kring, Var sá Hara mentin sling.

31. Glúmur ná með grimd og kjóst, Gofugann Josur uppáslóst, Hefti skeptu' í hægra brjóst Hara snarar, fleins í gjóst.

32. Ræð'eg, klædin ristust við, Rótar spjótið útá hlið, Sára gári seims á við Sakar, lak ei allmikid[8]).

33. Hallast Jarl á hesti' um leið, Haraldar þá að honum reið Arfi djarfur, er var breið, Er hann ber í skofnúngs-heið[9]).

34. Höggur snöggur happi sá Hrósa' og kjósa þókkist á, Fjall á Jarli fálka[10]) þá, Feigum meg't sundur gá.



[7]) Askur; sverðs-heiti, hann sveiflaði um sig sverðinu.

[8]) Varð lítið sár, og blæddi ecki mikid.

[9]) Heid, jörd eda land skofnúngs, er hönd.

[10]) Fálka-fjall; hönd eda örl, því fálkar eru vandir til ad sitja á örlum.

35. Géck þad ecki greidt, eg finn, A grasi frasar hesturinn, Kom lei vomur hoggi' á hinn, Af happi slapp í þetta sinn.

36. Jafnan nafni' á hina hlid Hradur Gladi[11]) syndi lid, Haukur ad auk þá vinstri vid Vard', en spard'ei tilþydid.

37. Hleypa sleipir hjörs af fund, Og hyda' í strida foldar-und Blacka rackir beint á sund, Backa klacklaust nádu' ad stund.

38. Hradann þadan héldu rétt Hildings fylgd, sem eg hef frétt, Peysa geysi-láta létt Lung ad Túngu' í einum sprett.

39. Böndinn göndl' á bísna reid, Burd-ugann spurdi késju-meid: Hvada vada hefdi' og neyd Hættu mætt á sinni leid?

40. Svarar Hari seima-grér: Sifar[12]) krisu þin ad mer, Oss á hrossum óvæger Elta, og svelta hyggja sér.

41. Láttu brádt upp kirkju, karl! Klængur vænginn[13]) opnar snjall; Páng-

[11]) Gissur Gladi.

[12]) Sifar, mágar.

[13]) Vængur er á hurd, og má svo heita hurd-in sjálf.

Þángad gánga þá nam Jarl Og Þylur, skil eg, bænar spjall [14].

42. Gissur vissann Glada bad, Gjøra sor í lidsafnad; Beid ei, reid hann strax af stad Stock, og hrock upp old vid bad.

43. Ramur gamall reckur hér, Reimur [15]) heim'á bænum er, J kirkju styrkur kreika fer, Kistur ytst ad hurdu ber.

44. Fyrir dyrum flyckjast enn Fylgdar, vildu' og heima-menn, Andréss vandir arfar senn, Odum vódu' í hladgardenn.

45. Brást vid Ásta afár-reid, Od ad bródur sína leid, Eyólf slegid gétur greid, Gaur af stauri høggid beid.

46. Hrókar tóku høndum á, Og héldu elda-rinar gná, Inn'eg, minna af vard þá, Enn atlad fatla- hafdi -rá [16]).

J 5 47. Bræd-

[14]) Þetta er engin kýmni, heldur siest af Flugumýrar-brennu, ad hann var bænrækinn og badst vel fyrir.

[15]) Þorleisur Reimur.

[16]) Rá; sama og spíra, algengin qveñ-keñing.

47. Brædur skjæda bóndinn snjall, Bidur hlida til vid Jarl, Og vinna' ei svinnum grand né gall (Eg gét, þeir meti litt hans spjall).

48. Kappu vomar kórnum ad, Og qvádu rád, hann brjóta' i stad, En brædur skjædir banna þad, Betur létu óskyslad.

49. Mildíng vildu mæla vid, Meingadir gengu' i fordyrid, Segir egi' um samtalid, Samt óskanit þeir hofdu bid.

50. Jarl réd spjalla: ordid er Þad eina' i greinum med oss hér, Ad sætta mættum sjálfir vér J sóma' og tómi frændurner.

51. Lagdi' ad bragdi bóndinn til Bestu' og flestu mála-skil; En adrennur um þad bil, Old i fjølda Jarl'i vil.

52. Dregur þegar Sjóli senn Sætt-ar hættu vilmælen, Uns fleiri' og meiri fulltings-menn Fundust mundi komnir eñ.

53. Andrés vanda' i efnin slá Orsum djorfum virdtist þá, Brádt ósáttir fóru frá, Fund med skunda Þórdar á.

54. Sátu' ei kátir med ser melt, Mikid þykir undan-velt, Hafi' án vafa Hilmir elt, Af hesti' ad mestu nidurfellt.

55. Þórdur vordinn þá svo tjer: Þykir mikill Ydar her, Og hyggju Tiggja munur mér, Má ej tjá ad sitjum vér.

56. Kann eg sanna gjöldin g á Þó gengi drengir hann uppá Smærr', enn nærri nú vid lá Naumt ei skaumtud mundi fá.

57. Héldu í seldum hildar-bjó's [17]) Hradir af stad á baki jórs, Yfi svifar ána-Þjórs Austur, um haust, í myrku Þórs.

58. Dvalist falist fengu þar, Fundu stundum bygdirnar; Sneidi Heidólfs sneckju far, Og snúi ná til Gissurar.

59. Lætur mætur lands um bú, Lýdum vída fásna nú, Herma ber mér, hersing sú Hundrud mundi tvisvar þrjú.

60. Austur traustur Ødling reid, Arnar járni saldinn sneid, Rángár

 váng-

[17]) Bjór, er skinnbjór, svo kunna herklædi kallast hildar-feldir.

vángur [18]) baga beid, Bákí nú þeir hjugg'um leid.

61. Þórdur tórd'i faxi fjalls, Feigur segist mundi' hann alls, At grid ef ridi Gissurs karls, Og gengid fengi' á nádir Jarls.

62. Rída sídan mætir menn, Milli Stillis hans og enn, J Teigi' á degi settur senn, Sáttar átti fundurenn.

63. A þíngid híngad Þórdur fer Og Þengils mengi; fregnum vér, Sjóli' um bljós sésur hér, Og sveitin teit ad med honum er.

64. Þrjá-

[18]) Vángur; land, svo kalla menn vída-váng eitthvørt vídlendi, Prúdvángur heitir í Eddu bústadur Þórs, og mørg stada nøfn í Norvegi, sem kiennd eru vid váng; þad er líklega dreigid af væng, eins og menn kjenna plátsin hinsslega: Enni, Kinn, Sídu, Bóg, og segja: uppá, framá, ofaná bóginn, svo er eins náttúrlegt ad kalla plátsid væng eda vánga. J. NL. finnst og Vong í þessari meiníngu.

64. Þriáthgi, játa' eg, Þórdar menn Þar og varu í kirkju senn, Mildíng villdi um morgunenn, Ad meidar skeida vopn-ist enn.

65. Klerka verka kom ad rann, Qvíar í þeim radar hann Fyrir dyrum, fram-gángan frín ei sýnast hinum kann.

66. Þrútinn út geck Þórdur fyrst, Þe'r og fleiri' af kirkju vist, Ox'i voxnum axl-ar-qvist A héldt sá, med lyndi tvist.

67. Greifinn þreif í genju[19]) - skapt, Gét eg léti Þórdur tapt, Eins og meins á hondum hast, Hefdi' og vefdi fleina-rapt.

68. Býdur sídan Budlúng þá, Bænd-ur frændum Þórdar frá, Hildar-bíld-um[20]) hinum ná, Hér og skér[21]) þad qvad hann á.

 69. Ettir

[19]) Genja, öxi.

[20]) Bíldur, er blódtöku verkfæri og því mega vopn eins vel kjennast, svo sem: býlda og bíla, öxi.

[21]) Skjer, skjedur.

69. Ettir þetta Odlíng bad, Það flýti sér af stad, Raptar skapta Rángár vad, Reyna' og beinast yfir þad.

70. Þar med var í Þjódúngs her Þórdur fjórdi' og brædurner Og Haraldar, sem hermdur er, Hesnir, nefna Sæmund ber.

71. Þengill drengi þá feck sett, Þeim til geymsl'um daginn rétt, Ad engum fengi ollad prett, Og undan mundu' ei sleppa létt.

72. Ræda brædur svo med sér: Sveinar! meinid hvad nú þér, Ort mun gjört um hag vorn hér, Þá hroda skodad málid er?

73. Sagdi' ad bragdi Þórdur þá: Þetta rétt eg kann ad sjá; Þeir mig keyra fjöri frá, En fridi' og gridum hinir ná.

74. Hrockti snoggt um hófa=mar, Hann svo dans vid qvedur þar: Mínar brýnar blý=þúngar Berar eru sorgirnar[22].

75. Stoltir holt í Þrándar þá Þengils drengir qvöldi ná, Sjóla skjól og sængur fá, Sofa' í stofu Þórdur má.

[22]) Mínar eru sorgirnar þúngar sem blý, qvad Þórdur.

76. Geck ad reckju Grams einn inn Geira freyr um morguninn, Vakir spakur Visirinn, Og vekja tekur máls um sinn.

77. Hef'eg án efa hugad mér, Hvad í stad nú rádid er, Arfa' óþarfa Andréss hér, All'ad stalla' í feigdar hver.

78. Sæmund dæm'eg-sama um, Seigdu' ógeigdur eidsvorum, Og minum sinu sylgjurum: Frir tigist hervopnum.

79. Sídan skrydist gudvefs-grér Gjorla' og sorla tigin ber, Líka ríkur Hilmis her Hardt og snart ad stofunni fer.

80. Vopnadir opna beggja-mar, Vóru fjórir inni þar, Fyrir dyrum Fylkir snar Frid og grid þeim affalar.

81. Segir degi somum á, Sif'án isa[23]) skyldi þrjá, Og Sæmund dæma fjori frá Feigdum beygda hoggva' í strá.

82. Barmar harma bod vid snegg, Brugdu' og hugdu' ad shna regg, Gripu' í svipun svidris plogg, Sér ad verja fleina-dogg.

83. Segg-

[23]) Isa fyrir efa.

83. Seggir veggi Sjóla' uppá, Sækja' og krækja' um ræfrið há, Glugga'um hjuggu geirum blá, Og grjóti róta inná þá.

84. Linast hinir, lúðist mund, Logðu flógðin af að stund, Benja, menja af bljúgri lund Beiða meiðar Prests um fund.

85. Fenginn drengjum víst nú var Að verki klerkur aflausnar, Gøfugann Jofur gæðingar Griða biðja hinum þar.

86. Andréss Brandi arfa fyrst, Oruzt fjórið blotnaðist, Eyólf segir senn með lyst Og Sæmund kæm'ł griða víst.

87. Þórður fjórði eptir er; Enginn drengja Vísir tjer, Griða biðji honum hér, He'ju selja' hann ætlum vér.

88. Sanna' eg, annar ockar hvor A og má sitt láta fjør; Þagna bragnar sett með svør, Síst þeim lítst á betri kjør.

89. Ut af hrútum ása[24]) Þar Eftir þetta hinn seki var Leiddur, beidd'ei lífsgjafar, En landráðandann ávarpar. 90.

[24]) Hrútum ása; hús, eins og það er rjett, að kjenna hús til allra dýra-heita, svo má einnig til hrúta og hafra, þó nú se ecki algengið.

90. Bið eg ydur, Gissur! greidt, Gef þad hef eg þig uppreitt, Mér til bert og móti breytt; Mildíng snildar-ans féck veitt.

91. Þetta rétt, sem þú umbidur, Þad í stad skal veitast ydur, Þá daudur hauðurs fadmar sidur, Flærd, óværdir skilinn vidur.

92. Letrid getur, Þórdur þá, Þeim er geymia' og heldu á, Ur greipum hleypur hradt sem má, Herdir ferd, sem undan lá.

93. Nockrir flocki Nistúngs af, Renn'ad renna dýrs um haf, Ettir léttum orvastaf, Einum seinast færi gaf.

94. Andrés branda-bor einn hét, Brádur nád'í Þórdar fet, Og handabandi heftann lét, Hrjádir bádir duttu' á flet.

95. Sidan skridur sakamann, Sér og kéri stad annann, Hendur benda kross í kann, A qvid og nidur lagdist hann.

96. Gengur drengur annar ad, Or til hoggs og reidd'í stad, A svírann stýrir sveigju[25]) blad, Sára báran gaus vid þad.

97. Þreif-

[25]) Sveigja, öxi.

97. Þreifar Greif'i sárið senn, Snýst brýn ei aðgjörðen, Beiddi: hann reiddi aptur enn, Ur ugg og skugg'að gengi menn.

98. Boðull hroðu brögði með Benja Þenju [26]) veifa réð, Hvast í brast en hofs' uðed Hjó, svo dró af tvímæled.

99. Makleg stakleg málagjöld, Megum segja þessum höld, Greidd og reidd að kæmi köld, Klækja' ofstækis fyrir völd.

100. Þengill lengi þá ei beið Þórðar norður eptir deyð, Hraðan þaðan hélt á leið, Og hollu fjöllin yfir reið.

101. Hyrðmenn kyrrðir hafa bað Um Hret og vetur eptir það, Sjóli stóli sett-ist að Sínum fínum heim'á Stað.

102. Móðu glóða hlýðir hlíð, Hróðr ur óða líði' um síð, Flóða Odins flýði tíð, Fróð'um bjóða kvið'eg lýð.

[26]) Þenja; axar-heiti, er einnig tröll-konu nafn, sem kjennast má til blóðs eða benja fyrir öxi.

# XVI. Ríma.

Um elli og afdrif Gissurs Jarls.

Vita-bikar, vaninn er, Ad veitslu lokum bera, Þetta sónar-falla kjer, Sídasta skal vera.

2. Obedinn eg ad mjer tók, J enda skal því lýsa, Ad yrki'af Gissurs æfibók, Enginn mun því prísa.

3. Lygasøgurnar láta betur, Líflega má þær skja, Eyrun klæad allvel getur Eptir þeim ad snikja.

4. Þar má heyra óskøp øll, Austur og sudur í heimi, Flugdrekana' og ferleg trøll, Er fordum láu' á seimi.

5. Þar á fróni fljúga skip, En fákar renna um geiminn, Allt er komid í einum svip¹) Jnnan um vídann heiminn.

6. Eins og ljón um orustu gólf Afrekskappar hleypa, Og í høggi tíu' eda tólf, Þyrs med báli steypa.

7. Bed-

¹) Sigla þad, sem ecki er skipa-vegur, og rída hitt, sem ecki er landvegur, eins og opt má finna í lygasøgunum.

7. Vedjan skjelfur óma oll, Þá orusin lúðr-ar gjalla, Blóðs af undum boða-foll Blackar stand-ast valla.

8. Hundruð ótal hreysti-menn, Hárs með fella loga, Og vídann blaða valkostenn Velj í sødulboga.

9. Stálbrynjaða og stóra menn Stoltir í hildar bráki, Kljúfa' í bragði einu enn Ofan í jörð, með fáki.

10. Gilfar sitja gullborg í, Gimsteinarnir ljóma, En turnar undir taka ský; Trómeturnar hljóma.

11. Fílabeins á fögrum stól, Frá eg það betur hlýði, Kónga-dætur sigra sól J sinni fegurðar prýði.

12. Þegar flýtur fordyldar, fram af slík-um sögum, geymslu mjøður Gunnlaðar Hjá greppa-monnum høgum.

13. En eg fretti, að ýmsir menn Undarlega dæma Um Jsa-foldar Ødlíngenn, Sem ecki kann eg sæma.

14. Oheil smíði telja til, Tála-mál og hrecki, J svoddan røkum síst eg skil, Sagan særir það ecki.

15. Hverr

15. Hvørr, sem opt er umsetinn, Af øfund-ar slægu sagdi, Litst mjer ei Þó komi kyn Krók-ur á móti bragdi.

16. Heilagur svo enginn er Alda hjer af sonum, Alla gjøri sátta sjer Seggi jafnt ad vonum.

17. Svo ef nockur sýna kann, Søgunni vil eg ei neita, Otilneyddur hafi hann A hølda gjørt ad leita.

18. En Þad furdar einatt mig, Um Þau styrjar dægur, Skati hvad var samt vid sig Saka-dólgum vægur.

19. Máls Því greina álykt er, Og honum ber sá hródur: Enginn manna, ætla eg hjer, Eins var Þranta-gódur.

20. Lifdi svo til lykta vel, Og lucku sína tryggdi, Hans jafnfngi hjer eg tel, Hvørgi á landi byggdi.

21. Annarsstadar eg eitthvad fann, Þó ecki Þyki nægja, Hvørsu Ødlíng eldast vann, Og sin metord lægja.

22. Nú skal ecki mansanngs mind Meir úr hófi teygja, heldur sudra sævar-hind Til søgunn-ar apuur hneigja.

23. Sétid er þess, ad Gissur Jarl Gjordi nordur rida, Andrés kundar eptir fall, A sinn gardinn frida.

24. Ná var enginn ósundar madur Eptir, hans á dogum, Fylkir sat í fridi gladur, Fylgdi stjórnar hogum.

25. Hóla Biskup Henrik var Hédan burt af landi uti Norveg, einnig þar Orpinn vígdum sandi [2]).

26. Besti madur Brandur hét, Er Biskups rédi dæmi, Aldar Herrum eg þeim gét Allvel saman kjæmi.

27. En þad góda (sogn er sonn) Sjaldan varir meingi! Herra Brandur heims frá onn Hneig og ríkt'ei lengi.

28. Audt í sæti aptur þar Umbodsmadur settur, Arni Þorláks arfi var, Ungi Páfans réttur.

29. Sídar Biskup sydra vas [3]) Sagdur styrjar andi, Og átti nær vid alla þras Ædstu menn í landi. 30. Var

[2]) Vígdum sandi; þad er: grafinn í vígdri moldu.

[3]) Vas, fyrir var finnst opt í Sched. Ara Prests Fróda; en brúkast hjer ecki af marg-

30. Var hann' nidur og byria vann Vagals valdið stránga, Við Gissur Jarl, Og gjörði hann Gamanlaust að stánga.

31. Messu-djákn hét Oddi einn, A þeim somu dogum, Konu festi sagður sveinn Sér að réttum logum.

32. Næstr fylgdi að ráda-hag, Rétt-vel gedja frændum, Bragnar qvádu' á brúdkaups-dag J bestu hjúskaps vændum.

33. Beið ei lengi, barst og rann Bón-orðs þessi saga, Arni klerkur orsok fann Uppá slíkt að klaga.

34. Qvað hann væri kristni spjoll, Að qvæntist vigdur djákni, Brúdar-málin bañar oll Og bandar hordu tákni [4]).

35. Odling þad ei aktar glam, Og til bodsins ríður, Brúdkaupið svo færi fram, Frá eg ei að síður.

36. En á medan olið stóð, Arni nam þad frétta, Lysir banni bods á þjóð Og brúdgum' eptir þetta.

37. Jarls-

læti, heldur til að svara hinu endingar-orðinu, þras.

[4]) Hörðu tákni; meinast bannfæringar hótan.

37. Jarlinn reid úr hǫ́fi helm, Hyrd í gard nam bera, Læst var kirkjan þá fyrir þeim Og þókti kynlegt vera.

38. Frétta gjordi Fylkir þá, Fyrn hvad slíkri sætti? En he ma-fólkid hermir frá Hvǫrjum kénna mætti.

39. Adur laung var lidin stund, Lýdum þannig sinnast, Arni og Jarlinn áttu fund, A þær sakir minnast.

40. Telja nádi Fylkir fyrst, Fornann sid í landi: Ad vígdum ecki varnadist Ad vera í hjóna-bandi.

41. Margra dæmi Tiggi til Týndi, sitt og egid, Hann því fordum (hér eg skil) Hefir vígslu þeigid.

42. Og þar fyrri leidst ad logum Lærdir menn væru qvæntir, Illa þeir á orum dogum Eru því frelsi ræntir.

43. Síra Arni svarar í mót Sikl-ings hreinu máli: Vita' eg hann vissi ecki hót Af honum Sancte Páli.

44. Herra Páfinn hefir í Róm Hér á ordid skiædur, Yfir kristni-allann dóm Einn hann logunum rædur.

45. Legg-

45. Leggur hann vid hid bitra bann Og bodun þýnastu skripta, Vilji nockurr vígdur mann Voga sig ad gipta.

46. Lyktadi svo, ad Loftúng mætur, Þó lángtum betur kynni, Óyrisynju undanlætur Arna þessu sinni.

47. Hlaut ad vinna Oddi eid, Adur lausnár þádi, Ad selj'af hendi silki-heid, Sem hanu ekta nádi.

48. Sjálfur aflausn Sjóli tekur, Sídan bods-menn fleiri; Svo var Arna offinn frekur Ei kann verda meiri.

49. Undir skilnad skati tjer Skjótt sem bar til eyrna: Fyrst þú létst ei fyrir mér, Frændi! hvad mun seinna?

50. Þar þú frekur ert svo úngu Í álogum og skriptum, Mørgum verda munta þúngur Í mála vidurskiptum.

51. Legg er hér þann urskurd á, Allir mega þad heyra: Vanur er til ad vægja sá, Sem vitid hefir meira.

52. Líka hér af marka má Mann hvad ellin kéfur, Minna Gissur úngdóms á Árum þolad hefur.

53. Frá eg ei á fundi þeim Fleira var til sagna, Ræsir þadan ridur heim, En reckar allir fagna.

54. A Hlódida [5]) hjálparstad, Hilmir byggja nádi, Arin nockur eptir þad, Og yfir stjórnar ládi.

55. Stórmælum og stála-þrá Stillir gjørdi hafna, Fróni heldur átti' hann á, Enga sina jafna.

56. Oldin hóf upp annann sid Undir Kóngdóms lögum, Attust menn ei oruskur vid Uppfrá þessum dögum.

57. Heidmenn [6]) landsins héldu eitt, Hollir Drottinn fundnir, Enginn feck þar annann reitt, J æru' og trú sambundnir [7]).

58. Metn-

[5]) Hlódidi er eitt Þórs heiti, því svo segir Eddu-dikturinn: ad þegar trøllskjessan meig í ána, til ad gjøra hana ófæra fyrir Þór, og honum lá vid drucknun, hafi hann nád í reyni-hríslu, og dregid sig svo upp úr ánni; því kjenni eg Reyninesstad hjer vid.

[6]) Heidmenn, heita í Eddu høfdingjar, svö kalladir af fegurd eda skrautlegum búnadi.

[7]) Arni Biskup skrifadi Eireki Kóngi svo: ad

58. Metnads rík'er mjøg var fyr' Mill, um høfdingjanna, Hverfur nú í hrodum byr Ad hjørtum Biskupanna.

59. Hét Jørundur Hólum á Hyrdir klerka slægur, Arni sídan eins var þá Ad uppi-vodslum frægur.

60. Iþrótt beggja ein var sú: Med yfirvarpi laga, Odul manna, eign og bú Undir sig ad draga.

61. Þó þeir héldu ei málma-mót Monn, um til-ad granda, Bannfæringar breidu spjót A brøgnum létu standa.

62. Herra Rafn, sem hellt upp vorn [a]), Hér þann dóm á gefur: Arni færi' ad eins og bjorn, En hinn líkt sem refur.

63. Gissur Jarl, sem gegnum sá Gjorla þennann vanda, Og þad, sem fylgdi þar uppá, Þreynging allrahanda.

K 2 64. Lands-

høfdingjar í landinu væru honum trúir, en ósamþyckir sín á milli, hvad sídara þó ecki finnst í søgunni.

[a]) Vørn; hann hiellt uppi vørn fyrir leikmenn í móti Arna Biskupi í Stada-málum.

64. Landstjórn honum leidast tekur, Lánum daga sinna, Andi lindar [9]) upp hann vekur Annad ráð sèr finna.

65. Hafði Gramur mörgu mætt Mjög frá tvítugs aldri, Og meira prófað súrt enn sætt, A svidris bedju kaldri.

66. Þegar Skjöldúngs skutul-sveinn Skjóma gjördist meidur, A tuttugu vetur vantad' einn, Var það fyrst hans heidur.

67. En þá hann fèck oddum beitt A Örligstada sundi, Þridja tygar árið eitt Innt er skorta mundi.

68. A hans daga allmargt bar, Eptir vopna sennu, Fertugur ei að fullu var, I Flugumyrar brennu.

69 Nifláng þegar nafn vid hann Nádi Jarls að festa, A fimtygi árid vann Eitt i tolunni bresta.

70 Sira Eyólfur [10]) sagna skír Svo hefir kennt að nýju: Allinn væri tjörgu-tyr Tólf hundrud og níu. 71.

[9]) Andi Lindar; lind er troll-kona, hennar andi hugurinn.

[10]) Eyólfur Prestur Jónsson á Völlum í Svarfadardal.

71. Afgángs tídár ártal hans Ofs í letur færdi, Einn vísundur Íslands, Arngrímur [11]) hinn lærdi.

72. Innir hann ad Odlíng dýr, Eptir mædu lánga, Frá veraldlegum völdum snýr, Og vann í klaustur gánga.

73. Sá var mektar maña sídur Margra þeim á dögum, lýda forrád leggja nidur, Sem lesa má í sögum.

74. Allt hvad hafdi yfirsjest Ætlndu þannig bæta, J setu-lífi syndist best Sálar-hags ad gjæta.

75. Svo fór Odlíng ærutraustur, Er því lýst med sanni, Vistadist í Videyjar-klaustur, Og vard ad reglu-manni.

76. Þúsund mátti telja, og tvö Til eg hundrud spurdi, En sexthygi ár og sjö Upp frá Herrans burdi.

77. Hafdi fyrrum fadir hans Frægur drupnis álfur Stiptad þennann klausturkrans Og kaus a · evja' þar sjálfur.



[11]) Arngrímur Prestur á Melstad í Midfirdi, og Officialis Hóla-stiptis.

78. Sira Arngrímur sannfródur, Somuleid þess gétur Ad sálast hafi Senniur,[12]) sídan nærsta vetur.

79. Reikna hér af Mildings má, Mána tylftir niu[13]) Upphafi til enda frá, Og fimmsinnum tíu.

80. Vísir, svo sem væntast kann, Var med tign úthafinn, Ad Videyjar klaustri veit eg hann Veglega munu grafinn.

81. Lítst ei þetta lítid mér, þar liggi slíkur madur; Videyjar klaustur var og er Hinn virduglegasti stadur.

82. Ná er þar komin stein-holl stór, Er Stillir upp lét byggja, Vantar ei heldur kirkju' og kór Koppum í ad liggja.

83. Ut af prýdi Eyjunnar ecki qved eg meira, Islands Kassar eru þar [14]). Og annad kannské fleira.

84. Þad

[12]) Sennior er ad vísir frønsk glósa, dregin af því látínska Senior, og merkir Øldúng eda Høfdíngja, en hefir á stundum brúkud verid af vorum forskáldum, og finnst med Kónga og Hofdíngja kenníngum í Skáldu.

[13]) Mána tylft; audskilid, því 12 mánudir eru í ári, ad Jarlinn hefir ordid 59 ára.

[14]) Kassar; Kassi er peninga-hyrdsla.

84. Pad var oss í søgunni sagt, Ad Sjóli fordum dýri, sína misti sona makt Í seydi' á Flugumýri

85. En þess getur ei til sans, Hvort ætti hann nockrar dætur, Svo æxlast[15]) hafi ættin hans Og aptur komid á fætur.

86. Eitt hef'eg litid annáls blad, Excerpta[16]) vér kollum, Med eginn hendi Uppteiknad Eyólfs Prests á Vøllum.

87. Í þann tíd, sem Ødlings menn, Attu í vanda brjálum, Vid Arna Biskup ásælenn Ut af Stada-málum,

88. A Moosfelli eystra þó, Sem er fyrir nedan heidi, Hoskur einn ad høldur bjó, Sem herjans ber í veidi.

89. Gissur Einars arfi var, Iggur sofnis-hellu, Um ætt hans greinir ecki par A svo smárri pellu.

90. Ad eins er nefnd hans ekta-frú Og ad Þóra héti, Gissurs dóttir greind er sú Greif' á Ísa-fleti. 91. Litst

15) Exlast; æxli kallast þad, sem vex út úr einhvørju ødru, og tekur nafn af vexti edur auka.

16) Excerpta; kallast hvad hellst, sem útdreigid er, safnad saman og uppskrifad af hinslegum vísindum.

91. Lítst mér hafi laungétin Linda verid Þella[17]), Meiri tignar málma-hlyn, Mundi géfin ella.

92. Gjora sér í gruni má, Gulls ad brjótur svinni, Upp hafi komid audar-gná Med Ingibjørgu sinni.

93. En hvort nockra nidja hér Niptin eptirskildi, Þad er eckí augljöst mér, Eg þó gjarna vildi

94. Oska', ad nockurr ættfródur Oss þad nædi kénna, Og hvar Døglings ættsprengur elst um tíma þenna

95. Eitt, sem fyrr var útigleymt Af æfisøgu Tiggja, Til endíngar er eins vel geymt, Og óhrært skal ei liggja.

96. Adur hann fór utan fyrst Ungur hédan af ládi, Késju-lundur qvongadist Ad kjørnu-fødur-rádi.

97. Ingibjørg hét audar-brú, Ættgøfug til vonar, Snillings dóttir snótin sú Snorra Sturlusonar.

98. Hóf í Reykjaholti var Haldid brullaups mesta, Moldu-jardar mundi þar Mannval komid besta. 99 En

[17]) Þella; svo qvedur Loptur ríki. bjørt hrellir mig vella þella; er sama og þøll, einslags vidar-heiti, og þollur karlkyns, hid sama.

99. En þess gétur ecki meir, Eptir brullaups framann, Hvorsu bauga-bil og -freyr Bjuggu lengi saman.

100. Ætlon heldur er min samt, Af efni kríngumstæda, Líneik hafi lifad skamt Lóns med veitir glæda.

101. Þad hafa laungum merkir menn Mælt af spektar snilli: Væru' ei allar ættir senn, Sem ega saman hylli.

102 Svo var Sturla ættin øll Unnar-þaks á hjalli, Hvorgi raunar holl né bøll[18]) Herra Gissuri Jarli. 103.

[18]) Bøll; svo sem eg má vita, ad summum mun þykja þetta kátlegt ord, já! dóna-fólk heldur og brúkar þad fyrir klám, sem því er gjarnan eptirlátandi; vil eg samt sýna ødrum vitrari, ad eg þykist vel skilja hvad bøllur med réttu þýdir. J søgu Gísla Súrssonar heitir knøttur, sem hafdur var til leiks, bøllur; því svo qvad hann: bøllur á burdar stalli brast, ec kann ei lasta. J Biblíu Gudbrands Biskups segir: ad knapparnir ofan á stólpum musterisins hafi verid bøllóttir, og mundi sá gódi Biskup ecki hafa látid setja nockurt klám-ord inni Biblínna; en qvennfólk þorir ecki ad lesa ødruvísi enn knøttóttir. Allar framleidslur skapananna í náttúru ríkjunum eru fyrst bøllóttar, og því er þad bølløtta haldin sú mind, sem Skaparinn hefir fyr-

103. Enda reyndist Ødlíng djarfur, Ærni vaxinn giptu, Sturlúngunum þegi þarfur, Þegar málum skiptu

104. Nú er komid meir enn mál Mærdarleysan þrotni, Herja-fødurs hinnsta skál Hér er tæmd á botni.

105. Nafnid binda mitt ei mun, Sem mjøg er skálda sidur, Mengid sér þad gjør'í grun, Hvørr greppa fleys er smidur.

106. Þvíngar springur þrautin tveñ Þak á vakurs lóni, Sunna' úr brunni audnu enn. Ísa lýsi frónt.

irsjed þá bestu, hafa því lærdir menn og spekíngar, skapad ser samslags ímindanir í þankunum, og kalla gott og heppid ord á látínu: rotunde dictum, en vjer: hnyttilegt, þad er: bøllótt svar. Dønsk skáld brúka og þetta adject. bold, fyrir gott eda vænt, svo qvedur Biskup Ringó í Psálminum: O! Herre min Skjold dit Ord saa bold. Item Prófessor Vadskjær í brúdar-versi nockru: Der boer inde en Enke saa bold; (svo skyldi qveda ad einni gøfugri eckju hjer). Vice-Løgmadur Eggert Olafsson qvad til Kóngs Fridriks 5ta: heillir, dygdir bera ballum, Budlíng þeim er Englar geyma; Svo er þá meining í Rímu-erindinu: ad Sturlúnga ætt var Gissuri Jarli hvørki holl ne góð.



